# Atli

edur

rádagjørdir ýngismanns um búnad sinn

helzt um

## jardar- og kvikfjár-rækt,

## adferd og ágóda

med andsvari gamals bónda

ásamt

## Búa-Lögum.



Kaupmannahöfn, 1834.

Prentad hjá P. N. Jørgensen.

# Atli

um

jarðar- og kvikfjár-rækt,

Ef þér erfíngja
audid verdur,
og ertu fáskrúdugur ad fé,
þínum kénn þú sonum
þær íþróttir,
er þeim fædslu fái.

Hugsvinns-mál.

---

Nockrir landa vorra hafa kvartad yfir, ad sá ágæti bæklíngur, Atli, saminn af Birni Prófasti Haldórssyni í Saudlauksdal, sé ordinn mjøg sjaldsédur heima á fósturjørdu vorri og ad þessi søknudur sé því tilfinnanligri, sem ritlíngurinn, ad almenníngs dómi, inniheldi margar gódar búreglur og snoturt málfæri. Pared vid vórum hérum á einu máli, tókumst vid á hendur ad útgéfa bæklínginn ad nýu og leggjum vid hann nú frammfyrir almennings sjónir óumbreyttann ad ødru enn réttritan hans, sem vída þurfti lagfæríngar vid.

Vard nú ritlíngurinn ad arka-tølu minni enn sú fyrri útgáfa hans, prentud í Hrappsey 1780, þókti okkur því tilhlýdiligt ad prenta aptanvid hann Búa-Løg, er vid meintum ad Ydur mundu, gódir landar! í fleiru tilliti umvardandi, eru þau óbrjálud frá þeirri eldri útgáfu, prentadri í Hrappsey 1775, þó er þess ad géta, ad formáli þeirra sem minna markverdur, þær svo nefndu reglur Búalaga og Alþíngis samþycktin af 1722 um lausamenn, vinnu-

hjú og lausgángara, er prentuð var aptanvið þau, eru hér undanfeld, samt að merkið (*) þýðir hér hið sama og í hinni eldri útgáfu, nefniliga: framanvið línu sett, að það þannig merkta sé frábrugðið handriti nockru, skrifuðu eptir kálfskinnsbók, við hvört aðalhandrit það, sem þá var lagt til grundvallar, var samanborið, en aptan við sett, að hvörutveggiu bæri saman.

Vonum við nú að þér, okkar heiðruðu landar! veitið ritlínginum ljúfa móttöku undir eins og við af hjarta óskum, að hann verði yður til sannra nota og uppbyggíngar.

Kaupmannahöfn þann 10da Marts 1834.

Þorgeir Guðmundsson. Chr. Christjánsson.

## Rithøfundsins formáli til Lesarans.

Ad kvikfénadar rækt og fiskifáng séu þeir almennustu næríngar útvegir, og gagnlegustu til lifsbjargar á Íslandi vita allir þeir, sem landid þeckja. Bædi á fyrri øldum og nú hafa menn hér á landi átt kost á því, ad sjúga gnægd sjáfarins og þá fjársjódu, sem fyljast á marar-botni 5 Mos. bókar 33, 19. Fiskur aflast og eydist fljótt, gjørir marga menn audugr, særir peninga inn í landid, og fædir margan sjósónda betur enn landbú þeirra: hann er besti partur kaupeyrs danskra kaup-manna, sem færa oss marga ómissandi hluti, en landid vidheldst ecki af þeim útveg, og geagur alltid af sér, ámedan jørdin ræktast ecki. Þad er eki gledilig tilhuxun,

ad land þetta verdi eydiklettur í sjónum til ad þurka á veidarfæri sjómanna, Ez. 26, 14. Sjóbóndinn lifir vel og grædir á fiskifánginu, ámedan þad luckast vel, og sveitabóndinn færir hønum allt hvad hann þarf af búmati fyrir sjóætin, en hans búskapur óhægist á bádar hlidar þegar minst von um varir; annadhvørt vantar hann kaupeyrir, þegar sjóaraflinn bregdst hønum, ellegar hann vantar kaupunaut, þegar sveitabóndinn, sem réri hjá hønum um vorid, hefur eingann búmat ad missa, er hann hlutadi ecki nær fyrir útgjørdinni: þó eru sveitabóndans kjør verri þegar hann óþrífur jørd sína, og lætur hana alltíd spillast meir og meir, því hvar skyldi hann þá adhvarf hafa, er hann yfirgéfur sitt eigid hreiđur? Um þetta efni hefur vel skrifad, bædi eptir náttúru þeckíngar reglum, og margfaldri eigin reynslu Sýslumadurinn í Dalasýslu Magnús Kétilsson, og er sá lærdi frammkvæmdarmadur æru og þackar verdur fyri þad hann skrifad hefur, og enn heldur med reynslunni sýnt hvad ábótavant sé í jardyrkju bænda, og hvørnin þad meigi lagfærast. Hvad þennann bækling snertir, þá er hann samtíníngur af nockrum tiltækjum og reglum, sem einstaka bændur brúkudu, og mér

sýndust hentugar fyri fátæka frumbýlínga: líka reyndi eg fyri sjálfann mig hitt og þetta, auk hins fyrra, sem mér þócti sídan betra enn ecki. Nockrum almúga meiníngum med þeirra andsvari er hér strád innan um. Þessi bæklíngur mun þeim óþarfi sýnast er lángtum betur vita til búnadar enn hann kénnir, en því svara eg: a) hann er ei skrifadur fyri þá. b) þad var ílla farid, ad þeir urdu ei fyrri til ad skrifa betur um þetta efni, c) er hann þeim og ødrum þarfur, ef hann géfur þeim orsøk þartil. Vilji nockur fátækur frumbýlíngur nýta eitthvad úr hønum, þá óska eg hønum verdi hann ad blómgan og gagni, einkanliga ad hann styrkist móti raungum meiníngum annara manna, en til þess þarf bædi skynsemi og svo kjark, ad standa af sér straum þeirra hleypidóma, sem madur er uppalinn vid. Bæklíngurinn er innréttadur sem samtal imillum ýngismannsins Atla og gamalls bónda, eptir reglum þess Konúngliga Landhúsholdnings Selskaps. Innihald hans er ad sýna ásamt hinu, þad sem satt reynist, ad eckért ervidi, og einginn næríngar útvegur er þarfari hér í landi, enn jardyrkjan, eg meina tún og engja rækt, og sídan þad sem þarmed verdur ad fylgja nautpeníngur,

sem feitir jørdina, og fædir verkamanninn: eckért ervidi launar betur búandanum fyrirhøfn sína; já þaraf lifir hann sæll í landinu, og hans afkvæmi eptir hann: hjá hinni ókomnu øld hefur hann sæmdarmanns nafn, og med þessum dugnadi í landyrkjunni kémur hann því til leidar, ad Gud fær margann þacklætis bordsálm af þeirra munni, sem annars hefdu aldrei verid til, eda lifad í eymd og ánægjuleysi; því jardar ræktin er sá rétti vegur til þess, ad børninn uppalist til dygda og dugnadar, og mannfólkid fjølgi í landinu.

Bjørn Haldórsson.

# Registur
## þessa bæklíngs.

bladsídu

## 1ti. Kapítuli.

### Atli leitar ráds, og vill kvongast.

1. **Atli.** Þú veizt þad, bóndi! ad eg hefi verid hjú þitt sídan eg vard matvinníngur, og líka veiztu hvort eg hefi verid hlýdinn og dyggur edur ecki, hefir mér ad ollu vel lidid med þér; en þó er mér nú komid í hug, at stadfesta ráð mitt, og kvongast, vil eg hafa þitt ráð í því sem fleiru. Hefi eg nú um Jónsmessu leitid einn um tvítugt, ské má, þér sýnist eg ofúngur til þess?

**Bóndi.** Satt er þad, Atli! ad med mér hefir þú verid, sídan þú varst fyrst matlaunamadur, og til þessa, líka áttu ad mér skilinn þann vitnisburd, ad þú hefir verid gott hjú, hlýdinn, trúr og dyggur, og leitad í ollu gagns míns eins og skylda þín var. Aldur þinn er nærri fanni til ad kvænast, nógur þó, þar sem þú ert í brádgorrara lagi ad vexti, kroftum og fyrirhyggju, myndi eg ecki hafa latt þig ektaskapar í fyrra, hefdir þú látid mig vita ad þér var þad hugleikid; en hvar hyggur þú til kvonarefnis?

2. Atli. Þar sem er hún Arnbjørg vinnukona þín, hún hefir verid hér á bæ vidlíka lengi og eg, þeckir eg hana því betur enn adrar konur, og hún þeckir mig; líka hefi eg merkt, ad henni er ei fjærri skapi ad géfast mér.

Bóndi. Gott er þad ad þid þeckist, fyrr enn þid gángid at eigast; en segja máttu mér, hvort einsaman tilhneigíng rædur fyri þig, edur meiri skynsemi. Menn segja eptir Drottning nockurri í fyrri tíd, sem hét Olympias, at konur skuli menn velja sér ei sídur med eyrum enn augum. Hefurdu grenslast eptir hvad adrir segja um hana Arnbjørgu?

3. Atli. Já, eg heyri alla segja þad sama um hana, sem eg þykist líka hafa séd, ad hun sé gód vinnukona, þrifin, nýtin og sparsøm, hún er holl og trú í þjónustu, hlýdin, vidfeldin og sveigjanlig í gédi, hún er rádvønd og gudhrædd, og held eg Gud muni blessa hana þegar hún giftist; en þad þyki mér miklu máli skipta hvort þú géfur henni gódann visnisburd.

Bóndi. Vel má hún fá hjá mér þenna vitnisburd allann, sem þú barst henni, og er þad vel, ad þú gengst fyri því, en fylgir ecki einni saman sýsn þinni, þó hún sé ei meir enn 16 vetra, þá er hún gjafvarta, og nú á besta aldri til ad giftast manni, hún er heilbrygd, af heilbrygdum foreldrum, sem vóru bædi frómlynd, og høfdu nockra manndád.

4. Atli. Er þad á móti rádi þínu, bóndi! ad eg fari þá strax ad kvongast? og þá verd eg ad segja þér upp víst ockar.

Bóndi. Vel líkar mér áform þitt, og óska eg þér til lucku; en svo lítst mér, sem þid megid búast vid miklum barnlagnadi, og megi þid þá hyggja fyrirframm,

hvørninn þid megid ala þau vel upp, til gagns, en ecki til ógagns føðurlandinu.

5. Atli. Þad mun vera meiri vandi, enn eg géti lært þad allt í einu, og fyrr enn eg hefi fengid konu eda barn.

Bóndi. Mikid af því verdur reynslan ad kénna yckur, þó gét eg sagt þér þad strax. Þid eigid 1) ad fæda børnin, og þad vita allir foreldrar skyldu sína. 2) Eigid þid ad leita fullkomnunar sálum þeirra, med þeirri uppfrædíng, sem géfi þeim skýra þecking sinnar farsældar, svo ad þeirra vilji sannfærist ad fylgja þeim reglum, sem þar til heyra; og 3) eigi þid ad leita fullkomnunar líkomum þeirra, hvar til allt þad heyrir, sem eykur og styrkir heilbrygdi, afl, léttleika, handverksconstir og allt atgørfi líkamans í øllu sem fyri kann ad falla.

6. Atli. Margt verdur ockur vant í þessu.

Bóndi. Þad fyrsta og sídasta af ádur-tøldu kénnir yckur sjálf náttúran, þegar þid gætid hennar vega og ráda, en hvad sálar fullkomnun barnanna snertir, hafi þid Prest yckar til hjálpar og ráda, til hans heyri þid hvørn helgann dag. Veri þid í øllu dygdar og dugnadar fyrimynd barnanna, þad eykur bædi yckar og þeirra fullkomnan og farsæld.

---

## 2ar Kapítuli.

### Atli tekur sér jørd.

---

7. Atli. Fyrst þú rædur mér ecki frá hjúskapnum, þá muntu ecki ráda mér frá búskapnum.

Bóndi. Rétt gétur þú til þess, því það er aumíngja háttur og óráð, að vilja kvongast til að ala born í annara manna húsum. Hvor maður á að ráða fyri konu sína og born, en það má hann ecki, hvar hann er annara hjú.

8. Atli. Hér eru allar jarðir bygðar, og mun enginn vilja leggja af ábýli sínu við mig; géfðu mér ráð það, sem tiltækiligast sé, svo sem nú stendst á högum mínum.

Bóndi. Það er hægt að gora, því þér gengur gæfan í greipar, Kóngur vor sendi híngað í land nú í ár mikla réttarbót nýbælíngum. Hún hljóðar svo: Hlustaðu til:

„Vér Christján sá sjoundi, af Guðs náð, „Danmerkur og Noregs, Vinda og Gauta Kóng„ur, Hertogi í Slesvík, Holstein, Stórmaren „og Ditmarsken, Greifi í Oldenborg og „Delmenhorst: gjorum ollum vitanligt: at vegna þess „Oss er við ýmislig tækifæri allraundirdánugast frá því „skýrt, að Íslands innbyggjarar séu nú á þessum tímum „mjøg fækaðir, að margir bæir,. já heil smáhérud, sem „fyrrum hafa bygð verið, og ecki síður aðrar víðlendur, „sem byggjast kunna, liggja í auðn, til lítillra eður „eingra nytja: þá viljum Vér, af þeirri einkar kóngligri „umhyggju, sem Vér hofum fyrir Íslands viðrétting, „til þess landið ræktist betur, og fólks fjøldinn vaxi, fyrst „um sinn hafa veitt og skipað, líka sem Vér hérmeð „allranáðugast veitum þeim ýmislig fríheit, sem hér„eptir kunna að setja þar á landinu bú á eyði-jørðum, „og framvegis gjørum þar til þessa skipan, sem eptir„fylgir.“

1.

„Hver sem vill taka sér bústadar, bæ edur pláts, á þeim stóru vidlendum í bygdum hérudum, sem til lítillra edur eingra nytja liggja í órækt, skal lýsa því í Alþíngisbókinni, svo þad verdi kunnugt; en þeir sem kunna ad hafa edur meina sig ad hafa eignar-rétt til þvílíks jardarparts, skulu vera skyldugir til ad auglýsa þad fyri þeim Amtmanni, í hvörs amti jordin liggur, ei seinna enn á nærsta alþíngi, ef þá eru meir enn 3 mánudir, edur nærri 4, frá því lýsíngin var birt í Alþíngisbókinni. Nú ef ad einginn kémur framm á tilteknum tíma, sem þykist hafa rétt til þessarar eignar, skipar Amtmadur þeim Sýslumanni, sem þar á hlut ad, med tilteknum 4 réttsýnum og skynsomum dánumönnum, ad skoda landid, og med regluligri gjörd afgreida honum þad, sem fyrstur gaf sig framm, med svo mikilli vidlendu, sem hófligum bæ sýnist naudsýnlig vera.“

2.

„Til slíkrar gjordar stefnist altíd nærstu bæa eigendur, þegar þeir eru innanlands, ellegar þeir sem þar búa, svo ad þeir megi reyna hvad þanninn afgreidist til byggíngar. Komi einginn þessara, edur ecki allir, þá haldi menn samt gjördinni framm, og hafa þeir eignarmenn eingvann rétt ad átelja sídan, sem ecki komu, þá þeir vóru logliga stefndir. Nú mætir einhvor þeirra, og ber þad framm, ad fyri bygging þessarar nýlendu lidi sín jord skada og landkreppu á úthogum, beitarlandi og slægjum, sem henni sé þó reiknad til dýrleika og skulda; þá skal Sýslumadur og hinir tilteknu menn þegar

í stad gjøra grein á því, hvort nockud af því landi, sem afgreidt var, heyri honum til med réttu og sanni, eptir dýrleika og skuldum hans jardar; finni þeir þad ecki, þá skal gjörd þeirra til lykta leidast og gylda. Þad metst ecki fyri nockurn sérílagi eigindóm, þó ad nánustu bygdarmenn hafi lagt þad í vana, ad reka pening sinn í þad land=pláts ámedan, og vegna þess þad lá í eydi, þar þad er ad álíta sem almenníng, til hvørs sem menn hafa ádur hagnýtt sér þad, svo ad þar skal ei ad sídur gjørast grein á, hvort þar er ecki nóg rúm fyri nýann bólstad og sambeit; því þad er Vor allranádugasti vilji, ad landid skuli ecki fyri misbrúkan í audn liggja.«

3.

»Komi nockur framm med vafalausann eigindóms rétt til landsins, framm fer þó, eptir Amtmanns fyrisøgn, sú gjørd, sem ádur er sagt. Finni þá Sýslumadur og tilteknir menn, ad úthaginn liggi ónýtur án nockurs sérligs gagns, en kunni þó géfa hagkvæmd og nóg rúm fyrir eitt nýtt býli, þá skal þar býli setja, þó svo, ad eigandinn haldi sínum rétti ad reisa þar bæ, og líka ad semja vid þann, sem býlid tekur, eptir løgum og sanngirni um landskuld og leignagjald, ef hann vill kvíildi fá, því án þess má ecki þreyngja honum til at taka þau; en þá skal eigandinn gángast undir þad ad hefja þar bygging, fyrr enn árid sé lidid. Nú vill hann ecki, edur megnar ecki, ad koma þessu til leidar, og vill samt sem ádur ecki selja þennann jardarpart nýbyggjaranum, fyri sanngjarnligt verd, þá skal samt afgreida landid þeim, sem fyrst gaf sig framm ad vilja byggja þad, sem þá byggir þar sjálfur bæ sinn, med þeim friheitum,

sem Vér viljum allranáduguſt unna ſlíkum nýbyggjurum, og hér eptir verda talin, þó ad ókreinktum eignar-rétti eigandans.«

4.

»Komi nockur framm med þad, hann vilji taka sér býli í afréttar almenníngum, og óbygdu vidlendi upp til fjalla, ſkipar Amtmadurinn menn til gjørdar, sem fyrr er ſagt, þegar því hefur ádur verid lýſt í Alþíngis-bókinni, hvar til Sýslumadurinn lætur ſtefna eignarmønnum edur búendum þeirra bæa, sem næſtir liggja ſlíkum óbygdum, ef mætti ſké, ad nockrir af þeſsum bæum ættu þar med réttu eitthvort ítak, ſvo þeir ſjá megi, hvad mikid land er ánafnad til nýlendunnar, hvareptir Sýslumadurinn med þeim tilteknu mønnum ákvardar og mælir þad land, sem ſlíku býli má nægjaſt bædi til túns og haglendis, og þad ſama ánafnada land upp-ſkrifar hann nákvæmliga, eptir þeſs ſtærd og landa-merkjum.«

5.

»Med bæa bygging í þeim hérudum, sem frá fyrri tímum hafa legid í audn og kaldakoli, fari sem ádur er mælt, um afgreiding, mæling og uppſkrift, hvad ſnertir ſtærd og landamerki, ad því fráteknu, ad ecki þarf ſvo laungu fyriframm ad lýſa því í Alþíngisbókinni, sem virdiſt óþarfi, því þeſs er ecki ad vænta, ad nockur madur kunni ad eigna sér þad, sem hann væri eigandi edur erfíngi þeſs, eptir ſvo lángann tíma, heldur má þad teljaſt yfirgéfin eign, og eingis manns eiga, og þeſs-vegna dugir þar eckért tilkall edur mótmæli; ſá sem þá

vill taka sér bólfestu í slíkum audnum, lætur Amtmanninn vita þad, hvør er sér fyri því ad Sýslumadur gjøri þarum løgliga, sem ádur er mælt. Þó viljum Vér, til frekari ørfunar í þessu, allranádugast hafa eptirlátid, ad þegar einhver, sem vegna lángrar yrkingar, edur annara orsaka, meinar sig hafa nockra tiltolu til þessarar jardar, í bygdum edur utan þeirra, sem legid hefir í eydi um løghefdar tíma edur lengur, ad þeir, eptir þessari forordning megi fremur ødrum njóta réttar til þeirra lendna, þegar þeir vilja reisa bygd á þeim, ef ad þeir gjøra þad sídan í tíma.

6.

»Þegar nockur landspartur er þanninn ákvardadur og mæltur til ábýlis, fær Sýslumadur Amtmanninum útskrift af þeirri gjørd, en Amtmadurinn géfur nýbyggjaranum byggíngarbréf. Gjørdinni skal lýsa á þíngi, og skal hún þá í allann máta álitast og gylda fyri fulla heimild.

7.

»Allar þessar afgreiddu lendur skulu nákvæmliga uppskrifast, sem ádur er mælt, ad stærd og landamerkjum, svo þad verdi varast, ad slíkur nýr bóndi færi út landamerki sín umframm þad sem honum er afgreidt. Ecki heldur má honum meira afgreidast, enn med rækt og þrifnadi þarfligt má virdast gódum, hófligum midlúngs búnadi, en sídur svo mikid rídlendi, ad hann kunni ad setja þar nidur adra bændur, ellegar eptir lyst sinni láta þad liggja óræktad; heldur skal þad, sem hann þarf ecki med, verda ødrum ad gagni, sem eptirá kunna ad géfa sig til at vilja reisa þar bæi, bædi vegna þess, ad

það er gagnsamligra til sambjargar, á afvikuum stodum ad hafa nágranna, enn vera í einbýli, og líka hins, ad einginn má hafa meira land undir, enn mátuligt sé fyrir hans jardarhæd. Nú kémur þad upp, ad undirhyggja hafi brúkud verid, þegar afgreidslan skédi, þá skal hún sídan ecki gylda, þegar seinna er løgliga átalid.«

## 8.

»Þeir 4 dánumenn, sem í fyrstu grein eru nefndir til ad skoda og afgreida landid, viljum Vér allranádugast, í tilliti til þessarar gjordar sérílagi, skuli fyriframm takast í løgligann eid, ad þeir vilji þar í frammfara, skoda, afgreida og álykta, sem þeir best vita, og sem þeir skynja réttast og sannast vera. Fyri gjordina og ferdina til plátsins fær hver þeirra 40 skildinga kúrant á dag, þegar land er útgreidt til nýbýlis, en þegar ecki verdur af því, þá 20 skildínga fyri hvorn dag, sem þeir þurfa til ferdarinnar framm og aptur. Sýslumadurinn fær fyri hvorja slíka gjord, ad útskriftinni medreiknadri, þegar nýbýli er afgreidt, 3 ríkisdali kúrant, og þar ad auki betalíng fyri ferdina áframm, eptir vegalengd 1 ríkisdal fyri hvorn dag, edur þíngmannaleid; en þegar ecki verdur af því ad nýbýli sé útgreidt, fær hann adeins betalíng fyri reisuna framm og aptur, eptir fyrri tiltolu; viljum Vér allranádugast láta vísa hlutadeigendum til þessara launa, þegar Amtmadurinn í því plátsi auglýsir þad Voru Vestindiska Gvineiska Rentu- og General Toll-kammeri, ad slík gjord hefir frammfarid eptir þeim máta, sem Vér hofum fyrisagt.«

## 9.

„Þeim sem taka sér ábýli og byggja bæ i manna-bygdum, viljum Vér allranádugast veita ad þeir séu frí frá skatti og tíund í 20 ár. Deyi þeir fyri þann tima, njóta þeirra eckjur edur adrir erfingjar sömu fríheita, allt þar til 20 ár eru úti, hvort sem þær gifta sig edur ecki, og hafi einginn neinn sérligann eignarrétt til lands-ins, verdur þar ad auki þessi nýbygda jord, med því landi sem þar til er lagt, ábúandans ódal og eign.“

## 10.

„Eigi annar madur landid, skal sá sem þar byggir vera frí fyri skatti og tíundum sína lífstíd, eins eckja hans eptir hann, svo lengi sem hún lifir, og þeirra son edur dóttir hafi rétt og tilkall framm yfir adra ad búa á þeim bæ, ef þau eru þar til duglig. Fyri landskuld og útsvar skal nýbyggjarinn vera frí í 3 ár, ef ad landsdrottinn hefir haft kostnad fyri bæar byggingunni; en hafi nýbyggjarinn kostad sjálfur þar til, skal hann vera landskuldar- og útsvars-frí 10 ár, og þá skal á jördina setjast sanngjarnlig landskuld, eptir hennar gædum. Þetta hid sama á og svo ad skiljast um fjarlæg beitarlönd og afréttir, sem tilheyra einhvorjum gardi edur kyrkju; en ef ad landid heyrir sjálfum Oss til, þá njóti nýbygg-jarinn, þegar hann hefir kostad fyrir bygging hins nýa bæar, auk tiltekinna fríheita fyri sig, eckju sína og born, einninn fríunar frá landskuld og útsvari í 20 ár, og deyi hann ádur, fylgia þau fríheit eckju hans, þartil 20 ár eru lidin.“

## 11.

»Þeir sem setja bú og byggja bæi í afréttum, sem ei eru sérilagi nockurs manns eign, ellegar í eyddum og yfirgéfnum bygdum, séu frí frá skatti og tiundum, bædi þeir og þeirra eckjur, eptir undangengnum 9da Art. samt njóti jardarinnar til ódals og eignar fyri sig og sína erfingja.«

## 12.

»Allir slíkir nýbyggjarar skulu annars vera skyldir ad hlada forsvaranligar girdíngar, bædi i kríngum túnin, sem þeim hafa verid afgreidd, og líka kríngum hina landeignina, svo mikid sem þeir orka, þar ad auki med allri kostgæfni rydja og rækta jordina; skal Sýslumadur jafnliga komast eptir því, hvørninn þad tilgángi, og láta sídan Amtmanninn fá þad ad vita. Finnist nockur dofinn og hyrdulaus, skal þad auglýsast Voru Vestindiska og Gvíneiska Rentu- og General-Toll-Kammeri, þá slíkur madur má vænta, eptir málavoxtum, ad missa þeirra fríheita, sem honum vóru géfin, og ad jordin verdi fengin odrum dugligra manni til ábúdar.«

## 13.

»Amtmadurinn, sem hér á hlut ad, á árliga ad láta Vort Vestindiska og Gvineiska Rentu- og General-Toll-Kammer vita hvad fremmgengt verdur um þessa nýbyggjara, einninn hvør torveldni, hindranir og mótmæli þessu kunna ad mæta, svo hann géti, eptir ásigkomulagi fengid vora nákvæmari allranádugustu úrlausn; svo sem Vér allranádugast viljum vera forhuxadir, enn þá framar med tídinni, ad styrkja og stydja þetta uppá-

tæki med slikum réttarbótum, sem finnast megu þarfligar, eptir þeim kríngumstædum, sem hvad eptir annad sýna sig, og því gagni, sem þar af má vænta. Hvar eptir allir og sérhvor hlutadeigandi eiga sig ad rétta. Gésid á Voru sloti Christjánsborg, í Vorum kóngliga Resídents-stad Kaupmannahøfn 15 Apr. 1776.«

Undir Vorri kóngligri hendi og signeti.

Christján R.

Önnur forordníng um garda og þúfna-slétt-un med fleiru áhrærandi jardyrkjuna á Íslandi.

Vér Christján sá sjøundi med Guds nád Kóngur til Danmerkur rc. rc. Gjorum øllum vitanligt: ad þar er Vér, eins og Vorir háloflígu fedur, jafnan høfum borid alla fodurliga áhyggju fyrir, ad Íslandi mætti upphjálpast, og vorra þar búandi kæru og hollu undirsáta kjør betrast, og þeßvegna látid kost-gæfiliga eptirgrenslast þeim orsøkum, er því kynnu vera til hindrunar, sem og skipad ad finna uppá þau medol, med hvørjum þad kynni ad vidréttast og komast aptur á fætur; svo hafa, ásamt ødrum hindrunum þessar verid Oß allraundirdánugast til kynna gefnar, ad túnin á þeim flestu jørdum þvert á mót lands-løgunum eru án girdínga, og morg þar ad auk full af þúfum, hvad hid fyrra er skuld í, ad þau verda ei án stærsta ómaks varin, medan á grasvextinum stendur, en á ødrum tídum trodast þau nidur og yfirrídast af nautpeníngi og med hestum. Hitt annad, þad er ad skilja þúfurnar, útheimtir jafnadarligann og mikinn áburd, og gefur þó eigi soddann ávøxt eda gagnsemi, sem þar til svara kynni, vegna þeß þær liggja meir enn sléttlendid vid

frosti og stormum, hvaraf þær losna, blása upp, moldin í þeim deyr, og þær verda mosavarnar, ef þær fá eigi idugligann áburd; hér ad auk verdur bóndinn ad eyda ferfoldum tíma og erfidi til ad slá grasid af þeim og milli þeirra, hvad allt gjørir hans heyskap mædu- og kostnadar-samann, og þessvegna spillir hans áburdi, tíma og erfidi. Þar nú tilbærilig yrkja og notkun jardarinnar er grundvollur og stofn undir hvørs eins lands velmegan, en hennar forsómun þar á móti til þess vanmáttar og þurdar, svo hofum Vér álitid þad yfrid naudsýnligt til jardyrkjunnar sønnu betrunar og uppreistar, hér med allranádugast ad tilskipa og bjóda sem eptirfylgir:

1.

Í kríngum alla bæi og tún, hvørt sem á jørdunum búa bændur eda embættismenn, andlígir eda veraldlígir, þar sem annadhvørt aungvar eda eigi fullkomliga gódar girdíngar eru uppsettar, skulu hér eptir allstadar, sem því verdur vidkomid, byggjast forsvaranliga háir gardar af steini, svo ad fullvaxinn madur géti gengid á gardinum framm og aptur, án þess ad nockur steinn hrynji úr honum. Þesskonar gardur skal vera ad mindstu 2 álna hár, og sem framast møguligt er leggjast beint áframm.

2.

Ef svo hagkvæmur og flatur steinn eigi er ad fá, skulu gardarnir hladast af grastorfi eda hnausum, $2\frac{1}{2}$ ál. þyckvir nedan til, en ávalir og mjóir ofan til. Þessir gardar skulu hladast án nockurs steins á milli laganna (nema eitt lag nedst á hvørja hlid, ef stein er ad fá)

med grasrótinni snúandi út til beggja hlida og allt í kríng, hvarmed gardarnir eigi einasta verda varanlígir, svo ad þeir med litilli adgjørd géta allt afstadid, heldur og innan skamms tíma munu ríkugliga aptur gjalda þad erfidi sem fyrir þeim hefir verid haft, þar þeir strax á fyrsta ári eptir ad þeir eru hladnir, bera gott gras, þegar grasrótin er nockurnvegin góð; þessir gardar eiga ad vera 1¼ ál. háir þegar þeir hafa sígid.

### 3.

Þar sem jørdin er blaut, ellegar eigi nógu føst og þétt, til ad bera steingarda þúnga, svo ad uggvænt væri ad þeir kynni ad sockva eda hrynja nidur, þar eiga á slíkum blautum stødum nockur stycki af gardinum heldur ad hladast upp af grastorsi eda hnausum á þann hátt, sem Art. 2 fyrirsegir, jafnvel þó þar annars sé færi á ad hafa gódann stein.

### 4.

Þar sem jørdin er góð og føst, skal stíngast út veita eda grøf fyrir utann gardinn ¾ ál. djúp á ská nidur og út ad, ¾ ál. frá gardinum; ef jørdin er blaut og mýrar kénd, skal veita vatninu frá med grøf eda rennu 1 ál. djúpri eda meir, ef medþarf; en sú renna á eigi ad grafast med eda rétt hjá gardinum, svo ad grundvøllurinn eigi veikist þar af, og gardurinn falli nidur, heldur út ad, í þá átt, hvar vatnid hefir best afrennsli.

### 5.

Hvør og einn skal vera skyldugur ad hlada árliga 5 fadma af steingardi, eda 8 fadma af moldargardi

fyrir sjálfann sig, og eins mikid fyrir hvørn verkfœrann karlmann, sem hann hefir sér til vinnu. En ef hann hledur framyfir þetta ákvardada mál, skal hann af þeim hofudstól eda summu, sem Vér viljum allranádugast ætla hértil, fá til upphvatníngar fyrir slíka sína vinnusemi, fyrir hvørn fadm af steingardi 16 sk. og af moldargardi med grassverdi logdum allt í kríng 12 sk. danska í kúrant, hvor skenkur þó einasta er handa bœndastandinu, og þeim af prestastandinu, sem hafa þau allra fátœkustu prestakoll. Fyrir annarslags garda af steini eda moldu géfst einginn skenkur, eigi heldur, ef eigi allt, bædi þad ákvardada mál, og hvad þar framm yfir er hladid, er svo á sig komid, sem hér ad framann allranádugast er uppábodid.

## 6.

Ef ómøguligt kynni reynast, ad fá annadhvørt hendtugann stein eda grastorf til slíkra garda, sem hér eru tilskipadir, má í þeirra stad grafast árliga kríngum túnid eins lángt og ádur er um gardana sagt, hvør grøf eda skurdur skal vera í þad minnsta 1 ál. djúp, og ad ofanverdu 1½ ál. breid, en á botninum ¾ ál. breid. Allri þeirri moldu, sem þar upp úr er grafin, skal kasta uppá þann grafarbarminn, sem er inn ad túninu, svo hátt og bratt sem hún møguligast legid gétur. En þar slík girding ei verdur mjøg varanlig, og jafnadarliga útheimtir erfidi og adgjørd, svo má hún heldur eigi brúkast, nema á þeim stodum hvar reynast kynni øldúngis ómøguligt ad fá annadhvørt grastorf edur steina, hvad þá med løgformligri skodun og yfirliti á sjálfum stadnum

af vidkomandi Sýslumanni med tilteknum skynsömum mönnum á ad metast og afgjörast.

7.

Þar sem gardur verdur milli bæja og túna, þar á hann ad hladast med sameiginligu erfidi af jafnmörgum og dugligum mönnum frá hvörju af slíkum nábýlum, svo lángt sem þeirra tún liggja saman. En sá af þeim, sem best kann ad hlada gard, eda best vill láta hlada hann, skal standa fyrir verkinu og hönum á í því ad hlýda. Ef alfara vegur liggur þar um, þá kosta þeir bádir hlid þar fyrir, og haldi því vid magt. Hlidid á ad vera forsvaranligt, og hánga svoleidis á járnhjörum, ad þad lúkist aptur af sjálfu sér.

8.

Þad skal vera Hreppstjóranna skylda, þó eptir Sýslumannsins tilsjón, ad adgæta ad gardarnir verdi árliga svo lángt og forsvaranliga hladnir sem sagt er, og þeim sídan tilbæriliga vidhaldid, hvörsvegna þeir eiga ad skipta hreppnum eda sveitinni sín á milli, med Sýslumannsins samþycki, og líka á þeim í landslögunum tilsetta tíma, allir til samans eptirsjá í sveitinni, hvort og hvörnin sú tilskipada gardahledsla og vidhald sé sett í verk. Finnist þá brestur á einhvörju þarvid, skal sá sakbitni gjalda fyrir hvörn gardfadm sem annadhvört vantar, eda eigi er forsvaranliga hladinn eptir þessari tilskipan, elligar og eigi er tilbæriliga vidhaldid, 10 sk. til sveitar-kassans, sem Hreppstjórarnir strax skulu upptaka hjá hönum, og hann þar ad auk vera skyldugur á næstkomandi ári ad hlada upp þad sem á brast, auk þess sem hann annars

á upp að hlaða. Ef þá enn vantar nockuð á, gjaldi hann fyrir allt það sem áður er sagt. Enn finnist slíkur brestur hjá honum í 3 samfeld ár, svari hann sömu bótum, og þar að auki byggist honum út af jörðinni, fyrir slíka hans óhlýðni og leti, ef hann er leiguliði, svo að einhvör dugligri ábúandi géti orðið til jarðarinnar tekinn. En sitji hann á sjálfs síns eign, gjaldi tvöfaldar bætur fyrir hvörn faðm sem ábrestur, eða eigi er forsvaranliga hlaðinn eða viðhaldið. Og haldi hann áframm í 3 ár að forsóma það, sem hér í er tilskipað, skulu Hreppstjórarnir hafa myndugleika til, eptir ráðslögun við Sýslumanninn, að fá og kaupa aðra menn til að gjöra erfiðið uppá þess sakbitna kostnað, hvör, ef hann eigi með góðu vill gjalda, skal upptakast af hans búi án frekari lagasóknar.

9.

Ef nockur, hvört hann heldur er bóndi eða kóngl. embættismaður, andligur eða veraldligur setur sig upp móti Hreppstjóranna eður annara yfirvalda ráðstöfun um garðahleðslu, ellegar hindrar þá menn, sem Hreppstjórarnir setja uppá hins sakbitna kostnað, til að lúka því verki, sem á brestur, skulu Hreppstjórarnir strax fyrir utan minnstu bið, unndandrátt eða tilslátt, stefna þeim sakaða með politifyrirkalli fyrir Sýslumanninn, sem strax skal dæma í málinu; og ef hann þá kémst að raun um, að nockur hafi með virkiligu forboði eða líkamligri mótstöðu hindrað eða varnað þeirrar garðhleðslu, sem annaðhvört Hreppstjórarnir eða aðrar yfirvaldspersónur hafa gjört ráð fyrir, og sem annaðhvört eptir þessari forordningu eða öðrum lögum er tilskipuð, þá skal sá sakaði, ef hann er bóndi, gjalda til sveitar-kassans

2 rd. og sé hann veraldligur konúngl. embættismadur, skal hann gjalda til sveitar-kassans 3 rd. og jafnmikid til þess íslendska júststits-kassa; en ef hann er andligur, þá gjaldi hann 3 rd. til sveitar-kassans, og jafnmikid til fátækra Presta-eckna. Sömu sekt skulu þeir vera undirvorpnir, sem setja sig móti fjár-uppteckt fyrir þær bætur, sem þeir kynnu verda skyldugir ad láta út fyrir sín misbrot, mót þessari tilskipan. Allar þær sektir sem eptir henni tilfalla sveitar-kassanum, skulu annars gánga til jafnra skipta milli sveitarinnar olmusumanna og Hreppstjóranna, fyrir þad ómak, sem þeir hafa fyrir þessari innrétting; líka sem og þeir af þeim, sem hér í kynnu ad sýna fremur ödrum nockra sérliga kostgæfni, mega þar ad auk vænta sér frekari launa þarfyrir eptir atvikum; hvarámóti þeir, sem hér í forsóma sína skyldu, eiga ad tiltalast af Sýslumanninum, og án appels dæmast í sektir til sveitarinnar olmusumanna, eptir þeirra brots fyrirfundnu ásigkomulagi og þeirra formegan.

## 10.

Þar þúfurnar eru sú önnur stóra tálman fyrir jardyrkjuna, svo skulu þær og árliga hér eptir burttakast, þar sem túnin finnast med þeim varin, svo ad túnid smámsaman géti ordid slétt. Hvorsvegna og einn og sérhvör, sem hefir þýst tún, skal árliga slétta og jafna 6 fadma í ferkant fyrir sjálfann sig, og eins mikid fyrir hvörn vinnufærann karlmann, sem hann hefir til verknadar, og brúkar til jardarinnar fyrirvinnu.

## 11.

Þúfurnar eiga ad pælast upp í ferstrendum styckjum, fra hvörjum moldina á ad skéra med ljá, svo ad

grassvørdurinn verdi eptir einnrar handar þyckur; enn framar á moldin ad takast eins djúpt uppúr þúfustædinu; hvar í þau ferstrendu stycki eiga sídan nidur ad fellast, og med trésleggju út ad beriast, svo ad barmarnir falli vel saman. Þess betur sem grassvørdurinn er barinn (þó ei svo hardt ad hann fari í sundur) þess hentugri verdur hann til ad taka á móti áburdi, og ad bera mikid gras; hvørsvegna og þessar torfur eiga svo ad uppskérast, ad þær eigi fullkomliga fylli holuna á allavegu, fyrr enn þær eru nidurbardar. Þá afskornu og uppgrafnu mold á ad útbreida til áburdar á þær þúfur, sem á því ári eiga ad sléttast; hvad jafnvel er nytsamligt, ef sléttanin skédur nockud snemma á vori, enn sér í lagi ef hún skédur á haust, svo vel sem og ad breida hana þunnt út á þad sléttada tún. Sérliga gétur þessi mold þénad til ad kæfa mosann á mosavørnum þúfum, eins og hún eptir á gjørir hinn besta grasvoll, þegar áburdur árid eptir er borinn þar á. Þá á þann hátt útbreiddu mold á ad medhøndla og milja um sumarid med klárum eda mykjukvíslum eins og annann áburd. Hvada steinar sem finnast í og undir þúfunum, skulu kostgæfiliga samansafnast og burtflytjast eda kastast í grundvollinn á þeim stodum, hvar gardar eiga upp ad hladast. En hittist svo stór bjørg í túninu, ad þeim eigi af øllu bæarfólkinu verdi oltid til gardstædisins, skal þó sléttast í kríngum þau, og eiga þau ad hyljast med þeirri moldu sem upp verdur grafin og eptir verdur frá þúfna sléttaninni, þá sá grassvørdur í kríngum þessa steina, sem annars hefdi legid undir moldinni, á ad stíngast upp og leggjast ofan á, svo lángt sem hann hrockur til, og allrahelzt á kollinn, svo hann þess fljótar géti grasbundist.

12.

Uppá þad túnasléttanin géti ordid gardhledslunni ad gagni, og erfidid falli því léttara, skal túnid sléttast undir eins og smámsaman, sem gardurinn er hladinn, svo ad sú mold, sem eptir verdur af þúfunum, og ofmikil verda kann til ad breida á túnid, sé løgd nedst í gardinn, ásamt med þeim steinum og møl, sem hittist i túninu.

13.

Finnist svo daudar og spiltar þúfur, ad þær álitist óþénanligar ad nidurleggjast til grasvaxtar, edur þær tolla eigi saman, þá skulu þær burtflytjast til ad fylla med gardana, eda til ad hylja med þau stór bjørg i túninu, sem eigi kunna burt ad veltast, ellegar og til ad fylla upp med bleytufull, vot og súr pláts, ef nockur þvílik kynnu finnast í túninu, hvadan vatninu eigi verdur hægliga veitt med skurdum. Þad stycki af túninu, hvar þessar ónýtu þúfur hafa stadid, skal pælast upp á haust, og moldarkéckirnir sundur krafsast, hvad á ný á ad ítrekast nærstkomandi vor, og þá skal breida þar á nockurn áburd eptir efnum, og þar eptir sá þar í korni, ef þad er ad fá; hvar eptir kornid skal krafsast nidur med smáum járnhøkum eda med klárum. Sé eigi korn til, þá skal þar í planta jardepli, ef þau er ad fá, ellegar og sá þar í mjøg gisid næpnafræ, þegar ádur er búid ad slétta med klárum, hvad er á ný á ad ské med ødrum hrífum, þegar fræinu er sád.

14.

Þúfurnar verda og brúkadar til gardahledslu, þá hlidarnar af þúfunum eiga fyrst ad stíngast frá allt í

kring, svo ad þær ad nedan lodi vid jørdina, ;hvar eptir þúfuna sjálfa skal stínga í máturliga hnausa, og þar eptir pæla moldina upp innann úr þeim eptirstandandi børmum, hvørja sídan med sleggju á nidur ad berja, þángad til þeir eru ordnir sléttir, og liggja jafnt þeim grassverdi, sem ádur var milli þúfanna.

15.

Hvør sem árliga sléttir meira af sínu túni enn þá vidd sem í 10 art. er ákvørdud, skal fá fyrir hvørn fadm í ferkanti sem þar yfir er 8 sk. til skenks, og sá sem géfur sig framm til ad fá slíkann skenk, svo vel sem þann, hvørjum heitid er í 5 art., skal þar um framleggja Hreppstjóranna vitnisburd, um hlutarins sanna ásigkomulag, hvør vitnisburdur þar ad auki á ad hafa med sér ad bera Prestsins og Sýslumannsins uppáskrift, til þess frekari vissu. Skyldi annars nockur leigulidi skara svo mjøg framm úr, annadhvørt med gardhledslu eda túnasléttan yfir þad ákvardada mál, ad hans húsbónda jørd þar af svo ýtarliga betrist, ad hún þessvegna megi álitast ad vera hæckud ad dýrleika, finnum Vér allranádugast ad vera tilbæriligt, ad slíkur leigulidi, ef húsbóndinn segir hønum út af jørdunni, eda hans eckja og børn, þegar hann deyr, og einginn af þeim verdur vid jørdina, skuli njóta nockrar þócknunar fyrir slíka jardarbót, eptir Sýslumannsins og ópartiskra dánumanna áliti, ef sjálfir vidkomendur eigi géta án þess komid sér saman.

16.

Hreppstjórarnir skulu med Sýslumannsins tilsjón géfa nákvæmann gaum ad túnasléttaninni. Sømu sektir

sem í fyrirfarandi 8 og 9 art. eru tilsettar fyrir forsómun á gardahledslu, eiga eins í øllum greinum ad gylda, ef forsómun skédur í túnasléttaninni.

17.

Og þar Vor allranádugasti vilji og ósk er, ad korn-yrkjan í Íslandi mætti komast í gáng og brúkun, hvar til vér á nærstlidnum árum allranádugast høfum látid senda kornsædi til reynslu á hafnirnar á Sudurlandinu, svo viljum Vér ad svo støddu, enn frekar til því stærri upphvatníngar til nefndrar yrkju, allranádugast tilsegja hvørjum og einum, sem gétur aflad hálfrar tunnu af fullvørnum rúgi eda byggi, 1½ rd. skenk, og fyrir eina heila tunnu af sama 3 rdr. skenk. Þeir sem þar til hafa efni og lyst, eiga ad búa til einn teig í túninu edur utan túns, sem hagkvæmast fellur med gyrding, pæling og sléttan, og kasta þar á øllu því er til áburdar er þénanligt, svo sem torfmilsnu, gamallri øsku, eda og litlu af kúamykju, ef hún er til, sem þó hid minnsta á ad vera ársgømul. Til slíkrar yrkju í smáu er nægjanligt ad pæla jørdina upp og eins víst, eins og ad plægja, þegar moldinni er vel krafsad út yfir þad útsáda korn; en nær innbyggjararnir kunna ad fá lyst til ad halda lengra áfram med þessa yrkju, viljum Vér allranádugast hafa í þánka, hvørnin þeim kann verda hjálpad og þeim útvegud heutugri verkfæri.

18.

Jardepli hafa verid flutt til Sudurlandsins, og á nockra stadi á Vesturlandinu til reynslu á nærstlidnum árum, og skenk hefir heitid verid fyrir þeirra yrkju.

Og þar það er reynt, að þessi ávöxtur luckast þar i landinu, eins og annarstaðar í allslags jörðu, utan í leirjörðu og á votum stoðum, já jafnvel og í gamalli östu, sem nóg er af á mörgum bæum, hvor yrkjan þar að auk er hæg, og þarf eigi nema mjög litils ómaks: svo væntum Vér allranáðugast, eins og Vér hér með viljum hafa tilskipað, að innbyggjararnir láti sér vera kostgæfiliga umhugað að yrkja þenna jarðar ávöxt, sem er svo drjúgur í búi, þar þeim ecki einasta frambýðst svo æskiligt tækifæri og gagnsemd þar af, heldur og þeir þar með undir eins géta allraundirdánugast gjört eptir Vorum allranáðugasta vilja og velþócknan.

## 19.

Eigi síður viljum Vér að innbyggjararnir hafi látið sér annt um vera, að brúka til kál- og næpna-garðayrkju það fræ, sem Vér allranáðugast höfum látið flytja til landsins, hvað Vér og framvegis viljum láta gjöra, þegar Oss er allraundirdánugast til kynna géfið að þeir tilbæriliga færa sér það í nyt. Hvar eptir allir og sérhvör einn eiga allraundirdánugast að breyta. Géfið á Voru sloti Christjánsborg i Vorum konúngliga aðsetursstað Kaupmannahöfn þann 13 Maji 1776.

Undir Vorri konúngl. hendi og innsigli.

Christján R.

(L. S.)

Moltke. Prætorius. Erichsen.

Vormskjold.

9. Atli. Blessaður sé æfinliga Kóngur vor fyrir þessa réttarbót, og henni skal eg dyggiliga hlýða, fái eg

hennar ad njóta. Segdu mér, bóndi! hvar sérdu þá eydijørd, sem árædiligast sé ad fala?

Bóndi. Láttu lýsa því á alþíngi strax í sumar, ad þú viljir taka til bygdar þér eydijørdina Konúngstadi, Amtmadur lætur Sýslumann mæla þér hana út, med støddum landamerkjum. Sú jørd er kóngseign, og lofar hann í forordníngunni, ad hún skuli verda ódal þitt og barna þinna eptir þinn dag, ef þú byggir, ræktar og situr hana vel, ásamt med fleirum fríheitum, sem þú heyrdir í forordníngunni sjálfri.

10. Atli. Hvørnin gét eg byggt þar? eg á eingann vid til húsa, og ecki gét eg úti legid, þegar eg kém í vor ad audninni.

Bóndi. Þú verdur ad fá lán, þar sem þig sjálfann brestur, ad kaupa vid til bæar þíns; þú géldur þá skuldir þær, er Gud géfur þér efni.

11. Atli. Sámt verd eg ad liggja úti á klaka, þegar eg kém til bólstadar míns ad vori.

Bóndi. Eg skal géfa þér viku verk þitt í haust, géturdu þá byggt þér kofa, sem þér má verda ad vorskjóli, þegar þú kémur ad Konúngstødum; en fyrst þú verdur ad byrgja hann strax fyri snjónum, þá varastu ad sofa þar ínni á vori, fyrr enn þú hefur opnad hann fyri viku, látid þar vind ínnblása, og sídan kyndt eini edur hrísi þar inni, því þar sem jørd hefur verid opnud á hausti, byggt yfir, og byrgt svo húsid allann veturinn, þar kunna ad hafa safnast þeir dampar upp af jørdinni, sem eru banvænir, helst sofandi mønnum.

---

# 3ji Kapituli.

## Atli velur sér bæarstædi.

12. Atli. Nú verd eg strax, er eg fæ byggingarbréf frá Amtmanni, ad velja bæarstædi, segdu mér nú fyrst, hvørnin þér lítst ad eg velji afstødu og landslag, sem byggiligast, þar sem eg tek eydijørd til fjalla, sem legid hefur í kalda koli, marga manns aldra?

Bóndi. Fyrst skaltu velja þér gott vatnsból, því flestum óhægindum er þad verra, ef þess er vant. Þad vatn er best, sem eingann smeck, og einga lygt hefur og þad sem skúmar vel med sápu. Þessi kénniteikn telur D. Joh. Sam. Carl, og hrósar mest regnvatni til dryckjar. Hann segir og þad bati mjøg vatn, ad heita þad sem theevatn, og drecka þad sídan kaldt, því þá skilji sig frá því þad sem jardarkyns sé. Þar máttu vænta ad fá gott vatn, hvar djúp uppspretta kémur úr grýttri jørd, edur hvar lækur brýtst mjøg í gégnum grjót og steinsand. Fáir þú ecki annad, enn ósmeckligt og barkandi vatn úr mýrarbrunnum (sem er lángtum betra til litunar, enn dryckjar,) þá verdur þú ad hlada upp brunn þinn allt um kríng med grjóti, og bera þar ad utan steinmøl og steinsand, vel þyckt, og eins í botninn hálfrar álnar lag edur meira; þar sýast þá vatnid ígégnum, og verdur betra. Eckért slý edur gras má í því lídast, því yrmlíngar tímgast þar þá, og kunna ad dreckast í vatni af mønnum. Þú verdur ad hreinsa brunn þinn árliga, svo ecki nái þar ad ílengiast brunn-

kluckur edur annad íllyrmi. Nockrir hafa veidt smáfilúnga og hleypt þeim lifandi ofaní brunna, til ad eyda þar ormum, lifa þeir þar heillt misßiri nidri, ef brunnurinn er stór. Þeß verdur þú og ad gæta, og enn heldur kynna þér fyriframm, ad vatnsmegin sé svo mikid, ad hverki þorni upp í sumarhita, né taki heima í vetrarfrostum, og nægi til allra búþarfinda.

13. Atli. Er þad allt óheilinda vatn, sem hefur smeck?

Bóndi. Einn lærdur madur i Norvegi Strøm skrifar svo: *) heilsubrunnar vóru ei þecktir í Norvegi, fyrr enn 1768, þad vatn hefur mineral- anda- og ætheriskt loft. Merki þartil er sterk lygt og dampi af vatninu, og miklar bólur á því, ef þad hristist í glasi; þau vøtn hafa í sér salt, brennistein og járn. Med saltinu þynna þau blódid, leysa slím, og þreyngja sér ígégnum fínustu ædar, opna þær, og hreinsa burt þad skadliga fyrir úrín, vallgáng og svita. Med brennisteininum lina þau verkjum, og ørfa svita, og þeirra járnkraptur styrkir sinar og vødva; segja þad læknarar, ad margir sjúkdómar lækniſt aldrei til fulls, nema med járnvatni, sem géfur styrk og festu þeim portum líkamans sem linadir eru. Merki þeßara brunna er: hvar þeir vella upp, er brún jørd í kríngum þá, og jarnlá ofaná þeim: mýra vatni verdur frá þeim ad veita, ef þad rennur í þá: einfaldasta merki til ad prófa þá, er ad leida hest ad þeim, vilji hann drecka, þá er sá brunnur gódur, og allar sképnur vilja gjarnan þetta vatn. Menn prófa þetta vatn svo: þeir láta gallepli, grænt thee edur

*) Tilskueren paa Landet, Tom. 1. Nr. 9.

tormentillu=rót, hvört af þessu vel mulid, koma í flösku sem þetta vatn er í. Þess fljótara sem þetta mjøl sockur, þess hreinnra er vatnid. Þess meir sem þad breytir litum, frá brúnum til hins svarta, þess sterkara er þad. Þad er og styrkleiks merki, ef þad fær nockud á höfudid, og leggur út í limina. Þegar menn hafa reynt þetta vatn, verdur ad byggja yfir því, svo ad hverki sólskin né regnvatn komi þar ad. Menn drecka vatnid af brunninum, edur láta færa sér þad i flösku, med þéttum tappa, og taka 2 glös þaraf einum tíma ádur menn fá mat ad morgni, og eins mikid eptir middag, þá maturinn er nærri meltur, sídan hræri madur sig, edur gángi til síns erfidis; þetta gjöriſt um háſumar, svo lengi sem madur þarf, og hætti ei, þó eingann bata finni í 14 daga: þvoi líka í því veika limi. Gott er ad púrgera ádur og eptir. Menn kunna ad drecka 1 pott á dag fyrr enn þeir fá fyrst mat, og sídan ad ødru hvörju allann daginn, vid þorstanum. Fyrirfram má blódríkum manni opna æd, og byrja vatnslækníngunа daginn þar á eptir. Hér vid læknast lidaverkir, ofþyckt blód, tídamissir kvenna, þúnglyndi, þó þetta hid sídasta, med því móti madur drecki ádur seidi af horblødku, (buckebladi, trifolium fibrinum) sem opt ver hjá þessum brunnum. Þetta vatn er talid gott vid øllum innvortis sjúkdómum, it. stilníngar vita og blódsíns brestum, eins magans og þvagsins, it. líkþrá, og øllum þar med fylgjandi kránkleikum, einkanligast øllum þeim, sem snerta blódid og saftirnar; gott er ad smyrja veika limi med þeirri brúnu feitu jørd, sem setst undir þetta vatn. Líka kunna menn bada sig í þessu vatni, nær madur heitir annad vatn, og hellir þar ofaní þessu mineraliska vatni, til þess mátuliga volgt er ordid, og brúka

þetta bad á 8 edur 9 daga fresti. Þetta skrifar Strøm.

14. Atli. Mun ecki þetta vera ýkjur? og þó satt væri, hvar hefir eg á Konúngsstødum slíkan brunn?

Bóndi. Sá norski Sunnmæra Prestur Hans Strøm, er nú af mørgum þecktur fyri einn af þeim lærdustu og bestu mønnum í Norvegi, og allt hvad hann skrifar um slíka brunna, er samkvæmt skynsemi athugasamra manna, en þessvegna vildi eg láta þig vita þetta, ad þér mætti ad gagni koma; finnir þú slíkann brunn í landeign þinni, sem mér þyki meiri von ad verdi, ef þú géfur gaum ad, því færri munu lendur þær á Íslandi, helzt þær sem til fjalls ná, ad ei hafi þesslags brunn, en ecki alla þá jafnsterka; og nockud af verkunum hvílíks vatns hefi eg reynt hér á bæ, mun eg þó hafa betri brunna enn þá eg hefi enn fundid, því nóg hefur hér jørdin af øllu því þrennu, brennisteini, salti og járni. Vidlíkar dygdir eignar J. S. Carl, hoflæknir greifans af Isenborg, *) hvílíku heilsubrunna vatni; hafir þú hvørki gallepli, thee né tormentillu-rót, þá er þér betra enn ecki, ad brúka í þess stad burni-rót edur fortulings mydlinga, til ad reyna vatnid med.

15. Atli. Ecki lifi eg á einusaman vatni; segdu mér afstødu túns og bæar?

Bóndi. Taktu til ráds med þér forstanduga menn, sem þeckja þar landslagid, þeir géta sagt þér og varad þig vid, hvar nedangaungu vatn sé, og hvar ís svellur upp á vetrum, veldu þér þá med þeim þann stad. 1) Hvar byggiligast er, og bestur jardvegur.

*) Vom Wasser Engel.

Hans merki eru þessi: Hátt gras edur lýng saman vid: þvol, svort mold, einsaman edur leirblandin; hvar menn grafa grøf ofaní jordina, og géta ei komid allri þeirri mold ofaní grøfina aptur, sem upp úr henni kom, verdur þess meira afgángs, sem jordin er feitari. Hvar lágt og rírt gras er, þar er jørdin jafnan møgur, nema mosa mýri sé, hún er jafnan ávaxtarlaus. 2) Hvar bæar og penínga hús kunna ad standa á hóli, leyti, edur svo hátt, ad þadan renni oll rækt út á tún, en ecki ofaní læki, dý eda sen ad ónytju, þá er líka þerrisællra vid bæinn, en verdt er ad varast hvar vedurnæmt er, helzt bilja vedur, ef menn eiga kost á því. 3) Hvar bæ, túni og engjum er sem óhættast fyri skridum, snjóflódum, landbroti af ám, votnum, sandi, sjóargángi, edur ødrum skada. 4) Hvar túnid er mest sudur undan bænum, og á móti sólu, helzt ef raklendt er, svo hennar neyti sem best framan af degi, enn liggji í hlé fyri norrænum. 5) Hvar túnid hefur sem minst af kulda vesli og nedangángs vatni, því þesshátttar jord er aldrei friódsøm, síst þegar hún liggur ímóti nordlægri átt, en þad kostar opt mikid erfidi, ad veita ollu því vatni burt. 6) Þad er hagkvæmt ad bóndi sjái innan úr húsi sínu, hvad um er úti, hvort nockur ferdast um, edur kémur ad gardi: um tún sitt og engjar, fiós og sjárhús, hjalla og skipavør vid sjó. Þetta sídasta taka sjóbændur á Vestfjørdum til vara, og sjá þeir úr rúmi sínu, hvørt sjóvedur er, og hvad sjóarfollum lídur. 7) Hvar þurt og gott er adreidar, því blotni þeir trodningar mjøg upp, þá leggja ferdamenn hvørja gotu út af annari, og verdur allt þad land, sem upptredst ónýtt á medan svo fer framm. Ætladu svo til ad lestamenn hafi gódann þjód-

veg utan til vid tún þitt, svo þeir þurfi ei ad reka yfir þad, og er best ad ein gata sé slétt og breid frá þeirra vegi heim og framan ad bæ þínum, fyri þá sem koma vilja. Þegar þu gjörir sídan trød ad bænum, á hún ad vera ei minna enn 5 álna breid, og er þér lángtum minni skadi ad missa þad pláts, enn ad túnid trodist. 8) Gétirdu komid því vid, þá verdur þér þad mikid hagrædi, ad leggja þér þar tún, sem hægt er ad fá efni í túngard allt umkríng, hvørt heldur er grjót edur hnaus, og hid sama er jafnan athugandi, þar sem menn brjóta jørd til engis edur akra. Þetta flest allt er tekid úr bækling **Varronis de re rustica. Lib. 1 Cap. 12, 13**, og **P, Juels**, góda bónda, Kap. 13.

---

## 4^di^ Kapítuli.

### Atli hýsir bæ á Konúngstødum.

16. Atli. Heyrt hefir eg hvørnin eg eigi ad velja bólstad, en segdu mér, hvørnin á eg ad velja sjálft húsastædid?

Bóndi. Hardt og hátt, þurt og þétt, einkanliga ad þú sért viss um ad ecki sé nedangánga, (§. 15.) hvar ei hallar mjøg landinu, því þar kostar erfidi, ad hlada grundvoll jafnan, sem gjørast verdur af stóru grjóti, ef duga skal, og hús eigi snarast undan breckunni. Best er ad bærinn standi á breidum hól, sem halli út af allt umkríng. Sé þyckur jardvegur undir, þá verdur bygging þín ecki stødug, nema þú grafir nidur undirstødur, svo lángt, sem jørd frýs á vetrum, því þegar klakinn kémur

í jørdina, þá hefur hún sig, og tútnar út, því heldur sem húsið stendur hærra, máttu þá skilja það, að þegar klakinn að utanverðu hefur sig upp, og vegginn með þeim meiginn, en húsgólf er þýðt að innanverðu og þar er veggurinn í sínum réttu skorðum, nema hvað hann er jafnan að síga, á meðan hann er nýr, meir innan enn utan, því þar er hann þurrari á sumrum, enn stýfur og frosinn á vetrum, þá vill veggurinn snarast að húsinu, eins og klakinn ytra steypir honum, einkum hafi veggir verið hlaðnir meir við sér utan enn innan, hvað margir ófyrisynju gjöra. Nockuð hjálpar það ráð hér á móti, að hafa meira grjót í veggnum innan til, þá verður hann stýfari, að standa af sér ágánginn. Það hús, sem hefur leir í grundvelli sínum, segja menn traudt verði slagalaust, og enn síður loptið hollt þar inni, því leirinn í gólfinu haldi í sér øllum súr og námu føstum, sem þar vóru áður, géråst þær þar niðri, þegar mannylur og umtroðningur koma að ofan, og géfa þá upp af sér gufu nockra, helst við veðra brygði. Er þetta meint um þau hús, sem ei hafa kakalón, fjala eður steingólf, það bætist með ræsum undir húsum, og enn betur með því, að grafa burt leirinn, sem lángtum þarfari er til annars, enn fella aur og sand ofaní gólfið aptur.

17. Atli. Það mun kaldt, að hafa steingólf eður hellugólf í húsum þeim, sem menn sitja og standa optast í á vetrum?

Bóndi. Bæði er það kaldt og líka óholt barnskonum, eður þeim sem hætt er við að missa tíðir sínar, líka karlmønnum, sem holdsveiki býr í (skorbút), þó skaðar það mest, að standa lengi kyrr á steininum, einkum ef lítt eru klæddir til iljanna. Þar við høfðu fornbændur

gott ráð, sem enn er tiltækiligt, hvar hús eckí drjúpa: þeir þöktu hvørt haust vetrarhúsa gólf með þurru rétthverfu grastorfi, hefur það verið hlýtt og mjúkt á að gánga. Norðmenn hofðu hálm á húsgólfum í þess stað, helzt i dryckju stofum. Skúlar svo assessor Arni Magnússon yfir orðið hvirfings dryckju, að þeir hafi setið í hríng réttum beinum í hálmi, þegar þeir hofðu boð inni, og vísar til Noregs kónga sogu, um Harald kóng og Einar Þambarskélfir, þegar hann vóg Grjótgarð.

18. Atli. Segðu mér nockuð um veggina, á þeim ríður meir enn á gólfinu?

Bóndi. Gras-hnaus nýum muntu kunna að hlaða, og sniðtorfi innaní, eins grjóti og torfi eða sniðtorfi saman, ellegar hvar veggir eru í jørð grafnir, þá einusaman grjóti að innanverðu. Þó slagar gjarnan það sem við grjótvegginn liggur, ef innibæarhús er. Hér skal eg nú segja þér þann bæa byggíngarmáta, sem kéndur er í oeconómiska Magazini Tom. 6. Pag. 341, þar segir svo: bóndabýli kunna vel að byggjast af almenniligu grjóti og leiri, hvar ei er kalk að fá. Steinveggurinn má vera í mesta lagi danskrar álnar þyckur. Stjaka setja menn niður utan og innan við grundvollinn, og negla þar á beinar rár, hvørja upp undan annari, ellegar og svo borð, hánga þaðan snúrur á lóði, svo menn géti alltíð séð ofanfrá, hvørt steinar setjast rétt. Fella skal smásteina imillum hinna stóru undirstøðusteina, og jafna þá fyrst, til þess álnar hæð er komin. Nær menn byrja þá annað grjótlag, sjái þeir til, að laggóður steinn komi ofan yfir allar samkomur hinna fyrri undirstøðu-steina, svo að hvert lag bindi annað, og skal jafnan hinn besti fløtur steinsins snúa niður.

Þegar menn eru nú komnir 2ja álna hátt yfir jardveginn, med alla bygginguna, þá eru glugga kisturnar innsettar. Dyragrindina setja menn af 5 eda 6 þumlúnga þykku tré á hvern kant af fjórum, þó er betra, kunni madur ad fá góda steina í þess stad. Leir láta menn á loftin, tveggja þumlúnga þykkvann, en nedan strjúka menn þau med þunnu kalki. Gólfid jafnast ofan med leiri, og sé svefn-hús, geymslu-hús, eda loft, þá er betra, ad madur melji gler, og láti svo mikid af því, sem menn hafa efni til, saman vid leirinn, þad ver øllum ormum ad hreidra sig í gólfinu. Þegar búid er ad byggja, þá plocka menn ad utanverdu leirinn úr øllum samkomum, og fylla aptur med tilbúnu kalki, og þá fyllast undir eins allar rifur med smásteinum. Þessi veggur þolir bædi vind og regn. Sé berg sprengt í þessa bygging, þá er best ad hvør steinn liggi sem hann hefur ádur legid, og þad snúi upp, sem ádur var. Þegar fyllt hefur verid upp med smásteina og leir, ímillum tveggja laga, þarf ad fá laggódann flatann stein innaní, sem bindi yfir um þverann vegg, út á midja hledslu steina, ad aldrei géti klofnad. Ibidem 335: þad er fundid besta rád ad gjøra leirvegg varanligann, menn blanda hvør 2 hløss af leiri, med einum hjólbørum af hrossa-tadi, láta menn þad vel eltast og trodast saman vid leirinn. Þegar þessi veggur er þakinn ofan, svo vatninu útaf halli, er hann varanligur. Sama segja menn um kúamyki. Eg segi þér frá þessu, því slík bygging er eigi kostnadarsamari enn svo, ad bædi þú og adrir óríkir menn, géta fylgt þessum reglum, þar sem grjót og leir er hægt ad fá, og mættu þessi hús verda ad mørgu betri, enn vor moldar-veggja hús, og standa lengur enn flest

af þeim. Það heyrir og svo til bærstædi, ad setja hann þar, sem veggja efni eru nóg vid höndina og hentug.

19. Atli. Hvør hús þarf eg fyrst? kéndu mér líka húsaskipan?

Bóndi. Sú er þér húsaskipan hagkvæmust, ad þú sjáir frá bæardyrum þínum allar útihúsa-dyr, og ad sem mest af öllu annvirki þínu sé þér strax fyrir augum, er þú lítur út úr bænum: betra er ad bærinn sé tvídyradur, nema gluggar séu svo stórir, ad menn megi vel útkomast, því þad hefur stundum kostad líf manna, þegar eldur kom framarliga í bæ, ad þeir komust hvørki framm um hann né annarstadar út ad forda sér. Sjálfur kantu ad velja, af annara manna sidum, þann hátt sem þér gedjast best, ad rada húsum nidur, skamta bæarhlad, og annad þessháttar. Nú þarftu fyrst ad byggja þér eitt bæar-hús, en þad sem allra stærst þú fær efni til, og eigi minna enn fjøgur stafgólf, 6 álna breidt, þarftu þá ecki fleira enn þad eina bæar-hús fyrst um sinn, og gétur þú haft þar inní betri hentisemi, enn þótt þú fengir fleiri og smærri. Þar hefur þú búr og addrætti yckar í ødrum enda, hinumeginn pall fyrir yckur ad sitja og sofa um vetur, en vefstad á gólfi. Viljir þú heldur líkjast fornmanna háttsemi, þá máttu hlada þér upp eldstó á midju gólfi, med eldstockum umkríng á 4ra vega, og má þér samt duga húsid, kantu þá sitja vid máleld ad kvøldum, med óvandada vinnu, og hefur þú allt þurt og slagalaust inni, og er þad mikil hýbýla bót, enn ecki máttu þá loft hafa í húsinu, nema þú geymir efst á skammbitum ambod, og allt þad sem reykjast skal, hvørt heldur ætt

edur óætt. Viljir þú heldur hafa ónstofu út úr húsi þessu, þá verdur þú ad búa vel um hana, því oft hefur húsbruni komid af ónstofu eldi.

20. Atli. Fleiri hús þarf eg þó enn þetta eitt.?

Bóndi. Uti þarftu fjós fyri 6 naut. Þú munt taka 2 kýr á leigu, fyrst þú átt einga sjálfur, beggja þeirra kálfa elur þú nú á fyrsta ári, því ecki muntu í annad sinn hafa færri menn framm ad færa. 2 géldneyti tekur þú til fódurs, því þess gétur þú hægast aflad, sem þau lifa á. Verdur þá fjós þitt 8 álna lángt, og 4 álna breidt, og snúa þrjú nauta høfud ad hvørjum gafli. Þá þarftu hús fyri leigu ærnar 6, til þess þarftu eingann vid, þú gétur hladid þad ad sér upp, sem annad byrgi, og láta op eitt vera upp úr midju, en dyr þar sem hentugast er eptir afstødu: eins máttu eldhús byggja utanbæar med rauf upp úr fyri reykháfi. Lambhús er enn, sem þú þarft fyri 20 lømb, ef þú ætlar þér ad borga kúgilda leigur í lambafódrum. Þess verdur þú ad gæta um øll kvikkféuadar hús, ad veggir þeirra séu innan til af einusaman grjóti upphladnir, svo lángt sem andi fjárins kann til ad ná, annars morknar sá veggur strax í sundur, og verdur ad fúa mold. Annad er þér adgætandi um alla veggi, hvar grjóti einu er hladid, beggja meiginn, en fyllt med mold innaní, þar tútnar moldin út í veggnum, þegar hún frýs, svo allir steinar fara úr lagi, eru hér til sømu røk, sem sagt var um grundvøllinn.

21. Atli. Ecki fæ eg hrís á Konúngstødum, hvad á eg ad hafa til tróds?

Bóndi. Fáir þú þunnar hellur, og stórar, máttu hafa þær bædi fyri tród og rapt, en lángbønd séu þá

svo þétt, ad hvør hella nái á 2, og séu þau þá sterk ad því skapi. Surtarbrandur er og þartil gódur, hann fúnar ei heldur enn steinn undir torfi, og slík bygging hefur hér vída lengi stadid. Sé hvørugt þetta ad fá, máttu brúka þurrann gamburmosa, rúmliga kvartil þykkann þá hann er lagstur, edur sinu, edur melstaung, og sé allt þad vel þurt. Þad er reynt gott rád, ad brenna utan bitahøfud, sperrutær, og alla þá vidi, sem helst mæta vætu og fúa. Þannin brendur utan vidur hefur fundist 2 til 300 ára gamall ófúinn, bædi í fornmanna haugum og annarstadar undir jørd. Gamlir bændur hafa líka borid nautamykju ad húsastøfum nedan, svo eingin mold géti ad þeim komist, og eru þeir þar beinhardir, eptir mørg ár, eins og spýrukér, sem med því móti geymast nidri í jørd, svo barmar einir standa upp úr, og eru þar óskémd, bædi ad girdi og ødrum vid, einn mannsaldur eptir annann. Þar má kringlutorf fá, sem ekki fæst lángtorf, en hvar hvørugt er, þar máttu sem best tyrfa med snidtorfi eda hnaus, hann grær fyrri, því ad í hønum halda sér allar rætur, verdur þad þak þétt, vid þad ad hnausinn sígur hvør á annann ofaneptir hlidinni, en bæta þarf í mænirinn á hvørju ári, af þremur þeim fyrstu; traudlega þarf þad hús optar torfs med enn um sinn, þótt þad verdi gamallt.

---

# 5ᵗ Kapítuli.

## Atli vantar rúmføt, skóledur, o. s. fr.

22. Atli. Eg er svo fátækur, eg á einginn sængurklædi?

Bóndi. Svo mikid muntu eiga fyriliggjandi af fatavadmáli þínu frá fyrri árum, med því sem eg géld þér ad vori, ad yckur hjónum dugi í sæng og reckjuvodir, þar innaní géti þid fengid yckur þurrann dýamosa eda þann sem menn kalla barnamosa (sphagnum palustre) má hann líka brúkast fyrir íleppa í skóm. Saman vid þann mjúkasta mosa, sem þú fær, máttu blanda þurkadri baldursbrá, ad þú sér því hedur frí fyri flóm, og til ad verja rúm yckar fyri maur, mel og mocku, þá er burkni gódur, helzt hrísburkninn (Filix frutescens ramosa) af hønum vel þurrum máttu hafa þyckt lag undir sæng yckar, hann er vída ad fá til fjalla, og hér vestra med Tálkna- og Vattarfjørdum. Bædi í rúmstædi þínu, og vídar í svefn- og setuhúsi hafdu nockud toluverdt af þurru reyrgrasi, og ødrum ylmandi urtum, þad gjorir loftid þar inni hollt og þægilegt, einkum þeim sem ad koma utan frá. Hafir þú ecki brekan, géturdu gjort þér yfirdýnu af einsképtu edur ødru ódýrasta tægi, og fylla hana eptir þorfum, med vel þurru og kémbdu tjarnaslýi, sem er þartil lángtum betra enn fífan, máttu þar vid líka blanda nockru litlu af ylmgrøsunum, edur þurkadri mødru. Af mýrasefi og barnamosa má og svo rída mjúka dýnu.

23. Atli. Eg á ecki skóledur, en þoli ecki ad gánga berfættur?

Bóndi. Von er þér þyki þad óvidkunnanligt, fyrst þú hefur ecki vanist því. Nockud lítid skóledur þarftu ad kaupa, og þegar þú hefur eignast þad, þá taktu birki- edur vídir-börk, birkiblöd, sortulíngs og einirlauf, burnirót, kornsúru, marjustack, hvad helzt af þessu þér er hægast ad fá, edur allt þetta samann, saxa þad og set á vatn, lát standa ei skémur enn mánud, helzt hvar hlýtt er, seyd þad svo góda stund í katli eda járnpotti, ef kétill er ei til, sýa löginn frá, og þegar hann er volgur adeins, sem blód í lifandi nauti, þá legg ledrid þar ofaní, snú því opt, og velk þad þar innan um, lát þad liggja þar í hálfann mánud eda lengur, betra er ad velgja upp löginn ad ödru hvörju. Þetta verdur gott ledur og mýkra enn annars. Þad ledur slítst og betur, sem ellt er. Sortulögur brúkast vída til ad lita skóledur, lítid batnar þad í hönum, og spillist ecki heldur, ef þad liggur ei lengi, svo járnkraptur sortunnar brennir þad ecki, sem annars er hætt vid. Lærdu þad af útlendskum þjódum, ad snída þér skósóla, eptir ilveg fótarins, til sparnadar vid ledrid, en hafdu annad lakara skinn yfir ristina lodid, þegar þú villt halda til hita, eins og þegar Gissur Jarl brúkadi lodna kálf-skins skúa í köldu vetrar vedri, en snodid annars. Vid sjósídu brúka nockrir allslags fiska skinn, líka skinn af bægslum og spordi hvala til skóleista, halda þeir skór, þegar þeir rækrast vel, einum manni ár umkríng. Þetta hvalskinn rækta nockrir, eins og Grænlendíngar selskinn sín, láta þad liggja í keitu, þartil öll fita er úr því, og hefur setst ofan á; sídan er þad herdt, barkad

og ellt, meiga þeir stór verda nettari, enn útlendskra sjómanna stór. Tréstó brúka Norskir, sem hér í land eru vid fiskina, þeir eru ecki vandgjørdir, kosta lítid, en vinna þó sína skyldu.

24. Atli. Hvá hefir eg lítid ockur til fædis, þegar eg kém ad Konúngstødum á Krossmessu í vor?

Bóndi. Þegar þú fer úr vistinni á Krossmessu, er lítill útvegur til matfánga, þar sem ecki er sjóarafli, skélfiskur, veidivøtn, álakéldur, eda fuglaveidi. Þú verdur fyrst ad fá þér mat ad kaupi eda láni, en hønum til drýginda máttu fá þér hvanna- muru- og holta-rætur eda fiskarætur, góibitla, fjallagrøs. Skamt eptir Krossmessu kantu ad fá álfta- og sídan rjúpu- anda- og fleiri villifugla egg. Náir þú til sjóar, kantu ad fá sel, hrognkélsi, síld, silúng, lax, sel ɔc., sérhvad í sínum stad. Máttu trúa kríunni til þess, ad þá sé kominn silúngur og lax inn ad landi og í árósa, er hún lætur til sín heyra.

25. Atli. Gét eg nockud búid mér í haginn fyrir framm, sem drygja kunni matbjørg mína á fyrsta sumri?

Bóndi. Ecki dugir mikid ad þeirri maturta rækt, hvar jørdin opnast ecki haustid ádur, svo svørdurinn sé afstúnginn, því strax á vori, fyrrenn jørdin er stúngu þýd, er grasrótin búin ad draga ad sér frjófgunar vessa úr jørdinni, og koma þeir ecki til gagns nýu sád-frœi á því sumri, en þegar allur grassvørdurinn er af-stúnginn haustid fyrir, þá gengur ei neitt frá krafti jardarinnar, en leggst mikid til hans, bædi þad, ad rótarángar fúna í flaginu um veturinn, hvar vid jørdin batnar, og líka hitt, ad opin jørd tekur ámóti nýum

frjófgunar krapti af loptinu med regni og snjó. Þegar eg lofa þér í haust, ad byggja þér húskofa á Konúngstødum, þá máttu fara framm til fjallshlídar og veldu þér þar í landeigninni góda jord og feita, i hvammi nockrum, sem liggur í móti sudri, edur einhvørri sudrænni átt, stiktu þar flag, og láttu allann hnausinn veltast um, ad grasrótinn verdi nidur á, nema þú fáir tíma til ad hlada gard úr honum. Gétirdu þá pælt upp flagid undir þeirri fyrstu veltu, þá er þad lángtum betra; láttu þad svo liggja til vors. Þegar þú kémur nú þar ad aptur, á vori, þá pælir þú upp sem fyrst ad klakinn er allur edur mest allur úr jørdinni, sem ecki er ad vænta fyri fardaga, þar framm til hlída, og máské enn seinna, helzt ef vatn hefur stadid í flaginu um veturinn, sem eg gádi ecki ad vara þig vid, ad þú þarft ad fordast, því hvar vatn stendur á, tekur jørdin lángtum seinna í móti vorhitanum, þá fúna sídur í henni tægur og rótarángar, og hún fær minna líf af loptinu, í gégnum þad kalda vatn og þétta ís: en ad snjór liggi þar yfir um vetur og frameptir vori, er einúngis bati, og er þad gjarnan frjódsomust jord, sem hann liggur sem lengst á. Ristu þér sídan gamburmosa, helzt þann sem þú fær grófastann og stýfastann, (líng og fjalldrapa má og til sømu brúkunar hafa, en þad ættir þú heldur ad spara til annars, sé ecki nægt af því) legdu mosann ofan yfir þetta flag, hálfrar álnar þyckt, og jafnvel meir, ef hann er þar hægt ad fá, haldtu hønum þar til þerris, sem þér er hægt ad gjøra, því hann þornar nóg á einum gódum þerrir degi: legdu sídan eld í hann, svo hann brenni til øsku, jafnt yfir øllu flaginu. Þegar kulnad er úr þessari øsku, þá

sádu þar næpna fræi, helzt úr norskum svidum, sem Danskir kalla brati=næpur, ef þú átt þess kost. Þegar þú sáir, stiktu nidur fingrinum, svo þú ad eins náir í gégnum oskuna, ofan ad moldinni, það verdur vel hálfs þumlúngs djúpt, lát þar koma 2, eda mest 3 korn í hvorja holu af næpna fræinu, settu svo út allt flagid, og lát vera lítid minna enn íslendska alin ámilli hvorrar holu, á allar sídur. Þegar þú svo útsett hefur flagid, þá taktu vallar kláru, og berdu med henni, þó ei mjøg stórkostlega, ofan yfir allar holurnar, þá lykjast þær, og fyllast med mjúkri mold og osku saman. Gétirdu aflokid þessu fyrst í Júnio, edur fyrir hann midjann, þá er nóg snemma sád. Einga rækt þarftu hértil framar, því þar vex hvorki arfi né annad ógras, og þó hnausinn hafi legid kyrr úthverfur, eins og þú skildist vid hann ad hausti, þá vex ecki svo mikid gras upp úr honum, ad það spilli næpnavertinum; ecki skyldir þú skéra gras af þessum næpum, því það skýlir þeim og styrkir voxt þeirra, helzt hvar loptid er kaldt upp til fjallshlída. Sé nú flag þitt 3 fadmar á hvorn veg, af fjórum, gét eg til þú fáir 3 edur 4 tunnur næpna á hausti. Þegar þér vinnast stundir til, einhvorn tíma á sumri, þá vitjadu um þetta flag; sé þá rótin ordin svo stór sem hænu egg, þá stíg þú hælnum ofan á hvorja næpu, svo grasid verdi ad leggjast nidur, og næpan þryckist ofaní moldina, en trodtu hvorgi á milli þeirra, það spillir, en bitt hjálpar vertinum. Kálrótna fræi máttu eins sá, reikna Svíar mikinn feng í því, ad hafa sem mest af þeim, og segir Boge það sé einginn gódur bóndi sem ecki hafi af þeim 50 tunnur á hausti, þær eru og víst betri enn næpur. Jardeplum máttu lika sá, med

sama móti, hálfu dýpra enn næpunum, og viðlíka bili á milli. Nú vísa eg þér helzt til þessara fræa, af því þau þurfa minsta rækt, en gefa mesta eptirtekju.

26. Atli. Er nockud fleira það, eg megi safna mér til matardrýginda?

Bóndi. Von er þú spyrjir að því, nú á fyrsta ári, því lífið er þér torgætast. Þú átt þó eina 3 menn framm að færa, sem er þið hjón og ein vinnustúlka, sem þú þarft að taka, og dugir yckur lítill forði. Safnaðu þér vel fjallagrösum, geitnaskóf, hvannarótum, það geymist allt vel til vetrar forða, ræturnar í mold úti eða inni: láttu vinnustúlku þína tína kornsúru (Bistoeta) fræ, það er þér ei verra enn íslendska mjölið og geymist vel, þegar það er nockuð þurkað; stúlkan kann að fá af því meir enn hálfa pundsfötu á dag, og hvar kornsúra er mikil þá fjórðúngs fötu. Safnaðu líka melstángar fræi, það er ætt korn, og ef það móðnar ecki, sem stundum vill til, eður komi kafald á það, snemma í October mánuði, þegar það er fyrst vant að vera orðið stríðt, þá taktu það fyrri, eins og sagt er að Austfirðíngar slái melinn, þurki og þreski síðan, er þér ei vandara þeim, eða bændum í Rússlandi, *) sem brúka græn grjón, af ómóðnum rúgi; hérvið bætast næpur þínar, jarðepli, kálrætur. Þú getur á sumri gjört þér graut, eða svo kallað lángkál, af skarfakáli, súrum, heimanjóla, allt er þér það hollt, og hvað heimanjóla blóðin snertir, þá er hér dæmi nágranna míns. Árið 1761 reið Hr. Landphysicus um vestfirði. Þessi

*) Von Havens Beskrivelse over det russiske Rige. Cap. 4.

madur kom til hans, svo yfirkominn af gulu-sótt og brjóstveiki, ad hann gat ecki gengid vid staf án hvíldar, þremur fødmum lengra: fyri þessum manni hrósadi Landphysicus þolinmædinni, og réd hønum ad brúka dagliga til fædis heimanjóla (Patientz) blød: þessu rádi fylgdi madurinn trúliga, batnadi hønum smámsaman, og sídan þad sumar leid, hefur hann aldrei kénnt þess meins, og lifir hann enn vid góda heilsu, og hefur vel endst til ad vinna fyri sjø børnum.

27. Atli. Eljunarsamur verdur mér útvegurinn, er mér ecki betra ad sleppa óbygdar rudnínginum, og fá mér heldur lítinn part af bygdri jørd?

Bóndi. Þad er þér lángtum hægra, á fyrsta ári, og svefnsællra, en ef ad þú ætlar þér ad verda dugligur bóndi, og gagnligur madur, þá fær þú nóg ad vinna, hvar sem þú ert. Ef ad þú tekur bygda jørd, þá eru flestar af þeim ílla ræktadar, þú fær hús ónýt, þeim óþægiliga nidur radad, grafin í jørd; en viljir þú heldur búa nærri ødrum mønnum, og þú fær eingann, sem vill rydja sér audn til bygdar nálægt þér, þá er þér þad vorkun, og fádu þér þá bygdann kóngspart ad búa á, þá nýtur þú verka þinna og mátt búa vid þau, svo lengi, sem þú villt, en þar áttu ad halda húsum vid, byggja túngard, jafna tún, og vinna hid sama sem á Konúngstodum, hvar þú hefur þá kosti frammyfir, ad verda ódalsbóndi, og skattfrí um 20 ára tíma, enda géfur forordníngin um rudníngsmanna fríheit øllum þeim góda kosti, sem rydja sér nýbýli, þó þad sé í landeignum bænda.

28. Atli. Ecki þarf eg meiri fríu, Konúngstadi vil eg taka, og nú í vor vil eg kvongast, strax eptir

pásta, því eg hefi heyrt það yrði óláns menn, sam halda brúdkaup á föstunni.

Bóndi. Gömul páfalög banna brullaupshald á laungu föstu, eins á jólaföstu og framm um jól, og frá uppstigníngar degi til heilagrar þrenníngar messu, en þessar mannasetníngar, med fleira slags súrdegi af sömu tegund, hafa mist allann krapt hjá betur upplýstum mönnum, þegar þær hafa verid skodadar vid ljós Guds orda, og réttrar skynsemi; þeir sem hafa verid svo ófródir og óstyrkvir, ad þeir hafa reiknad sér og ödrum synd, ad breyta á móti þessum fornu setníngum, þeir sömu hafa tínt saman allra þeirra dæmi, sem brutu páfalögin, en fengu sídan einhvörn gæfuhnecki. Þótt þú gledjist í Guds ótta med hófsemi, ásamt bods-mönnum, ad brúdkaupi þínu, á hvörjum tíma, sem þér hentar best, skyldir þú ecki láta það gjöra þér eptirá Guds vilja til þess ad blessa þig, grunsamann, enda hefur þú annad þarfara ad gjöra af efnum þínum, enn kosta þeim til mikillrar dryckjarvöru í brúdkaup þitt, svo þar verdi vanbrúkan edur ofmikill glaumur af. En gétir þú hvörki af skynsemi, né annara manna fortölum sannfært huga þinn, ad allir tímar séu þér heilagir og hollir til svo heilags verks sem það er ad inngánga ekta-skap, þá er þér óhættast og hollast, ad fordast það sem þú heldur synd, á medan ad þú frædist ecki betur, og sama má segja um það allt, sem madur gjörir ecki í þeirri vissu, ad Gudi líki sín verk. Sú vissa er líf í öllum framkvæmdum manna: hvar hana vantar, kallast verkin daud, og í líkamligum útvegum eru þau oftast gæfulaus; þadan mun komid munnmæli það sem þú mintist á.

# 6ti. Kapituli.

## Atli spyr ad dagsmørkum á Konúngstødum.

29. Atli. Ecki veit eg hvad degi lidur á Konúngstødum, þar mun einginn vita dagsmørk, en svo mikid hefi eg nú þegar lært af rádum þínum, ad eg mun þurfa ad vita rismál bónda.

Bóndi. Sagt mun þér hafa verid, ad sólarhringnum edur degi og nóttu saman er venjuliga skipt í átta eyktir, sem heita: midnætti, ótta, midurmorgun, dagmál, hádegi, nón, midur-aptan, náttmál, hefur hvør þessi eykt í sér 3 stundir, og eins merkir hvørt eyktar-nafn heilar þrjár stundir, en ecki púnkt einn tímans edur afmarkad sinn, því verdur sagt: ad øndverdum dagmálum, á ofanverdu hádegi, it. þá halladi út eyktinni; er þad ein eykt sem sól gengur um hvørja átt. Ámedan sól gengur um nordur átt, heitir midnætti; á medan hún gengur um landnordurátt, heitir ótta; á medan hún gengur um austurátt heitir midurmorgun; ámedan hún gengur um landsudur átt, heitir dagmál; ámedan hún gengur um sudurátt, heitir hádegi; ámedan hún gengur um útsudurátt, heitir nón; ámedan hún gengur um vesturátt, heitir midur-aptan, og ámedan hún gengur um útnordurátt, heitir náttmál. Nú hefur sól hálfgengid midnættiseykt, þegar hún er í fullu nordri, er þá hálfnud nóttin, og kl. 12. Frá nordri gengur

sól til austurs hálfann eyktar tíma, er þá liðin miðnættis eykt, og heitir þá ótta, en sú eykt er þá hálfnuð, er sól er í fullu landnorðri. Þaðan hefur enn sól gengið hálfann eyktar tíma, þegar sú eykt byrjast er miður-morgun heitir, og er hún þar hálfnuð, sem sól er í fullu austri. Hálfri eykt síðar hefjast dagmál, sú eykt er hálfnuð, er sól er í fullu landsuðri, enn þar endast hún, sem hádegi byrjar, og er það hálfnað, þá sól hefur hálfgengið hádegiseykt, það er, þegar hún er í fullu suðri eður kl. 12, en liðið er það nær vér köllum miðmunda, þá gengur sól inní nóneykt, sem þá er hálfnuð, er sól er í fullu útsuðri, og þegar sól er jafnnærri báðum nóni og miðjum aptni, þá er úti nón-eykt, en heitir miður-aptan; hefur sól hálfgengið mið-aptans eykt er hún er í fullu vestri, en þegar hún er jafnnærri báðum eyktum, miðjum aptni og náttmálum, þá er miðaptanseykt úti, og hefjast náttmál, er sú eykt þá hálfnuð, er sól er í fullu útnorðri, en þegar hún hefur gengið hálfa eykt þaðan, þá heitir miðnættið. Hér á móti, viljir þú kalla upphaf eyktar, þar sem sólvísir sýnir þér miðja höfuð átt, muntu aldrei finna gömul dagsmörk á nockrum bæ, sem beri saman við það; þú munt aldrei finna fornmanna dagmál kl. 9, hádegi kl. 12, en setjir þú slík dagsmörk hjá þér, munu menn kalla leti-dagsmörk, og ei munu þá vel eður hentugliga fara framm heimilis verk þín. Svo þú skiljir þetta betur, þá er hér sólskífu form, myndað eptir þeirri, sem vicelögmaður **Eggért Olafsson** setti í Saudlauksdal við Patriksfjörð, eptir fornmanna dagsmörkum, sem enn eru brúkanlig um allt Ísland, og ber henni líka saman við það, sem vor hálærði Biskup Dr. **Finnur Jóns-**

son skrifar i notis vid sína Íslands kyrkju-historiu, Tom. 1. p. 154, um eykta nøfn og skipan.

Þad er og alþýdu talsháttur vestarliga á Vest-fjørdum, ad þegar ferdamadur spyr heimamann, hvørt nú sé komid hádegi, þá svarar hinn, þad er fyri laungu komid hádegi, því nú er komid framm undir hædstann dag, og mun sú skilníng ordsins frá fornaldar mønnum.




Viljir þú gjøra þér sólskífu, þá settu hana fyrst fasta nidur, sirkladu á henni hrínga, sem á mynd þessari, og set þú svo lítinn prjón eda vísir í midpúnkt-inn, ei má vísirinn boginn vera. Sittu yfir skífunni

um hádegis bilid, þar sem skugginn er styttstur, þar hefur þú nordur fundid, þá dregur þú línu ígégnum midpúnktinn, yfir þvera sólskífu, og þad beint frá nordri, þar er sudur. Midt á milli nordurs og sudurs til hægri handar er austur, en til vinstri handar vestur, þegar þú horfir í nordur. Þar eptir gétur þú mælt og sirklad í sundur hinar adgreiníngar, eptir því formi, sem þú sér hérna fyri þér.

Jón Prestur Dadason, sem var í Arnarbæli, skrifar svo í sinni bók, sem hann kallar Gandreid, kap. 24: Hvar sem sól sést upprenna þann 21 Aprílis, þar er landnordur; hvar sem sól rennur upp 10 Martí, þar er austur; hvar sól rennur upp 25 Janúar þar er landsudur; hvar sól gengur undir 25 Janúar, þar er útsudur; hvar sól rennur nidur 10 Martii, þar er vestur; hvar sól rennur nidur 21 Aprílis, þar er útnordur. Þetta segir sá fródi madur síra Jón sé á sunnanverdu Íslandi, hvar eingar hædir hindra, reiknar hann eptir gamla stýl, því hann var búinn ad gjøra þessa sína bók 1672. Hér vestra vid Látrabjarg mismunar þessu svo mjøg, ad ef madur tekur nýa stýl fyri þann gamla, þá kémst madur nockud nærri sanni, þad er, ef ad menn taka mark á þessu ellefu nóttum fyrri, enn hér er tilvísad.

30. Atli. Þegar ecki sér sól, þá veit og ecki hvad tíma lídur?

Bóndi. Á Konúngsstødum sér nockud til sjóar, og géturdu farid nærri dagsmørkum af sjóarføllum, en þá verdur þú ad taka grant eptir fjørumáli og flædar. Adfall sjóar eru 2 eyktir frekar, útfall eins lángt. Nú eru átta eyktir í degi og nóttu sem ádur er sagt, eru

þá 2 flód og 2 fjørur í einum sólarhríng. Þá er alltíd fjara vid sjó, nær túngl er í sudri edur nordri, hvørt sem þad er úngt edur gamalt, og líka er þá alltíd flód, nær túngl er í austri eda vestri. Flód og fjørur færast eptir túnglgángi, og munar þad vel heillri eykt á fjórum døgum, sem sjóarfalli seinkar, svo þegar túngl var einnætt, þá var fjara, er sól var í sudri, en þegar þad er fernætt, þá er fjara, nær sól er í útsudri. Þetta allt er þó helzt ad marka til útnesja, hvar ecki er mikid ofugstreymi, en sídur inn á fjardabotnum, því þar eru øll sjóarføll seinna. Ad vita hvørnin stendst á túngli, og sjóarføllum, kann þér opt ad gagni koma í búnadar verkum þínum.

---

## 7<sup>di</sup> Kapítuli.

### Atli spyr ad fleiri vorverkum.

31. Atli. Hvad þarf eg fleira ad vinna, fyri sláttinn?

Bóndi. Þú gjørir til lédengíngar kola, og af sama birki safnar þú berki, til ad lita fot fyrir ydur, þad er þér betra, enn ad brenna vadmál þitt í sortu; þad slitnar øllum þridjúngi verr, missir allann náttúrligann il, og er því ofkaldt á vetrum, en á sumrum ofheitt, vegna litarins, og fyrir utan lánga sudu hjálpar járntegund sortunnar ad gjora styrt og stutt í því; einga

þessa galla hefur barkarlitur, þaraðauki er hann ó-saurljótari. Þú gétur barkað skinn fyrir ykkur, treyur og fleiri föt: ské má líka, að þú gétir unnið þér nockuð teluvert inn á vetri, með því að barka og tilbúa skinn-föt fyri sjóbændur, þeir géfa þér fiskifáng í staðinn. Aðferðin og kostnaðurinn eru létt og hæg, sem flestir vita, og þú líka. Eg veit að þú ert nockuð hagur, þú verður að byggja þér smiðjukofa, það er þér gott að þú gétir smíðað þér ljái, og annað búsmíði, líka má þér það gagn að því verða, gétir þú á vetrum smíðað það nockuð, sem útgengiligt fé hjá øðrum bændum, þá er þegar févænligra, en margs þarf búið með, og lítið áttu enn fyrir allt að géfa, sem þig brestur frum-býlínginn.

32. Atli. Hvorninn á eg að smíða, þó eg kunni nockuð til þess. Sýslumaðurinn bannar øllum að høggva skógana, nema sem allra minst til ledengingar?

Bóndi. Rétt gjørir Sýslumaður það, sem von er af hønum, því svo hefur Kóngurinn áskilið, hann vill menn fari sem sparligast með alla þá landkosti, er eyðast af brúkan, hefur Kóngur frétt það, sem þú veitst að satt er, að allir skógar eyðast mjøg hér í landi, og ef Hans føðurliga umsorgun fyrir Íslandi hefði ecki reist þær skorður við, mundum vér Íslendíngar, eptir hundrað ár hér frá þurfa viðarkola með frá útlendum þjóðum, nema nýr skógur verði hér í landi plantaður og þrifinn, sem enn er lítt byrjað. Nú mun eg ráða þér að brúka mótorf til eldiviðar, engínn bannar þér að skéra það rífliga. Gjørðu þér grøf í eldhús gólfi, hlaðna þétt með grjóti allt umkríng, álnar djúpa, og eins á allar hliðar, láttu þar hjá jafnan liggja þétta og

þyckva grastorfu, sem nái vel út yfir grøfina. Segdu konu þinni ad brjóta hvørki smátt né sparliga undir pottinn, þegar hún eldar, en strax sem hvør mótorfa er ordin glóandi í gégn, þá skari hún henni framm úr hlódunum, og ofan í grøfina, lyki þar yfir med svardtorfunni, sem til þess var ætlud, og snúi grasinu nidur, þá kafnar eldurinn undir í mótorfunni. Svo má hún gjøra vid hvørja mótorfu eptir adra, og verdur þér þá þad sama mótorf, til matgjordar og járnsmídis. Þessi kol eru góð til alls stórsmídis, og máttu jafnan hafa nóg af þeim, þau géfa mikinn hita. Til þessa segja menn bestur sé hinn svarti mór, og verda kolin því betri, sem mórinn er hardari. Vide oeconom. magazin Tom. 6ta. p. 413. Þá eru enn kol, sem þér meinar einginn ad brúka, ef ad þau má fá í landeign þinni, þad er surtarbrandur, hann er malinn vidlíka smátt og kol, brendur nockud minna enn kol og ad ødru tilhafdur sem þau. Surtarbrandskol eru miklu drjúgari enn vidarkol, og betri til smásmídis enn steinkol. Hvar surtarbrandur er í fjøllum, þar er opt hjá hønum ein steintegund, ei ólík steinkolum, hún verdur brúkud til drýginda med vidarkolum, í steinkola stad, en géfur mikid sindur.

33. Atli. Eg á eckért búsgagn, hvørnin má eg bjargast?

Bóndi. Af reka edur skógi máttu á Konúngsstødum smída þér í bú allt hvad þú þarft, og þótt þú værir leigulidi, máttu samt bæta bús-hluti þína, en hagliga áttu med skóg og reka ad fara, svo eingum sé skadi ad. L. lb. Kap. 7. géfa løgin þér meira frelsi enn þetta: þú mátt gjøra nýa bús-hluti af skógi edur

rekavidi, og brúka þá ámedan þú býr á sömu jørd, en hvørki mátt þú selja þá né burtu med þér flytja, því þeir eru eign landsdrottins, og ecki þín, en fyri smídakaupid hefur þú not búshlutarins, ámedan þú á jørdu býr. Grágás segir svo, í landabr: þætti Kap. 46, hvadan þessi vor lagagrein er tekin: Nú vill hann (leigumadur) gjøra nýa búshluti, og á hann ad gjøra, ef hann vill, og láta eptir þar er hann fer á braut, vanda svo vid til, sem þá mundi hann, ef hann ætti sjálfur skóg og fjøru.

34. Atli. Mjøg hrósar þú kostum mínum á Konúngstodum, en þar verd eg þó ad hýsa, og halda húsum sídan vid fyrir ecki; á ødrum jørdum géld eg ad sønnu landskuld, en þar þarf eg ecki ad byggja nema fadmslángann vegg á ári.

Bóndi. Ecki muntu vel þacka Kónginum þá nád sem Hann veitir þér, ámedan þú þeckir hana ecki betur enn svo; vænt þókti Íslands bændum, þegar í landid kom forordníng af dato 5 Maii 1591 og aptur ønnur af 21 Aprilis 1619, hvar þeim var lofad ad búa sína lífstíd á Kóngs- og Krónunnarjørdum, og skyldu ecki landskuldir hæcka á þeim, þó var þarmed sá skilmáli, ad landsetar betri jardir med húsabygging og túngørdum, og sídan haldi þeim vid góda bygging. Þrim árum seinna 1622, 29 November, í 4da art. þeirrar forordníngar býdur Kóngur, ad allir bændur á Íslandi útvegi sér sjálfir húsavid, til ad byggja og bæta sín hús og garda, eptir þeirra efnum. Hér ad lýtur forordníng 15 Maii 1705, og nú sídast forordníng um Prestecna jardir 5ta Junii 1750. Hér af sérdu, ad þú hefur eingu hardari kjør á Konúngstodum, enn þarámóti

stórmikil frìheit og ódalsrétt ad auki. Hér hjá óska eg þér ad þú njótir betur laga, enn þú ert réttordur ad bera þau fyri þig. Þess gétur hvergi ad þú eigir ad hlada fadmslángann vegg á ári, heldur segir Lb. 3: Landsdrottinn er skyldur ad fá vid til ad halda upp húsum, svo ad þar sé óhætt mønnum og fé. = = = En ef hann fær vid til, þá skal leigulidi ábyrgjast þó hús falli nidur, og hladi vegg fadm saman edur lengra. Þad er meiníngin: Þegar húsveggi þarf ad hlada, þá á landsdrottinn ad fá leigulida stodir edur styttur, ad setja vid, svo hús falli ecki ámedan, en leigulidi á svo hagsanliga ad byggja veggina, ad ei þurfi hús ofan ad taka þarfyrir, má hann því ecki hlada alla veggina í senn, heldur á hann ad hlada veggi fadm saman, eda lengra, svo lángt sem styttur hrøckva til studníngs. Þetta stycki af veggnum áttu upp ad hlada, þángad til þad er svo hátt ordid, ad þad gétur studt húsid í þeim stad, þá færir þú styttur og byggir eins veggin, þángad til þú hefur fullbygt húsveggina allt umkríng, svo húsid stendur fyri þad. Hér gétur þess ad landsdrottinn fái vid til ad halda uppi húsi, en ei er sagt: til ad byggja þad, þótt bygg íngar vidur sé í sama kapítula skilinn af hendi landeiganda, med því leigulidi skal ei ábyrgjast þótt hús fyrnist. Þessi fyrri lagagrein má ad sonnu ná heim til vorra bygginga, en átti helzt vid þad byggsínga form, sem mest var brúkad hér á landi, þann tid løgbók vor var útgéfin, en nú er mjøg farin ad úreldast, nema myndin sést á fáeinum kyrkjum. Grágás talar svo hér um Lbr. kap. 46: leigumadur á ad ábyrgjast hús, ad ei falli ofan, ef honum eru stedur tilsengnar og hefja upp of fadm saman, og hlada svo veggi

ↄ: fodmum saman svo lengi sem þarf. Vidlíka er leigulida skylda í Gulaþíngs løgum, búnadarb. kap. 1; Leigulidi skal þekja vel, og hallda droplausum húsum, hann skal uppihalda torfolum og vindskeidum og krókarøstum, og búa svo um, ad ei komi slag á vegg; er þessi grein innfærd í norsku løg 3 - 14 - 30. Hér af sérdu, ad þad er ber vodi fyri jardanýdslumenn, ad þykjast assakanligir, þegar þeir klambra upp veggfadmi á ári.

---

# 8di Kapítuli.

## Atli vill byggja sér jurtagard.

---

35. Atli. Jurtagard vil eg byggja mér.

Bóndi. Svo hefur Kóngur bodid þér, ad þú skyldir brjóta jørd til aldingarda og akra, 26 Februar 1754; veldu þér þartil hentugann stad; sparar þad þér ómak, ef þú lætur túngard þinn vera lángvegg jurtagardsins, þá hefur þú líka sídur ad óttast kálorma, og líka arfa og annad ógras, ef sádgardur þinn er ei rétt nærri bæ. Þad er þér betra, ad sádgardurinn sé mjøg aflángur frá austri til vesturs, og sé hlídveggurinn nyrdri, nockud hærri enn sá sydri, þá færdu meira skjól undir nordur hlídinni. Best er ad allur gardurinn sé bygdur af jardarhnaus, en allrahelzt hlýturdu ad byggja nordur vegginn af einnrisaman jørd. Þá verdur hann þéttur, sem mikid rídur á, og líka hefur þú þad gagn, ad

viljir þú geyma úti í gardi á vetrum rætur til tímgunar, þá lifa þær vel vid hnausveggin, en vid grjótvegginn deya þær flestar, þó vel væri annars ad þeim búid, vegna kulda hélunnar vid steininn, sem öllu aldini er skadlig, þó sá veggur væri alþéttur; allvel fer, þó gardur hallist lítid í móti sudri edur útsudri. Um maturta rækt hefur Eggért Olafsson Vicelogmadur skrifad fyrstur í íslendsku 1763, sá bæklíngur kallast lachanologia, prentadur í Kaupinhöfn 1774, og Mr. Olafur Olafsson hefur skrifad þar um nockru seinna, en Eggért vard þó fyrri til ad láta þryckja sitt skrif anno 1770. Þessa bæklinga kantu ad fá, því Kóngurinn gaf mikid af þeim bádum til útbýtingar í Islandi.

36. Atli. Segdu mér nockud um þessi skrif, eda kunnir þú nockud, sem þau kénna mér ecki?

Bóndi. Mr. Olafur, þegar hann var í Kaupinhöfn, tók saman úr útlendskum bókum, þad sem hann héldt helzt kynni ad eiga vid Island, um marturta rækt; en Eggért Vicelogmadur, sem ádur var sendur til Islands, ad ransaka þess náttúrligt ásigkomulag, skrifadi þad um sama efni, sem hann vissi, reyndi eda sá fyri sér í Islandi.

Þad hefur mér reynst best jörd, sem hefur sömu kénniteikn, sem besta vatn, þad er, einga lygt og eingann smeck, edur sem minst af hvörju fyri sig, nema hvad gód jörd og heilnæm géfur góda lygt af sér eptir regn, þegar hún er opin. Þad sem nockrir skrifa um vissar urtir, ad þær bodi altíd feita og góda jörd, hvar sem þær vaxa, þarf eg ecki ad segja þér, þú trúir því þegar reynslan kénnir þér þad, edur hinu annars, ad flestallar urtir géta varid í magri jörd, helzt ef þær hafa vanist

þar lopti og landstodu, ádur enn jørdin megradisi, en þad eru nockrar urtir, sem aldrei vaxa í feitri jord, svo sem géldinga=hnappur, (statice,) holtasóley (dryas) ꝛc. Þad gjörir betri jord, ad pæla upp gard, í mjúku og hlýu vedri, á hausti strax og upp úr honum er tekid, þegar þú tekur upp nýann gard og hefur góda jord, þá er þér nóg ad stinga upp gardstædid 1 kvartil djúpt, og berja vel í sundur alla kécki, í hlákum á vetri, þarftu þar eckért á ad bera; annad ár pælir þú dýpra, og svo lengi sem þú gétur bætt vid nedan úr grunni gardsins, hálfu kvartili árliga; af þessari nýu mold, sem kallast jómfrúrjord, þá hefur þú gódann gard, segja menn Hollendskir *) brúki þennann hátt vid nýlendur, og hefi eg þad líka reynt. Vid þetta lífgast árliga sá grunnur gardsins sem ópældur er, af lopti og regni ad ofanverdu, í gégnum þá upp pældu lausu jord, og verdur ad gódri matjord. Sé gardur þinn grýttur, þá máttu fyrst í stad láta þad grjót vera kyrt, svo þú sparir þér erfidi, því þar sem jord er opnud, þar lyptir klakinn á veturnar steinunum upp, en jordin í hvorri hláku jafnar sig og sígur ofan med þeim, og undir þá, til þess ad steinninn kémur sjálfkrafa upp úr jordinni, og þá er þér hægra ad taka hann burt, enn grafa djúpt eptir honum. Ad steinar hæcki í jørdinni skrifar og svo Strøm eptir plógmønnum í Norvegi. Af þessari orsok hafa menn sagt, ad jordin blásist upp og eydist, því þeir sáu steina komna upp úr jordinni, þar sem þeir vissu ecki steina von.

---

*) V. Petri Laurenbergii horticulturam.

37. Atli. Hvar skal eg taka áburd á eydijord?

Bóndi. Eg hefi sagt þér, ad þú þarft eingann áburd á fyrsta ári, þar sem þú hefur nýa góda jørd, og líka batnar hún, þegar hún er opin frá hausti til vors, og þángad til þú fer ad sá í hana, en finnist þér jord þín mogur til ad planta í. þær urtir, sem frekari næring þurfa, svo sem næpur og kálrætur, 2c., þá taktu þér sákérald edur tunnu, legg þar í fløgu af saudatadi, hell þar yfir korg, sem þvegin var vorull úr, og fyll sídan af vatni, lát standa nockra daga. Þessi løgur fer strax ad gánga og fúlna, þegar hann stendur í sólarhita. Af þessum legi máttu hella einum pela í holu, sem þú gjørir utan hjá hvørri plontu, vid þad mun hjá þér vel vaxa. P. Lundberg rádleggur *) ad taka úti haga kúamykju, þegar kýr bíta grænt gras, og setja regnvatn á þad, og vokva þar med; it. skuli þorf vera ad verja ormum, þá blanda menn þar vid sóti og tjøruvatni. Mjólkur- eda blód-blandad vatn er gott fyri þá ávexti, sem madur vill vel vanda rækt vid. Kammecker Sænski, í sínum bæklíngi, sem kallast Trjágardsmadur, segir ad vatn, sem urtablød vóru í sodin, item sápuvatn, og allur þvottakorgur sé gott ad vokva med. Er allt þetta reynt hér, og hefur vel dugad.

---

*) Den rette Havedyrkning, 5te Bog 6te Kap. Ibidem 2den Bog 16de Kap.

# 9di Kapítuli.
## Atli spyr að túnstærð.

38. **Atli.** Síðan eg fór úr vistinni frá þér, bóndi! í vor hefi eg húsað bæ fyri mig á Konúngsstoðum, að ráði þínu, segðu mér nú hvað þér lítst, hvað mikið tún skal eg taka fyri mig að hegna? hvað kann það fóðra eptir stærðinni?

**Bóndi.** Það er gagnligast hvorjum manni, að láta sér nægja það sem nóg er, og viljir þú svo, þá skal eg segja þér mína meiníng. Það er gamalt búmanna lag hér á landi, að hálfur annar eyrisvøllur gèfi af sér kýrfóður, er hann þá velræktaður, og þó ekki í besta lagi. Nú er eyrisvøllur 30 faðmar á hvorn jaðar af fjórum, þá er þessi gamli kýrfóður vollur 150 faðmar ummáls, það er $37\frac{1}{2}$ faðmar á hvørn veg, en 1350 kvaðrat faðmar. Þegar þú leggur nú þessa kýrfóðurvelli 8 saman, sýnist mér þú hafir nóg tún, það eru 12 eyrisvellir, (og þeim mun meira, sem húsabær þinn tekur skák af túninu) verður þá allt þitt tún ummáls 420 faðmar. Þetta tún slær þú einn upp og hyrdir með konu þinni, á mánuði, þá hefur þú síður að óttast óþerra, fyrst snemma er slegið, þá hefur þú betra hey og kjarnameira, enn þó jafnmikið væri af stærra túni óræktuðu, því það er víst, að því betur sem á er borið, þess meiri kraptur er í grasinu; um þetta litla tún er hægra að girða og halda garði við, eins að teðja, hreinsa, slá, raka og hyrða, og þá færðu heldur nógann áburð á það.

39. Atli. Pad þyki mér ólíkligt ad eg fái nóg hey, fyrir 8 kýr, af ecki stærra túni.

Bóndi. Þó þér sýnist þad ólíkligt, þá er þad ei sídur sannleikur, til merkis þar uppá vil eg segja þér, 26 almenniliga heyhesta ætla eg fyri kú, hvørn heyhest 3 vættir eda 15 lpd. ad vigt; einn eyrisvøllur er 120 fadmar ummáls, í hønum hefur þú 30 skákir ferkantadar, 5 fadma á hvørn jadar, af þvilikri skák hefi eg fengid, þar sem best er í túni, 3 vættir af velþurri tødu; væri allt túnid svo vel ræktad, þá fengi madur meir enn kýrfódur á eyrisvelli, og af þeim gamla kýrfódurvelli 45 heyhesta, þad er litid minna enn 2 kýrfodur. C. G. Boje, í hans »förfarna Landhuushållarin« kap. 1, skrifar ad tunnuland (sem hann reiknar 14,000 kvadrat álnir) velræktad, kunni ad géfa af sér 6, 8 til 10 hløss heys, hvørt hlass reiknad til 9 vætta þúnga, edur 45 lpd. Þetta hans tunnuland í Svíaríki, er nockud minna enn vor eyrisvøllur, og kémur þad vel saman vid þennann minn reikníng. Þad tekur þó lángt þessu framm, sem Essendorp skrifar um Lierfókn í Akurhúss stifti í Norvegi, ad þar géfi 1 tunnuland útplantad med netlu 18 hløss á ári, og hefi eg þad reynt, ad hana má hér planta ei sídur enn í Lierfókn, hún þolir vorn kulda vel, því hún er hér innlend hjá oss, þarf lítinn áburd, en djúpa jørd.

40. Atli. Þó svo kunni ad ræktast kríngum bæi, nær þad hvørgi heim, ad reikna svo allt túnid ígégnum.

Bóndi. Þad er satt, ámedan túnid fær ei adra rækt, enn þá sem nú er almenniligust, sem er ad bera hérum 12 tadkapla á eyrisvøll, af nýrri kúamykju, berja hana á vori, og ausa um, hvar rúmliga helmíngur fer

ofaní rótina, sem von er á því túni, hvar hestar og fé troða og bíta jarðveginn allt árið umkring, nema sem svarar einum fjórðúng þess, ámeðan grasið vex og verður slegið. Sé jörðin eins góð og vel ræktuð í öllu túni, og garður svo góður um, að ekki troðist af peníngi, þá er meiri von, að þar spretti minst, sem mest treðst, og er það næst bænum; en nú er þar best, því það hefur mesta feiti.

41. Atli. Menn segja það gras, sem hærst vex í kríngum bæi, sé varið úr sér, ódrjúgt og daufara enn annað.

Bóndi. Þetta er ekki fjærri meint. Túnið í-kríngum bæina er víðast mjög troðið, grasrótin hörð og föst, þaráofan kémur ofmikill áburður og feiti. Hin fasta jörð lofar ekki rótunum að vaxa og dýgrast neðan, en af þeirri mjóu rót tognar grasið mjög við ofræktina, verður það veikt og staðlítið, leggst útaf, fyrr enn það kastar fræi, og þá kalla menn það leggist í leg, er þá stilkur þess farinn að lýast, visna og meyrna, en fræið er þá af fallið, er slegið er. Þarímóti væri jörðin lausari, þá þroskadist rótin betur, leggur grassins yrði digrari og kjarnameiri, og hlýtur því það gras betra að vera, enn hitt sem er varið yfir sig. Að ofræktar gras hjá bæum sé ódrjúgara enn annarstaðar í túni, er ei heldur orsakalaust; þær vökvamestu urtir vilja mesta feiti hafa, og draga hana til sín, þeirra fræ deyr út, þegar það fellur í meðallagi jörð, og þaðan af magrari, en tímgast í ofræktinni kríngum bæi, svo sem eru: lækjasóley, (Calta palustris,) fífill, (Taraxacum,) súra (Rumex acetosa) heimanjóli (patientia) og fleiri þess háttar, en eingin þessara urta þolir þurk, heldur verða

þær vid hann kraptalausar og ad hysni, gánga þær frá heyinu í þurkinum, en hitt verdur eptir, sem fastara er í sér. Hvorugt þetta er ad óttast utar í túni, þegar þar er þurr, laus og hófliga ræktud jørd.

42. Atli. Þad munu vera einhvørjar nýúngar, sem þú vilt kénna mér, skuli eg fá betra tún enn adrir gódir bændur?

Bóndi. Mun eigi þad vel fallid, ad nýr bóndi taki upp nýúngar, en til þeirra einnra nýúnga mun eg vísa þér, sem eg hefi reynt, og mér hefur ad gódu ordid, en ecki er mér þá uppáfinníng ad þacka, eg hefi lært hana af Essendorps oeconomisku útmálan Leiresóknar, hann segir kap. 11, svo: Þad er gott ad stínga allar mýrar upp med skurdum, svo þær verdi þurrar, þó er þad ei nóg, ámedan landid pælist ecki, þad þornar, en mosin er kyrr, þad hefi eg reynt besta rád ad plægja þad land, nær þad er ádur uppþurkad, mylja þad og láta svo liggja, þad géfur mikinn ávøxt. Mesti skadi er engjum þad, ad peníngur bíti þær á vorin. Heyfræi sá ad vísu nockrir menn, en þad hefir eg reynt, ad nær magurt engi er plægt, tadt og látid svo liggja, án þess ad snúa grasrótinni um aptur, þad hefur géfid yfirgnæfanligann gróda, af gódu grasi, ei verri, enn þó þad engi hefdi útsád verid af besta heyfræi. Fyrsta ár géfur þad gróft, sterkt gras, kjarnagott fyri kýr; annad ár nockud fínara; þridja ár ypparligt alslags hey, og þeirri frjóssemi hefur þad haldid sídan nockur ár samfleytt. Þetta skrifar Essendorp.

Vidlíka skrifar Barón Brauner í sinni bók um akur og engi; hann leggur þad til ad mýrar skuli stíngast svo upp med møgum skurdum, ad ei sé millum þeirra meir

enn 15 eda 20 álnir, og nái høfud-skurdurinn ofan í grunn mýrarinnar, en sídan berist áburdur þar yfir. Þurr tún og engi þar ámóti bætist best med vatnsleidslu yfir þau, ellegar stíflum, þartil gjörist þverskurdir fyri vatnid ad safnast í, þeir teppist þá, og vid þad flói vatnid út yfir engid, hvört madur vill haust eda vor; líka megi grafa smárensli útaf þverskurdunum, svo vatnid heldur dreifi sér, og þó megi ecki neitt vatn standa yfir þurru engi, eptir þad ad frýs á hausti. Án þessarar vatnsleidslu segir hann ad varla verdi þurt engi ræktad med áburdi, sízt med nýrri mykju, en med þessu móti megi þad slá tvisvar á sumri. Af eigin reynslu veit eg, ad þetta sem Brauner kénnir, gyldir og svo í Íslandi; þad hefur mér líka vel luckast, ad stínga upp túnþetti, þar sem þýft hefur verid edur trodníngar, snúa um grasrótinni aptur, svo svordurinn sé uppá, og slétta allt um leid; þá læt eg taka þúngann képp edur trésleggju, og berja af allar mishædir svo ljáþýdt verdi, og þetta sídasta er hægast ad gjöra, þegar jörd er á hausti frosin hér um hálf fingurþykt; þar kémur gott og mikid gras strax á næsta ári, hafi jördin verid feit, annars verdur ad mykja strax á sama hausti, þegar nýbúid er ad jafna.

43. Atli. Þú segir ad hann, madurinn sem þú nefndir, géti um heyfræ, á eg ad sá til grasfins, sem Gud lætur vaxa?

Bóndi. Þykir þér sem Gud láti þad ecki vaxa, er þú sáir til? hann géfur öllu lif sem lifir, og þann nærandi lífskrapt géfur Drottinn í loptid, þad færir hann jördinni, hún færir hann ávöxtunum, en þeir færa hann mönnunum. Hos. 2, 21.

Nú á døgum skrifa það margir, að í útløndum sé það alment orðið, að gjøra sér engi með konst, plægja þau og sá, er það mælt, að slík engi gjøri ei minna gagn enn fornakrar. Fyrst um sinn er þér annað þarfsara, enn að kaupa útlenzst heyfræ.

44. Alti. Er mér ecki betra, að ætla mér túnið stærra, ef landlagið leyfir það, og rækta svo mikið af því sem eg gét?

Bóndi. Einginn mun banna þér, að girða um svo mikið land sem þú vilt, en eg hefi sagt þér, að betra sé lítið tún umgirdt og velræktað, enn hið stóra óræktað; til að hegna hið stóra tún þarftu mikið erfiði, og lángann tíma, máské mørg ár, uggir mig þá, að þér kunni að leiðast erfiðið, er þú bíður svo lengi nytjanna, hvørra þér tjáir ecki að vænta fyrr enn því starfi er aflokið, en hið litla tún sýnir þér lángtum fyrri gagn. Þér er betra, að setja ei meiri pening á hey þín fyrstu ár, enn svo þú fáir sem mestann tíma til garðlagsins, því þá hið fyrsta hefur þú fengið botn undir bú þitt, er þú hefur fengið umgirdt og velræktað tún, og síðan nautpening svo mikinn, sem þar má vel fóðrast á, og dugir líka til að mykja það. Seinna kantu að bæta utan við túnið økrum og engjum, hvar þess er kostur, og þú fær tíma til að girða um þær. Þú munt séð hafa á nockrum bæum merki til gamallra túngarða, sem hafa verið 2 eður 3 hvør utan yfir øðrum, orsøkin þartil er sú: þegar vorir forfeður ruddu sér fyrst nýa bygð, eins og þú gjørir nú, þá hafa þeir fyrst umgirdt sér lítil tún, en þegar það litla tún var velræktað, og kvikfé þeirra og efni uxu, þá bygðu þeir annan túngarð, fyrir utan þann fyrra. Það sama

máttu gjøra á nýlendu þinni, nema þú hafir svo fullar hendur fjár, ad þú gétir leigt nóg fólk, til ad gjøra þetta verk allt í einu, en þad mun nú traudliga fást, þar Kóngur hefur géfid nú í ár inn í landid nýa forordníng, sem býdur øllum bændum ad hlada túngarda, og fegir líka hæd þeirra og gyldleika, med fleiru, sem allt er mjøg þarft fyri landid. Hún er daterud 13 Maii 1776.

45. Atli. Hana þarf eg ad vita, fyrst hún er géfin mér og ødrum bændum til reglu.

Bóndi. Hér fyri framan máttu lesa hana, en gleymdu þá ecki því, sem stendur í hennar formála: Jardarinnar tilbærilig yrkja og notkan er grundvøllur og stofn undir hvørs lands velmegan, en hennar forsómun þarámóti vegur til þess vanmáttar og þurdar. Þad sama sem hér er um landid sagt, á eins heima hjá hvørjum bónda þar inni. Því er þad vissasti vegur til þinnar varanligrar velmegunar, ad þú ræktir vel jørdina, sem ber þig og elur, svo hún vanmegnist ecki undir þér af órækt, og þú vanmegnist ofan á henni af sulti.

---

# 10^di Kapítuli.
## Atli vill fylgja dæmum annara bænda.

---

46. Atli. Þetta eru gømul ríkismanna ráð, þeir vilja, ad almúginn þrælki og vinni baki brotnu, og bæti jardir fyrir eckért, hvad géfa þeir í stadinn?

Bóndi. Satt er það, að sá verður að ráða, sem ríkið hefur meira, og eru þau yfirvöld best, sem eru vitur og góðgjörn, en þarmeð stjórnsöm, svo vill hvör faðir að börn sín erfiði, svo þau hafi nóg brauð. Væri á þig skilið að vinna fyri landsdrottinn, í hans eins þarfir, og yfirgéfa ámeðan þitt eigið gagn, þá myndir þú kurra, og verða þó nauðugur að hlýða hönum. Nú skilur Kóngurinn á þig svo føðurliga, að þú rækir þitt eigið gagn, og géfur hann þér allann ágóða þíns erfiðis, og eydijørðina með, sem þú vinnir á, þegar hún var Kóngseign, það er með öðrum orðum að segja: hvert fótmál jarðar, sem Kóngur á, vill hann verði þegnum sínum að gagni; þegar eydijørðin var bóndaeign, géfur hann þér samt og þínum børnum øll not þíns erfiðis, svo lengi sem þau eða þú endast til að búa á þeirri jørð, sem þú hefur ræktað. Við þessa rækt batnar hvør jørð, en þó hækka ekki landskuldir, og því er ábúandans allt gagnið af hans sveita. Dugi hann sér vel að, þá vill Kóngur géfa hönum kaup fyri það sem hann ræktar betur, enn það litla skylduverk, sem hønum er uppálagt, og hefur bóndi eins notin sjálfur af verki sínu þar fyrir. Þakka skyldir þú Guði, að þú býr við svo góða kosti, og svo mikið frelsi; ólíkt er það kjørum þeirra, sem fastir eru á fótum við jarðir, maður eptir mann, og verða að erfiða fyrir húsbóndann allt hvað hann vill og þarf, hafa hvørki þarfyrir fæði né laun, en þola þó straff, ef brestur á verk eða misvinst.

47. Atli. Það læt eg mér skiljast, að Kóngurinn vilji oss øllum sem best, og gott eitt kémur frá hønum; en eg verð að sjá um minn hag sem best. Eg veit annann sem vill fá hálfa Konúngstaði ámóti mér, hann

er gódur vinnumadur, og mun hafa ad sér sem mest, því vil eg verda fyrri til og varna hønum ad komast þar inn, eg vil hafa sem mest undir til slægna, svo eg megi velja úr því, þó eg géti hvørki girdt um þad né ræktad, þá gét eg heldur varid ødrum ad ná þartil med því móti.

Bóndi. Eg hefi sagt þér, ad eckért gagn væri þér ad hafa meira tún, enn þú gætir ræktad, því eg merki, ad fyri gagni þínu gengst þú mest, þó er hér annad í efni, sem enn er meira verdt.

1) Gud hefur gjørt allann heiminn, til eignar og ábúdar øllum ættkvíslum manna Act. 17, 26. Psal. 115, 16, hafa þær ættkvíslir tekid vid þessari fasteign ad réttum erfdum eptir forfødur sinn Adam, en hann þág í øndverdu af sjálfum Gudi. Sídan hafa þessar eignir skiptst í sundur jafnan smærra og smærra, eptir því sem sá ætt-springur ærladist, og hefur Guds forsjón svo fyri séd, ad heimurinn vinst øllum ad fullu, og verøldin hefur nóg framfæri fyri alla þá, sem þar inni búa, ef ad enginn spilti fyrir ødrum, og hvør léti sér nægja þad sem nóg er, þá væri og allir menn sælir; en þó madur girnist meira, er hann eingu sællri enn ádur og hønum er þad ecki frjálst, því Gud hefur eingum manni géfid meira enn hann gétur nýtt sér, og ecki fyrr enn hann fær þad notkad, allrasízt má hann banna þad ødrum, já þótt hann kjæmi ad eydilandi, edur hitti á fé, sem enginn finst eigandi ad, þá samt eignast hann aldrei meir af því, enn hann gétur fært sér í nyt; hitt sem þar umframm

er, eignast sá sem notid gétur. Ad varna þess ødrum er ónáttúrligt, ósæmiligt, og ómannligt. Hundum er þad náttúrligt, og þad er þeirra sidur, ad verja ødrum hundum mat, þegar þeir eru sjálfir svo fullir, ad þeir géta ecki meiru torgad. Hefdu allir menn þann þánka, ad þeir þyrftu ecki ad rækta þad land, sem þeir búa á, heldur vildu hafa mikid ad velja úr, af því sem náttúran géfur sjálfkrafa, þá yrdi ad drepast nidur meir enn helfmíngur þeirra, sem løndin byggja, því þeim væri þá frammfæris vant, og þeir einir myndu eptirlifa, sem illgjarnastir eru, og ødrum vest vilja; eckért er þó fjarlægara Guds vilja enn þetta: hann býdur sparsemi og bindindi, hann býdur erfidi og ánægju, hann býdur mannelsku og gódgirni: já, hann býdur oss ad géfa þeim mønnum, sem þurfa, nockud af því, sem oss hefur réttiliga fénast med vorum svéita.

2) Kóngur er landsfadir, og þarmed allra þeirra, sem í því búa, þad er gagn og gledi hans, ad eiga sem flesta undirsáta, og vill hann þá alla sæla. Hann ann ockur eins og børnum sínum, án manngreinar, því fellir hann réttvísa reidi á þá, sem ødrum misunna góds, allra helzt þess, sem þeir géta ei sjálfir notid. Landsløgin skipa þér lika ad vinna upp allar engjar. N. B. Eiriks Kóngs: svo skal leigulidi hjón hafa, ad hann fái unnid upp engjar allar, eda bæti landsdrottni skada þann allann, sem menn meta, ad land spillist af því, utan þeir skilji ødruvísi.

Sjádu nú, Atli minn! hvad ómanuligur þánki þad er, sem þú komst upp med, hann stridir ímóti Guds vilja, Kóngsins vilja, og hans bodi nú í forordníngunni, hann spillir fodurlandsins farsæld, þó er hann þeim verstur, sem vid hann heldur. Þú átt ad reikna þér þad mestann sóma í þínu bónda standi, og halda þig þá ríkann, er þú hefur ræktad svo vel lítid land, ad þú lifir sæll af því, en hitt skyldi þér inndæli vera, ad vita granna þinn lifa sælann hjá þér, á þeim hluta jardarinnar, sem þú gétur án verid, og ecki ræktad, megi þid í mørgu styrkja hvør annann, svo bádum vegni þá betur, og nái tún yckar saman, gjøri þid einn túngard, þid þurfid færri hjú, og allir útvegir falla yckur hægra.

48. Atli. Eg veit þó margann gódann bónda, og gamlann, sem fylgt hefur þessari minni meiníng alla æfi sína, verid þó ólastadur, og haft jafnan nóg.

Bóndi. Þad er illa farid ad þú veizt þad fyrst þad hneixlar þig, þó er þad enn verra ad slíkir séu margir: þegar þad er sem best útlagt fyri þeim, þá verdur þeirra einka afsøkun þessi: einhvør óvitur madur og mannhatari hefur sagt þeim þad úngum, og máské sá hafi verid fadir þeirra, sídan hafa þeir aldrei brúkad svo mikla athugasemi, ad þeir kynnu ad vitkast og sjá hvørt þetta væri satt edur eigi; þó hafa þeir afhendt børnum sínum og hjúum þessa sína erfd og aflafé, heimsku og misunnan; og med þeim máldaga ertu ordinn eigandi þessarar meiníngar, því er þér sárt ad missa hana.

49. Atli. Þú mátt lasta þessa meiningu sem þú villt: flest eru þó fornmæli sönn, og þaráinedal þetta: betra er ad jørdin beri mann yfirmegna, enn madur jørdina.

Bóndi. Ef þú affakar med fornmæla nafninu alla málshætti og ordatiltæki fávísra manna, sem þeir hafa heyrt af foreldrum sínum og ødrum, sem þeim vóru ecki hyggnari, þá verdur hin eptirkomandi øld arfgeng til allrar heimsku sem upp kann ad finnast, en þessi þín meining hefur eingann heidur af fyrnsku sinni, því hún er ei gomul, heldur jafnaldra ómensku, athuga- og atorkuleysi hinna seinni manna, og var hún ecki gétin í nockurs manns høfdi, þegar forfedur vorir máttu best í þessu landi, og þad var þó fjølbygdast. Allur fjøldi eydikota, hvørra rústir sýna sig næstum því í hvørs manns landseign, sanna þad, ad fornmenn vóru annars sinnis. Þau mørgu eydikot kríngum flesta stórbæi sýna þad, ad høfdingjar vildu eckért láta ónýtast af landeign sinni, heldur ad sem flestir fátækir gæti bjargast á þeirra lód; var þó høfdingjum lángtum meiri affokun, þó þeir legdu mikid land undir bú sitt, enn ødrum minnihàttar mønnum, sem ecki høfdu svo marga ad annast. Hvad adrar þjódir hafa meint um þetta í fornøld má ráda af því sem Columella skrifar Libr. 1, Cap. 3, ad Karthaginískir, skynsamasta þjód í Afriká, hafi svo sagt, ad akurmadur skyldi bera yfirmegna akurinn, enn ecki akur akurmanninn, því géti hann ecki dugad akrinum, þá sé þad hans skadi, og lítill akur velræktadur gjøri meira gagn, enn annar stærri illa ræktadur. Gellius segir libr. 7, Cap. 3, ad Rómverjar hafi sett þau løg, ad kólónistar, (nýlendubúar) mættu ecki eiga meir enn

5 Jugera, og nærri því 500 árum fyri Kristi fæding, þegar Róm hafdi ei stadid meir enn 267 ár, løgleiddi þad Spurius Cassius med Rómverjum, ad allir akrar skyldu skiptast, og einginn mætti meiri akurland hafa en 7 Jugera, hvad gøfugur og mikilsháttar madur sem hann væri. Nú var Jugerum 240 fóta lángt, 120 fóta breidt, þad er 28800 kvadratfætur, en ummáls 720 fætur, 360 álna, 120 fadma, eins og vor eyrisvøllur.

50. Atli. Fornmenn hér á landi høfdu vída afgirdt engi útum haga, og stundum á ødrum jørdum; þar fyri bygdu þeir hjáleigukot heima hjá sér.

Bóndi. Þad var satt, gjørdu þad líka, þegar þú hefur fyrst fengid velræktad heimatún, missir þú ecki mikid af beitarlandinu fyri þad, því undir þínum engisvegg fær þú bædi skjól og meira gras enn ádur fyri peninginn; þó munu þér adrar fornmanna reglur hagkvæmari enn þessi. Amedan þú ert einvirki er þér nær ad rækta vel heima hjá þér, þú veizt af súa mýriani í Konúngstada landi, sem eingri sképnu er fær, hún er tvøfaldt stærri enn bæartún þitt, hún er þar rétt nærri, og er ad henni ecképt gagn vegna þess ad smámsaman hefur safnast aur, mosi og slý í lækinn, sem úr henni rann, þángad til ad hans farvegur er ordinn jafn hár holtinu íkríngum mýrina, sem ádur mun verid hafa góð slæa, nú þarf ad rísa upp þennann farveg, þángad til hann er ordinn svo djúpur, sem botninn í mýrinni: sé hún sídan stúngin vel upp og ræktud má hún verda besta tún, og þvílíkt mýrarpetti kann granni þinn ad rækta líka fyri sig, og missir hvørugur yckar fyri þad, því þess háttar súa mýrar eru vída, og flestar ordnar gagnlausar med sama móti, sem eg sagdi um þessa mýri.

# 11ti Kapituli.

## Atli spyr um engjahey, og heydrýgindi.

51. Atli. Þú nefnir aldrei nema tún, hvar ætlar þú mér útheysslægjur, sem mørgum eru drjúgari enn tadan?

Bóndi. Á fyrstu árum kann þér vera þeirra þorf, sídan ætla eg til þú heyir einasaman tødu, af túni þínu edur umgirdtum og ræktudum engjum þar utanvid. Allri þeirri fyrirhøfn, sem þú eydir til ad útvega þér dauft og kjarnalítid mýrahey, brok, fyrnúng og þessslags, máttu verja til þess ad bæta heimabæar tún þitt, og líka til ad stækka þad, ef jardvegur er til þess, samt til ad girda um steckjar tún, og muntu hafa þar af lángtum meira og varanligra gagn, enn þótt þú sækir med miklum kostnadi hestanna, tímans og vinnunnar, létt hey uppá fjoll, eda til fjarlægra engja. Þad hey verdur vída ad flytjast vott heim ad bæum, og er þad þá nóg á 2 hesta, sem ecki er nema 1 hestur í heygardsinn, og sá eini ad gædum ecki betri enn todusáta. Hér á bæ vóru fjallslægjur brúkadar þángad til eg kom og enn nockud lengur. Vegurinn var lángur, þar vóru ad verki 3 karlmenn og 2 konur, fengu á heillri viku 30 til 40 hesta af votabandi; þad var ei meir enn 20 hestar þurrir, ecki svo gódir sem 10 toduhestar: eg hætti vid þann útveg, tók eitt lítid aukatún, sem lá mjøg

undir peníngs og ferdamanna fótum, og girdti um þad ad hausti, var þad vidlíka kostnadur eda litlu meiri, enn eg þurfti ad hafa fyrir eins árs fjallslægjum. Sumarid ádur enn eg umgirdti aukatúnid, fékk eg á því 3 sátur, næsta ár eptir fékk eg af því áburdarlausu 7 hesta, á þridja ári fékk þad lítinn áburd, og gaf af sér 14 hesta, á 4da ári 21 töduhest, en vegna áburdarleysis og vanræktar hefur þad ekki batnad sídan, og mætti þó enn ræktast til helmíngmeiri afrakstrs.

52. Atli. Sumstadar etur nautpeningur ekkért hey til gagns, hvørki tödu né engja hey, veiztu rád vid því?

Bóndi. Satt er þad sem þú segir, og hér í sókn eru dæmi til þess, samt vídar annarstadar; gættú ad hvar sem sá galli er á jørd, þá er þar mýrlendt og láglendt, og flóir ódýravatnid þar yfir á vetrum. Þetta vatn hefur djúpa upprás, og í leysíngum blandast vid þad ýmsar námu saftir eda míneralískir vökvar, af brennisteini, viktríli 2c. þegar nú þetta vatn stendur þar yfir grasrótinni á vetrum, þá inndrekkur hún þessar saftir, svo ad nautpeníngnum verdur þad viddjódsligt, sem upp af henni vex: til merkis þarum er og svo þad, ad heyid af þess háttar jörd étst þá best er þad ornar, bliknar og hefur mjög hitnad í því, en þá vill fénadur þad ekki er þad þornar grænt og hitnar ei: ad dreifa nockrum saltlegi í laupana, dægri ádur enn úr þeim er géfid, er reynt betra enn ekki, en hvørki er hann alstadar til, og ei er heldur þad rád einhlýtt. Nú muntu skilja, ad þessum heygalla veldur órækt, því nær menn hafa forsómad ad stínga skurdi ígégnum slík engi og látid þá gømlu síga saman, þá vex þar af súrri og stiptiskri jörd

þetta óholla og ósmeckliga gras, en ef þú heldur skurdum vid, og eykur þá eptir þörfum, svo ad landid sé alltíd þurt, þá muntu fyrir áburd og regnvatn fá þar gott og holt hey fyri þínar kýr, og muntu ei þurfa ad kvarta yfir slæulandi þínu, enn sídur ad þú þurfir þess-vegna ad rýma jordina sem þú ábýr, eins og nú er nærri eydilagt hér í nærstu sýslu eitt besta höfudból fyri þessa 'orsök, af því sígnir eru saman vatnsveitinga skurdir fornmanna, sem nú sjást ad eins merki til. En fyrrum, ámedan ad þeim var vidhaldid, képptust höfd-íngjar eptir þeim gardi mjög, ad hafa þar bú sitt, einkum 1241 og 1554, en nú vill þar einginn óvesæll búa, því kýrnar éta þar ecki hey, af ádur greindri orsök. Hér í grend vid mig er eitt dý í eingi bónda, sem bólnar upp á vetrum, en kríngum þad sprettur mikid gras á sumrum, hefur bóndinn sagt mér, ad einginn peníngur smacki þad gras, og segist hann fordast þad, sem eitur í heyfengi sínum.

53. Atli. Fyrst eg tek eydijörd, verdur lítill hey-afli minn á fyrsta ári, gét eg drýgt hey mitt med nockru, sem eg gét komist yfir ad fá?

Bóndi. Hvad ödrum bændum hefur ad lidi ordid, má þér líka gagn gjöra.

a) Rífdu grænann engjamosa, svo mikinn sem þú fær yfir komist, þurkadu hann, og berdu saman í lön, sem hey, á hönum géta bædi géldneyti og saudfé lifad, líka hestar í hardindum, þó ei svo vel sem jórturpeníngur.

b) Skérdu grasrótasvörd á sumri, trampadu úr hönum moldina í rennandi vatni, lát hann sídan þorna, og géfdu hann nautum á vetri, á hönum

hafa kýr lifad, og haldid nockurri nyt, í Bjarneyum á Breidafirdi, þegar þar var heyskortur. Circa 1700.

c) Þegar þurkar eru mestir á sumrum, gétur þú komist ad tjørnum, hvar sef ver og slegid þad, er þad mjólkurkúa fódur: í þeim tjørnum, sem ei verdur ad komist á sumrum, medan þýd er jørd, slá menn líka sef nidur vid ísinu, þegar fyrst leggur á hausti.

d) Hrís og helzt vídir er gott géldneyta fódur, þad er og kúa fódur, en ei gott til mjólkur, því þad er barkandi, og dregur saman mjólkuræðar: og eingar urtir, sem eru barkandi edur adstringentes halda menn gódar til mjólkur.

e) Alslags líng má og svo géldneytum gésa, og er þad hér í plátsi reynt, ad þau lifa á því, þó þau fái ei annad enn lítinn rudda med, en á einum saman vídir géta þau lifad.

f) Á vetrum má gésa nautum nýjann hálm og líka smáþara, jafnódum og hann rekur, því hvørugur þeirra má úldna og verda ei þurkadir; ætisøl hrá éta kýr gjarnan, og vada úti sjó eptir þeim, mjólka og vel þaraf.

g) Hér á Vestfjørdum er þad almennings vani, ad gésa kúm og øllum nautpeníngi barin bein, helzt steinbítshofud, hryggi, ugga, og allt fiskifáng, sem menn vilja ecki éta.

54. Atli. Peníngur mun ecki éta þetta, nema hann sé því vanur?

Bóndi. Strax á hausti, þegar peníngur kémur á fódur, máttu taka feit géldneyti og svelta þau fyrst til

ad éta hvad helzt þú hefur af ollu þessu, fyrst með litlu heyi samanvid, sídan verda þau ljúf til þess, þó eckért hey væri med. Digra hríss- og vídirleggi verdur þú ad kljúfa, edur merja þá ímilli steina, því sjaldan brúkast fyri pening digrari leggir, enn svari fíngri manns: eg veit dæmi hér, ad einn bóndi heylítill ól á bláberja- og krækiberjalíngi 4 úngneyti í 8 vikur, svo ad þau høfdu ei annad og lifdu vel. Annad dæmi veit eg, ad bóndi nockur héldt þar ollu sinu fé, 120 sauda, sem flest var ásaudur fenginn, á einumsaman grámosa, allar sídustu 8 vikur vetrar, þegar jardlaust var, og flestir adrir mistu mjøg fé sitt.

55. Atli. Þeir hafa minna fyri géldneytum, sem láta þau gánga úti allann vetur, og géfa þeim nærstum því eckért hey?

Bóndi. Ei verdur því neitad, ad fornmenn létu naut gánga úti á vetrum, og því misti Snorri Sturluson *) 100 nauta í Svignaskardi, á þeim mikla fellivetri, sem kom 1226 og 1227, er kalladur var sandvetur. Sá útvegur var þénanligur stórbúum ríkra manna, sem gátu valid sér þartil hentugar jardir, hvar gras var mikid, skjól og skógar, en hofdu nóga menn til þess ad fylgja nautum vel til beitar, og standa yfir þeim, en eckért af þessu á heima hjá þér, og víst kostar þú ei meiru ómaki til þess ad útvega géldnautum þad, sem þau lifa á inni, enn ad vakta þau á gaddi og þela í sjúkum, þeim er hættara ad missast úti, sé þeim ecki fylgt, þau verda møgur, og sýkjast vid vorgródur.

*) Sturl: S. 4, 45.

Þegar þeim er slátrad ad hausti, rírna meir misðiris holdin í salti og sudu, og hafa minni næríng enn hin, sem nautid hefur lengur á sér haldid, en þetta bætist, sé þeim géfid inni veturinn ádur enn þeim er slátrad. Hér ad auk er þad mest verdt fyri þig, ad þú misðir alla mykjuna, sem er ónýt og lítil undan útigángs nautinu, því þad er kjarnalaust, sem þau fá af jørdinni, en þú ert ecki frammsýnn bóndi, ámedan þú reiknar ecki mykjuna fyrir ábata eyrir. Þegar þú ert búinn ad rækta vel Konúngstadi, og þú ert ordinn þar efnadur bóndi, svo þú hefur nóg dygdugt fólk, og mørg géld-neyti, þá má þeirra útigángur verda þér ad féfángi.

56. **Atli.** Heldur þú eckért úteingja gras gott til mjólkur?

**Bóndi.** Stóra størin hvíta, þegar hún ver á fjøllum uppi, framm til dala, edur á flædiengjum, géfur mikla mjólk, þegar hún þornar græn, af henni einni heyrdi eg, ad kýr mjólkudu átta potta í mál, nordur í Strandasýslu. Bomare hrósar mjøg Alchemilla, bædi ljónslappa og marjustacki, ad þeðsar nærskyldu urtir hafi mikinn krapt ad auka mjólk í kúm; samt eru þær bádar barkandi. Madran, bædi sú hvíta og gula, eru gott mjólkurgras, en þeðsar urtir hafa lángtum meiri saft og kjarna, þegar þær vaxa í ræktadri jørd, nema fjalla-størin, því henni er þad betra enn nockur rækt, ad liggja sem lengst undir snjó á vetrum.

57. **Atli.** Menn halda betra hey af þýfdu túni enn sléttu.

**Bóndi.** Þad er líkligt, ef allt tún er ílla ræktad, ad þúfna heyid sé kjarnamest, því þær halda lengur vøkvanum í sér enn annad land, og þúfna kollarnir skýla

rótinni ámillum þeirra, en þó er ecki þarfyrir tilvinnandi ad hafa þýft tún; því þegar þú ver því ómaki til ad slétta tún þitt, sem þú tekur þig lengur vid þad, enn þid slétta í slættinum, þá fær þú árliga gott stycki jafnad. Adferdina hef eg sagt þér, þó lærir þú hana allra besta í forordningunni um túngarda, sem eg hefi vísad þér til hér fyri framan. Haldir þú því verki framm ár eptir ár, færdu um sídir besta tún og eggslétt.

58. Atli. Ecki hefur þú sagt mér, hvørnin eg skuli haga beitinni fyri bú mitt.

Bóndi. Ecki til þessa, en nú skal eg segja þér þad: kýrin hefur ecki góda beit, nema hún hafi svo mikid gras, ad hún géti sveipad því um túnguna, þegar hún vill bíta þad, því ad naga snøgt land dugir hún ecki, sízt þar sem hún hefur ecki vanist því úng, hún vill láglendi, en ecki breckur né bala. Þad er sannreynt, sem Brauner skrifar, ad þá mjólka kýr best, ef hvør partur lands er þeim ætladur til beitar um sinn, þángad til hann er útbitinn, og sídan færdar í annann stad, sem eins er medhøndlad, því ef ad þær gánga jafnt yfir allt landid, edur þeim er beitt sitt mál í hvørn stad, þá leidist þeim beitin, og er þó hitt verra, ad þær velja úr fyrst þad besta grasid, og hafa sídan einúngis þad léttara: gétur þá ecki þad besta grasid sád sér sjálft, og vid þad spillist beitin. Hérámóti leggur Brauner þad rád ad skipta beitarteigum í jafna parta, og sé því betra, sem þeir séu smærri, svo ad allrabest sé, ad hvør partur sé viku beit, þarvid er sá ábati, ad madur hefur alla teiga óbitna, ámedan einn þeirra er beittur, og hvør þeirra fer strax ad spretta, þegar ad kýr eru teknar burt úr hønum, og færdar í annann. Med því móti fær

madur líka góð engi þar innanum, er geymast mega óbitin það ár, sem madur ætlar þau til slægna. Þegar madur hefur beitt alla partana, er sá fyrsti svo vel sprottinn, að þá má beita hann að nýu, og svo hina í sömu röð sem áður, á þetta helzt heima þar sem beit er nærri bæum, og á allar sídur vid þá. Hérhjá er það aðgætandi, að hvört beitarpetti sé því minna, sem naut eru færri, því það er lángtum betra, að 12 naut bíti teig þinn í viku, enn 6 naut í hálfann mánuð, því þessi 6 gjöra meiri og lengri troðning um grasrótina og grasið missir lengri tíma til vartar. Af þessum máta hefur þú það gagn, að grasið eykst en mosinn mínkar árliga, verdur þú þá að kasta tadi kúanna á haustin í sundur og dreifa því um landið.

---

# 12ti Kapituli.

## Atli spyr að áburdi.

59. Atli. Þú hefur víða nefndt áburd, en ecki talið upp fyri mér þá hluti sem þartil heyra, eda sagt mér hvörnin þeim safna megi.

Bóndi. Það sagdi eg þér á hausti, hvörnin þú kynnir að fá nockurn maturta vöxt, án áburdar, en nú vil eg vísa þér til ákuryrkjubókar Mr. Þórdar Þóroddssonar, hann segir þar í 6ta kap. greiniliga frá áburdarmáta utanlands, kantu þá bók að fá til láns

edur eignar, því Kóngur gaf 1000 stykki af henni til Íslands, og í Lachanologia sinni hefur Eggért Vicelögmadur skrifad um þad flest, sem hér í landi er til áburdar hentugt. Eg vil einasta telja þad upp fyri þér til minnis, sem þénanligt er til túns áburdar og ræktar.

1) Nautamykja 2ja ára edur eldri, er best á sendid tún, einkum sé þad þurt og hálendt, og þá er mest gagn ad fjósrækt, ef þad stendur á þurrum háum hól. Svo er þad og hentugt, ad fjós standi nærri túngardi, svo ad naut þurfi ekki ad troda mikid af túni, þegar þau rekast út og inn. Látir þú liggja inni kýr á nætur, allt sumarid, þá færdu þann besta áburd, því öll mykja er því betri sem peningur hefur betra fódur, en þegar græn eru grös á sumri, þá hefur peníngur fódrid best, kýr mjólka og eingu sídur þaraf, því þær leggja sig betur til grasssins á daginn er þær liggja inni um nætur, þær liggja í haganum mesta part næturinnar, og hafa opt úti hregg og óvedur, en í fjósinu hafa þær skjól og koma heitar og þurrar út á morgna. Mykjuhaugur liggi í gröf framm undan fjósdyrum, og kúahland sígi þángad frá fjósi, þad géfur mykjunni mestann krapt, sem P. Juul Amtmadur segir í hans góda bónda kap. 2. Safnadu þángad jafnódum og mykjan berst út, nockru töluverdu af mýrableytu og þó heldur þángi, ef þú átt þess kost, svo sem svari einum þridja parti ámóti mykjunni.

2) Saudatad er þar best, sem jørdin er rakari, og láglendt er, þeir gjøra sér skada sem ei láta saudfé sitt liggja inni allann vetur, ef beitarlandi hagar svo ad því verdi vidkomid, þó er ei betri medferd vída á Vestfjørdum hvar fé gengur í fjøru, og sandur er borinn á fjárhús meir enn álnar þykkur á haustum, mokad svo út á vetrum øllu tadi ofanaf med sandinum, svo þad verdur aldrei ad gagni. Líka er saudatadi vída brennt, þar sem þad mætti betra gagn gjøra jørdinni, einkum raklendu sádlandi. Þad væri þér rád, ad gjøra saudakví þína vel háa, legdu þar í flór af hellum, svo þú fáir þar hreint tad, safnadu því saman, þad er besti áburdur; þó drýgir þér þad meira tadid, gétir þú komist til þess, ad bera þarí mýratorf og bleytu, svo féd trodi þad allt í sundur, bættu svo vid þad jafnódum, eptir rádum P. Juuls loco cit. Saudakví standi hátt, svo þadan halli ad túni. Boje skrifar ad færikvíar fyrir ásaud ad liggja í á sumrum um nætur skuli vera svo stórar, ad hvør ær med lambi hafi 2 kvadrat álnir, verdi þad land nóg mykjad á 3 nóttum, en hér hefi eg reynt á møgru túni, ad þar sem færikvíin stód var nægiliga mykjad á viku, og stód þar ekki fé inni nema um mjaltir, en vidlíka var þraungt í henni, sem Boje segir.

3) Hrossatad er best á votlendi, en þó sinuklárar liggi inni um nætur gjafarlaust, er þeirra tad gagnlítid, þó skárst á mosamýrar, svo er og nautamykja á haustum, þegar gras er følnad,

ádur enn farid er ad géfa hey: þann mikla hita sem útlenzkar búnadarbækur eigna hrossatadi, hefi eg ecki fundid, mun og varla hér í landi ad vænta, nema jafnmikid hey komi saman vid tadid, sem þar ytra kémur af hálmi, hvarfyrir hrossatad kallast þar og óbrent strá. Med heymodi blandad hrossatad hefur hér gefid hæganu il, hefdi máské ordid meiri af gódu heyi, og lika kynni þá ské, ad kír æti hrossatadshauga eins og í Svíariki.

4) Ordid vallgángur sýnir þér hvartil fornmenn hafi nýtt þau saurindi, og ecki ólíka sidi skrifar Varro de re rustica, libr. 1, cap. 13. Héradauki telur Eggért Vicelogmadur þessi áburda kyn: hladbleytu, forarbleytu, fúamýrar- og mótorfsbleytu, mó, mergil, sjóarleir svartann og bláann, þáng og þara, ösku og fúna dýralíkami. Ef þú brúkar grasjvörd til eldividar, er gott ad skéra hann á hausti, og flytja heim á túnhóla, þar bædi skýlir hann rótinni, og lika rignir úr hönum sú besta moldin, sem er ei verri enn midlúngs áburdur. Þessi áburda kyn telur J. L. Kammecker í bók sinni, sem hann kallar trjágardsmann kap. 3. allt hvad vid bæi safnast af saurindum fénadar, fúid tré, láuf, börkur, skémt hey, urtir rc., skyldi bóndi láta bera allt saman í tilgjörda gröf, og má þar blanda jörd vid, item arfa og öllu ógrasi, ræskni, slöpum, skóbótum, verdur þad allt gódur áburdur, þegar þad náir ad gérast. Sót er gott köldu landi, helzt af steinkola reyk, útsodid malt, og öll sölt

fiorugros eru góð, bædi á akra og engi. Bleyta úr trodníngum og vatnabotnum er gódur áburdur allri jord, henni er hægast ad safna á sumrum, þegar tjarnir og vegir þorna upp, allt blód er gott til alls vaxtar. Gamalt hland er gott á vott engi, og saman vid allann áburd, eins víndregg, øldregg, sápuvatn, þvottakorgur. Þetta skrifar Kammecker. — Stadtholder Henrik Rantzau skrifar hid sama um víndregg og hland, ef þad er karlmanns og nockurra mánada gamalt. Sjá hans diarium oeconomicum &c. pag. 14, og segir hann þad líka gott, ad hella því ad aldinsrésrótum. Kammecker segir ad saltpétur væri einhlýtur til frjófgunar jordinni, ef ad nóg væri af honum, og þenna saltpétur dragi til sín alls jértur ppremings saurindi, líka alifugla, og allra hrædýra, hafa þessi saurindi því meiri saltpétur í sér, sem þau hafa lengur legid og brotist. Þad hefir eg reynt, ad veggja mold er gódur áburdur á mosaþembur, og í eingri jord hafa maturtir fengid betri voxt hjá mér enn henni einnri, og líka þeirri, sem safnast í heygørdum af fúnu votu heyi. Hvilík jord, borin hér yfir sandflog í túni, hefur komid í gras á ødru ári, og géfid sídan gott og mikid gras í 6 edur 8 ár, án alls áburdar, er þess og von um slíka mold, því hún er ecki annad enn fúid og uppleyst gras og rætur úr jardhnausnum, og þó ad jordin hafi verid ádur í hnausnum súr, stiptísk og ecki hin besta, þá er mikid af þeim bresti lagfært, eptir svo lángann tíma, sem veggurinn hefur stadid,

af sólar, loptsins og regnsins verkan, sem svo jafnadarliga hefur gengid þar ígégnum. Líka hefi eg reynt þad, sem margir skrifa um ofkunnar gædi til áburdar á mosavarid tún, og fundid þad satt, ad hún eydir mosanum, en sé saltid úr henni rignt, og ekkért annad saman vid hana, þá er hún sjálf daud (caput mortuum); ný aska med saltinu er gód ad dreifa henni yfir jørd og sádreiti, sem þarvid fá nýtt líf, vidlíka og af litlu sævatni edur saltpækli yfirdreifdu, og því mun hún svo mikla frjófgun verka í skógar svidum Nordmanna, eptir hvørra líking eg réd þér ad brenna mosa á næpna flaginu. Þad hefir eg opt reynt, ad øll sú jørd, helzt í mýrum, sem dýpra er tekin enn hálfrar álnar nidur, er daud og ófrjóssom, eg hefi látid bera í hauga til ad fúna þesslags jørd, og hefur tún sem hún sídan var áborin, verid verra eptir, þarf sú jørd meir enn ár umkríng, til ad lifna og draga til sín frjóssemi af loptinu, en hér skiptir miklu hvørt jardarkyn er.

60. Atli. Menn segja ad mosaþúfur uppstúngnar, hnaus, torf og þesslags, fúni á einu ári, en verdi gódur áburdur á ødru. Þetta væri mér hægast ad fá til áburdar nú fyrst um sinn.

Bóndi. Þad mun satt vera utanlands, fyrst þad skrifa margir menn. Sjá oeconom. magazín, tom. 3, pag. 133, Brauner, Boje og fleiri, en hér í landi og lopti hefur mér reynst ødruvísi, þad veitstú ad jardarhnaus-veggir vara hér í landi 40 til 60 ára, og jafnvel lengur, fyrr enn þeir eru fúnir. Gott torfþak

varir opt 20 ár á húsum. Orsökin er, ad hér er lopt kaldara enn utanlands, og myndi þarvid hitann ecki lengi endast torfveggir, torfþak eda reidíngs torfur. Ockur þykir undarligt þad sem skrifad er og skýrskotad til sjónarvitna, ad 10 ára gamallt mannslík hafi fundist í Novazembla blásid upp úr sandi, hvar þad hafdi jardad verid, svo heilt og óskúid, sem ný grafid væri; en ské má, ad útlendum mönnum þyki þad litlu sídur undarligt, ad árid 1754, þegar einusinni var grafid lík nálægt kyrkjudyrum í Saurbæ á Raudasandi, þar sem ádur hafdi grafinn verid síra Björn Bjarnason, er hér var Þíngaprestur ímilli 1620 og 1624 og deydi fyri víst ei seinna enn 1626, og þóktust menn vissir, ad ecki hefdi verid hreift vid leidi hans fyrr enn þá, enn sídur nockur Prestur þar nærri grafinn; þá kom upp úr gröfinni Prestshempa af vadmáli, svo ófúin ofan til mittis, ad 2 hraustir menn gátu ecki rifid skard í fellíngarnar á herdunum, er þar votur kyrkjugardur mjög, og jörd martialisk. Lifa enn nockrir af þeim líkmönnum, sem þessa hempu sáu upp úr gröfinni koma, og annar þeirra, sem eg lét reyna hana. Þad er ad sönnu víst, ad þad sem voknar og þornar til skiptis, fúnar fyrst, en svo gjörir vort torfþak og heytorf. Nú ræd eg þér, viljir þú brúka mýratorf til áburdar, þá láttu peníng þinn troda þad fyrst sundur, ber þú svo allt saman tadid og torfid í haug, sem liggi í lág nockri hvar skýlir ad, annars muntu meiga bída þess ad torfid fúni til moldar full þrjú ár eda lengur.

61. Atli. Þeir vinna 2 verk í einu, sem gjöra klíníng bædi til jardræktar og eldsneytis.

Bóndi. Þú segir satt, þeir vinna 2 verk, og bædi óþorf. Hvar tún er þurt og slétt, mogur og lítil grasrót, svo jardvegur þarf árliga ad nockud leggist til hans, svo sem vídast er á Vestfjordum, hvar klíningur þó mest brúkast, þá er þessi búskapar sidur beinsti vegur til þess ad oll tún gángi af sér árliga og eydist um sidir, svo sá skadi verdi óbætanligur, sem og merkin sýna sig hér vída. Eldsneytid sem klíningur géfur er mjog hitalítid, og ecki ómakslns verdt, ámóti mótorfi eda sverdi. Þeir einir, sem hafa feita jord í túni, og þúfur stórar, þeir finna þad, sem satt er, ad klíningur ofan á hvorri þúfu gjorir gódann grasvoxt á sama ári, sem hann er brúkadur, en jardvegur batnar ecki, því einsaman løgur mykjunnar fer ofaní jordina, en hitt í eldinn; og þó er þad verra, þegar mykju er nýrri brent og hún er þá þurkud upp med leginum.

---

# 13di Kapítuli.

## Atli kvídir ama og adhlátri manna.

---

62. Atli. Mér sýnist þú unnir mér eingrar þeirrar hægdar, sem adrir bændur hafa; þú eggjar mig á svo margt og mikid erfidi, sem fáir eda eingir þreyta sig á: mundi mér ecki betra ad fara hægra ad øllum høgum mínum og munum eins og adrir sveitúngar mínir, og ef

mig þá brestur, verdur mér betur til, ad einhvør géfi mér málsverd, þegar eg rædst ecki í meira enn adrir menn; en fyri þessar nýúngar amast allir vid mér.

**Bóndi.** Þad kom mér ecki í hug, ad mundir ætla þér ad lifa á annara sveita: þú hefur sagt mér, ad þú hefdir nú tvo um tvítugt, og á þeim aldri fer mønnum framm, en ecki aptur vid erfidid. Viljir þú ecki erfida, þá máttu ecki éta 2 Tess. 3, 10, og þá verdur þú ecki lengi jarda byrdi; gjørdu annadhvørt erfidadu og ettu, eda hvørugt. Gjættu ad því: fyrst er þér allt ørdugast, ámedan þú ert frumbýlíngur, sídan verdur þér allt hægra, og áttu þess von, þegar þú kémur á hinn efri aldur, en hefur dugad þér vel ad úngur, ad þú njótir þá gódrar og rósamrar elli, vid gnægd og gæfu, því svo blessar Gud sveita þeirra, sem óttast hann, og rækja trúliga sína stétt. Fodurlandinu og eptirkomendunum ertu hérum skyldugur, því þegar þú komst inní heiminn, og sídan jafnliga hefur þú hast þess mørg not, sem þeir fyrri menn hofdu greidt fyrir þér, og varid þartil sveita sínum og erfidi; ámedan þú ert í heiminum, áttu sem mest þú orkar ad greida fyri þeim, er eptir þig koma, og landid byggja; má þad og mjøg knýa þig framm, ad þú veitst bornum þínum ætladann allann ávoxt og gagn þinna handaverka. Þú átt ad vita þad, ad dagligt erfidi, sem þú gjorir med ánægju, í gódri von Guds blessunar, og í skémtiligri samvinnu konu þinni, er heilnæmt og gagnligt líkama þínum til heilbrygdi og vidhalds, og sálum yckar er þad gott ad tempra þarmed æskunnar gjálífi. Med því móti kantu ad verda hygginn og rádsvinnur madur, og bædi þid hjón gódir húsforeldrar, hæf til ad uppala børn

ydkar í Guds ótta, dugnadi og rádvendni, svo þau verdi ydkur til gledi og gagns, gódir Kóngsins þegnar, þarfir menn og nytsamir fodurlandiun, en ekki klækismenn, ónytjúngar, landhlauparar edur ódrefi.

63. Atli. Eg verd fyrir adhlátri, þegar eg er svo opt ad sýsla med mykju, moldbleytu og adra óhreinliga hluti, sem adrir mínir líkar skipta sér ekkért af, og vilja ei snerta med fíngri sínum.

Bóndi. Þegar þeir hafa hlegid út um sinn, þá hætta þeir, því einginn madur gétur án afláts hlegid; og þegar Gud blessar erfidi þitt, en hinir ónytjúngar svelta heilu húngri, þá þarftu ekki ad tvíla, ad hláturinn fari af þeim, þú kant segja þeim, ad aldrei muni þeir verda haldnir jafn gofugir, miklu sídur gøfugri enn adrir menn, sem þessa idn brúka, og lifa vid aud og sælu. Ad margir stórhøfdíngjar og lærdir menn hafa greiniliga skrifad um allt hvad jardyrkjunni vidkémur, og líka starfad þar ad med eigin høndum. Svo skrifar Xenophon um Cyrum Persa Kóng ad hann hafi sagt: »eg sver vid þessa kórónu, sem eg ber, ad þegar eg er »ósjúkur sæ eg mér aldrei mat, fyrr enn eg hefi unnid »mér til svita, annadhvort med hermanna konstum, »aldingardsrækt, edur akuryrkju.« Mintu þessa vesælínga á þad, ad þó þeir vilji ei vinna slíkt fyri sjálfa sig, til ad hafa þaraf ærligt uppeldi, þá samt verda þeir fegnir ad vinna slíkt hjá ødrum med ósæmd, fyri málsverd þegar þeir svelta. Seigdu þeim, ad vor Frelsari samlíki sér vid aldingardsmann, sem baudst til ad bera mykju ad ávaxtarlausu tré því til frjófgunar, svo þad yrdi ekki upphøggvid, vegna þess ad þad gjørdi jørdina gagnlausa þar sem þad stód, Luc. 13, 6 - 9. Láttu þá vita, ad

einn velforstandigur fornmadur samlíkir þeim við mykju, þegar hann segir svo: latur madur er líkur saurugum steini, allir menn hafa skömm hans að vidundri. Latur madur er líkur mykjuskán á tadhaug, taki nockur hann upp, sá verdur ad hrista höndina. Syr. 22, 1 - 2, og enn segir hann svo: kap. 7, 16: Hata þú ecki þá idn, sem erfid er, elligar yrkju jardarinnar, sem stiptud er af þeim hæsta, item kap. 10, 30: Betri er sá sem vinnur, og hefur allsnægtir, en hinn sem gengur um, heldur af sér, og er braudþurfi; og Salomon Köngur segir Ordskvidab. 13, 4: Sál hins lata girnist og fær ecki, en sál hins kostgjæfna mun fitna; þeir sem ecki vilja taka á óhreinu, huxi til þess er Salomon segir: Þar sem einginn uxi er, þar er jatan hrein; svo fá þeir líka hreinar tennur og sult. Am. 4, 6.

64. Atli. Veistu nema þú verdir sjálfur hæddur fyri þessi ráð? ef adrir fá þau ad vita.

Bóndi. Komi þad framm sem þú gétur til, þá verda annadhvørt þeir til þess, sem leita ad hædnisefni, og mundu þeir hafa fundid þad, þótt ecki hefdu þeir vitad til ockar samtals: ellegar þeir, sem hata allt erfidi, og þeim er hægt ad lida slíkt med þollyndi, þángad til þeir læra þad, annadhvørt af þeirri blessan, sem adrir fá þarvid, edur sjálfra þeirra óþrifum, ad þessi Guds og Köngsins skickan sé góð, sem hér hefur verid umtalad, jardyrkjunni vidvíkjandi. Þá kunna ad vera þeir þridju, sem eru gódgjarnir menn og dugligir, þeir hæda ecki, en hata þó allar nýúngar, hvarmed þeir telja þetta; þessa skulum vid láta sjálfráda sinnis síns, og óska þess af þeim, ad þeir unni ockur sama jafnadar. Ef ad þú

fylgir ráðum mínum þá, verður raunin ólýgnust, hún mun dæma hvað gagnligt sé og velráðið, eður hæðiligt.

---

## 14di Kapítuli.

### Atli spýr að ágóða af búi sínu.

---

65. Atli. Er mér ecki betra að leita mér brauðs með hægra móti? er þessi útvegur betri enn aðrir? kann eg að fá svo mikið gagn af búsmala mínum, að þessir erfiðismunir fæði mig og klæði?

Bóndi. Það gjörir þú rétt, að leggja þetta niður fyrirfram. Eg hefi sagt þér, að fornmenn ætluðu hálfann annann eyrisvöll, fyri kýrfóðri, sem eg reikna 26 hesta, og þrjár vættir hvorn hest. Þrjá eyrisvelli ætla eg þér að slá, þurka og hyrða heyið af þeim í garð á viku, með konu þinni og einni vinnustúlku, það eru 52 hestar heys, og nóg vetrar fóður fyri tvær mjólkurkýr, því eg ætla til þú farir vel að ráði þínu, og alir pening þér til gagns, en ecki sem nockrir gjöra, képpast við að hafa mikinn peníng og stóra jörð, en vanrækja hana og svelta peníngin, já þeir þrælka fyrir honum árliga, en hafa ecki svo mikið gagn af tveim kúm, sem forstandigur þrifamaður af einni. Hér á bæ fær mjólkurkýr 13 skálapund töðu í mál, þá hefur hún vætt til 3 daga og heyhest til 9 daga; en sé hún géld,

þá eru henni rífliga nóg 20 pund á dag eda vætt til 4ra daga. Med þessari gjøf hefur kýr, sem kélfdi seinast i October mjólkad.

| | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Novembr. | - | 10 | pot. á dag | - | er | 300 | pottar |
| Decembr. | - | 8 | - - - | - | - | 248 | — |
| Januarius | - | 8 | - - - | - | - | 248 | — |
| Februarius | - | 6 | - - - | - | - | 168 | — |
| Martius | - | 6 | - - - | - | - | 186 | — |
| Aprilis | - | 4 | - - - | - | - | 120 | — |
| Majus | - | 4 | - - - | - | - | 124 | — |
| Junius | - | 6 | - - - | - | - | 180 | — |
| Julius | - | 8 | - - - | - | - | 248 | — |
| Augustus | - | 6 | - - - | - | - | 186 | — |
| | | | | | | Summa | 2008 | pottar. |

Nú meina eg þad ecki, ad svo skipti um mjólk med hvørjum mánadi, sem hér er reiknad, heldur þegar hvør vika bætir upp adra, fáist svo mikil mjólk í hvørjum mánadi, sem hér er sagt, og svo um allt árid, og er hér meint medalkýr, sem ecki er lángstæd, og finnast hér í plátsi jafnmargar betri sem lakari, enn hér er talid til, þar sem sumarbeit er gód, en kjarnagód tada, sem hér er vída á sandjørdunn. Þad hefur verid lag hér í landi, ad selja 25 potta á 5 álnir eda 10 fiska, þá eru 100 pottar á 20 álnir. Ætludu þeir svo til, ad smjørid í mjólkinni skyldi svara helmíngi verds, en ødrum helmíngi skir, ostur og sýra. Nú hefur bædi min kona, og adrar forstandugar búsṫýrur reynt, ad af medallagi kostugri mjólk fáist 10 pund smjørs edur 1 fjórdúngur úr 100 pottum, þad er helmíngur mjólkur verdsins, sídan

segja þær að úr 100 pottum sáist 25 potta rúm af skiri og af sýru 75 potta rúm. Eptir þessum reikníngi ættir þú að fá undan einni slíkri kú allt árið umkríng, þegar allri hennar mjólk er til þess haldið, 20 fjórdúnga smjörs, 4 tunnur skirs frekar (eptir gømlu íslenzku tunnu máli, þegar hvor tunna á að taka 12 fjórdunga eða 120 potta) og nærri því fullar 11 tunnur sýru, eptir sama mælir; það allt saman gjørir eptir gømlu verðlagi 13 rdli. 2 mk. eður 3 hundruð 40 álnir, en selzt nú allt dýrara bæði til útlendra og innlendra; þessum reikníng kémur saman við það, sem búmannalag segir, sú kýr, sem komist hæðst í 7 merkur í mál á sumri, gjøri 6 fjórdúnga smjørs á því sumri. Nú gjørði eg ráð fyrir, að þú slægir og hirðtir 3 eyrisvelli á viku, það er 2 kýrfóður; verður þá ávinníngur á vikuverki yðar hjóna og vinnustúlkunnar, 26 rdr. 4 mk. eins og mjólkin kostar ný, en ef þið seljið smjør, skir og sýru alla undan tveimur kúm, eptir því verðlagi, sem nú er komið, fær þú meir enn 30 rdi. og reikna eg hér þó ecki kálfa, lýknarbelg og halahár kúanna. Hugaðu þig nú um, hvørt þú gétur valið þér annað gagnsamara verk, enn að búa svo í haginn fyri þig, að þú megir vænta svo mikillrar blessunar af vikuverki þínu heima við bæ, og kosta nærsta því eingu til, nema erfiðinu, og þó slíku erfiði, sem sizt er undirorpið hættu eður vanhøldum.

66. Atli. Eg veit marga bændur, sem varla sá eptir sínar kýr helmíng þess sem þú reiknar.

Bóndi. Það veit eg satt er, því allur fjøldi þeirra sveltir þær, en fóðrar ecki til nytja, eg veit þá bændur sem géfa kúm sínum ei meir enn 6 til 8 skála-

pund heys í mál, þareptir mjólka þær, en hafa þó sumir þeirra svo góð hey sem best mega fást, en þeir vilja heldur hafa fleiri, og géfa öllum lítid, því þeir segjast hafa meira gagn af þeim mørgum á sumri, þegar ei þarf ad géfa hey. Þeir beita þeim út á vetrum, vorum og haustum, þegar einginn gródur er á jørd, eins kvígum ámedan þær eru í vexti. Þær verda því kvidlausar og smáar, leggja sig ecki vel til grassins á sumrum, verda kostléttar ad mjólk og magrar árid umkríng; mjólkurædarnar dragast saman, svo þær verda aldrei gagnligar.

67. Atli. Þad sé eg, þú reiknar allann ágóda kýrinnar, en ecki fyrihøfnina, sem á mér liggur árid umkríng.

Bóndi. Erfidi þarftu ad hafa fyrir øllu þínu braudi, og eins kúm, og er þad erfidi þarfast, sem best launar sig, svo sem þetta er. Einn lærdasti og forstandugasti madur hér á landi hefur reiknad ábata og kostnad leigulida af kúm, en þad er audséd, ad hann gjørir rád fyri magri hagabeit, og þeim kúm, sem eg gat um ad bændur draga fódrid vid, og þó segir hann, ad þegar menn reikna allann þann kostnad, sem menn hafa fyri kúm, þá sé fódrid 60 álnir, leigan 20 álnir, hagabeit, hús og umhyrding 20 álnir, alls 3 rdr. 2 mk. og hafi bóndinn til góda af medalkú, ad þessu øllu frádreiknudu, 4 rdi. 2 mk. Í oeconomíska magazíni, tom. 7, pagína 324, er skrifad: ad ein hollænderiets kýr géfi af sér 1 kvartil smjør, og hennar fódur kosti 3 rdi. 2 mk. þaraf sérdu ad kýr hér í landi launa betur sinn uppákostnad. Essendorp skrifar um Leirsókn, ad þar geymist kýr í seljum 2 edur 3 mánadi, og á þeim tíma reikni menn

undan hvorri kú hálft lpd. smjør: en hér í Breidafjardar eyum koma menn kúm á land til undangérdar 14 til 16 vikur af sumri, og fá eptir hvørja kú aldrei minna enn 6, stundum 8 fjórdúnga smjørs, og svo þar imillum, fyrir utan skir og sýru. Sami madur segir, ad kýr kosti þar 6 til 12 rdi., hann segir og (sem satt er) ad mesti skadi sé ad hafa margar kýr, því fáar velhaldnar gjori lángtum meira gagn enn margar sveltar. Bojers Förfarna Landthushållarin segir kýr skuli hafa 14 pund heys á dag, þad er hér um 12 pund donsk, en fyrr enn þú ert ordinn velreyndur bóndi, muntu skynja, ad þad er ecki nærri nóg, nema kýrin hafi þaradauki meir enn jafn mikid af maski, hálmi edur odru í heystad, sem þessi búholdur mun og tilætla. Anno 1693, 24da Aug. segja bádir Løgmenn fyri Amtmanni Muller, ad eptir þeirri landsvísu, sem þá sé, skuli gyld hundrads kýr vera ei eldri enn 8 vetra, ei ýngri enn ad ødrum kálfi, heil heilspenud, eigi ad bera einhvørntíma á vetri, ei minni enn 7 edur 8 kvartil á herdakampinn, nema hún hafi þau gjædi ad nyt, sem vortinn bæti, svo feit, ad hún þoli ad vera úti í frostlausum hrídvidrum um fardaga. Sú kýr, sem mjólki 24 merkur til samans í bædi mál, einhvørn tíma á ári, heiti m e t f é. Sú kýr meigi ei leigugyld heita, sem aldrei á ári komist til 6 marka í mál, en mjólki hún þær eda meir, heiti hún leigugyld fyri fódri sínu, ábyrgd og leigu.

# 15di Kapituli.

## Atli spyr að nautpenings rækt.

68. Atli. Segðu mér meira af nautpenings rækt?

Bóndi. Það er reynt, að kýr mjólka vel af volgu vatni, þar sem hverar eru í grend, og svo segir Brauner, að þá mjólki kýr best, þegar vatn er borið inn í fjós fyri þær, og látið standa til þess volgnar, áður enn þær drecka það. Hann ráðleggur að kasta salti í dryck kúa, því hann segir, að þær mjólki því betur sem þær drecki meir, en saltið veki þeim þorsta. Sjóvatn mætti í þess stað brúka; það reynist og gott, sem bændur brúka hér, að sá salti yfir nýborinn kálf, áður enn kýrinn karrar hann, það hefur somu verkan, en er gjört kúnni til heilsubótar. Úr því kýr eru 18 vetra, eru þær þýngri á fóðri, verri til undaneldis, og selja óhollari mjólk, en óþarfi er það hér í landi, að binda sig við þýdska bænda reglu Zinckens, að þær megi ei eldri verða enn 12 vetra; hér í grend vissi eg einn búanda eiga fremur öðrum gagnsamar kýr, og bestar til undaneldis; hann lét kú aldrei fá nema annaðhvort ár, en lét helmíng sinna kúa til skiptis vera géldmjólkann á ári, hans kýr vóru hraustar, og endtust vel yfir 20 ár.

69. Atli. Hvornin á eg að velja mér alikálf?

Bóndi. Merki á aliligum kálfi hafa hér forstandugir bændur þau somu, sem Brauner sænski kénn-

ir, ad kálfur sé lángur, bríngusídur, hofudstór, ennisbreidur, bil ámilli herdabladanna yfir hryggnum, hálsþyckur, ecki krókhryggiadur, heldur med jofnum og mjúkum hrygg, þad kallast og gott merki ad sveipurinn sé sem lengst fyrir aptan herdakambin. Tarfkálf velur þú sem hina, telur Zincken gód merki á þeim rétt hin somu og Varro. libr. 2 cap. 5, ad þeir skuli hafa enni mjog krúsad, malir breidar, svort og mikil augu, lodin eyru, útskotnar sídur, hesid sídt, mikla bóga, fætur stutta, húd þétta og harda átektum; oll þessi merki hefir eg vitad vel reynast, þaradauki verdur oftast bestur kálfur undan stærstu kú, hraustri, holdsamri, sem mjólkar vel en er lángstæd, og géldmjólk árid ádur, borinn med vaxandi túngli, í Martio og Aprili.

70. Atli. Hvornin verda þessir kálfar best aldir?

Bóndi. Þegar þeir fá þad sem náttúran ætlar þeim, sem er ad sjúga módurina, en þad vilja færstir til vinna, og er þad satt, ad kálfurinn verdur þá lángtum dýrari enn eptir vana lagi, þad hefur þó brúkad verid fyrrum, sjá Grág: llb. 39: Ei ver manni vid log, þó ær leidi dilka umerkta, og skal módir bera vitni hvor á, svo skal og hid sama, þó kýr leidi dilka. Jónsbók llb. 47: Ef dilk ær eru, þá er monnum ei skilt ad marka dilka undir þeim, ámedan módir ber þar vitni um, og svo kýr um kálf, gyltur um grís. Eg hefi reynt, ad láta kvígu ad fyrsta kálfi gánga med dilki á sumri 6 vikur, sýndist kvígan batna þarvid, en kálfurinn vard miklu betri enn annars, í annad sinn hefi eg látid kálf sjúga eldri kú, vard sá kálfur hinn besti, en kýrin hvorki betri né verri; eingin kona þykist géta svo vel mylkt upp ána, sem lambid gjori þad, eins má skilja

sé um kvígur úngar, og jafnvel allar kýr. Flestir reikna sér meira gagn ad mjólk kýrinnar enn ad gjædum kálfsins, og svo muntu reikna fyrst um sinn, ámedan þú ert frumbýlíngur, ad þér sé betri sú hálfa nyt kýrinnar, sem kálfurinn eydir, þegar hann sýgur hana, en voxtur kálfsins framm yfir annann. Þú mátt þó nýta þad, sem adrir hafa brúkad fyri kálfa. Smáþara, sem kallast ætiþáng, saxadann og gjordann af þyckvann vatnsgraut; næpur og þeirra gras, item kál og adrar gardurtir, jardepli og þeirra gras, má allt geyma úti í mold framm á vetur, þó svo djúpt, ad ecki frjósi, þad má upptaka þegar vill, og sara þad fyri kálfa, og eins má þad eldri nautum géfa, helzt þeim sem hafa vanist því úng: vídir er gott kálfa sædi, bædi hann og allar urtir sem mjog eru barkandi, ef kálfar lifa á þeim nærsta því eingaungu, géfa þeim þykt skinn og bráda situ, en lítinn voxt, eins og Brauner skrifar um skógar naut, þó af því kálfar hafa gjarnan laust lif, þá er þeim þad lækníng, sem dregur saman, og hér hefur þeim verid géfid saman vid allt sem þeir drecka, nockud af sortulíngs løg, item eptir rádum Brauners hefur hér kálfur, sem ecki þreifst ádur, læknast med því, ad skafa krít ofan í mjólk hans og láta krítar stycki fyrir hann í básinn, sem hann sleikti opt; járnlagar vatn, og fortuløgur er kálfum banvænt, en ef þeir fá hardlífi, lækna þá 2 spónblød af lýsi, eins læknar þad kýr og eldri naut, en lífsýki þeirra læknast med því, ad hella ofan í þær einum pela á dag af saltpækli, sem ádur sé þó sodinn, eins verkar eins mikid af samanhrærdu sóti vid brennivín; innanmein hefur þad læknad hér á kúm ad sjóda mikinn vallhumal (millefolium) í vatni, og hella

þeim legi ofaní þær, nockra daga samfleytt, 1½ potti í senn.

71. Atli. Sumir lasta það, að brúka úngann tarfkálf til kúa.

Bóndi. Þess er von, og svo gjöra líka útlenzkir menn, sem um búnað hafa skrifað, þeir segja að hann skuli þrévetra vera; Essendorp vill að bædi tarfur og kvíga sé þrévetra ádur enn þau brúkast til tímganar; en að undaneldi þess tarfs, sem vel alinn er rúmliga árs-gamall, verdi eingu verra enn hinna, sem eru þrévetra edur eldri, halda hér allir bændur satt eptir reynsluni, og ské má, að hardari fæda og annað lopt hjá oss, gjöri þennann mismun hér og utanlands, í heitara lopti. Þó er þessi útlenzka regla góð í ödru skyni: þess fyrri sem tarfur edur hrútur eru til tímganar brúkaðir, þess verri verda þeir þartil sídan, því að þeirra kraptar eydast, fyrr enn þeir eru fuldstyrkvir ordnir: þeirra stía sé rúm, það gjörir þá hraustari, en kálfar þeir og önnur dýr sem til slátrs eru alin, hafi þraungva stíu og sem minsta hræring, það gjörir þau feitari.

---

## 16di Kapituli.

### Atli spyr um medferð á saudfé.

---

72. Atli. Þú eggjar mig mjög á nauta rækt, hvað segir þú mér af saudfénu? það er gamallt mál-tæki, að svelt er saudlaust bú.

Bóndi. Gott er af því ad segja, af því fáum vér einn þarfasta hlut, sem er ull til klædnadar. Saudfé sækir eptir þurru hálendi, hvar barkandi og krydddurtir vaxa (aromaticæ & adstringentes,) svo þad lifir þar best, sem einginn önnur sképna fær fódur og geldfé fær sér þá fódur úti á vetri, er annar peníngur þarf hey, helzt hvar fjallbygd er, og þad er sannreynd sögn fornmanna, ad gamall saudur og rjúpa gángi eins vel vetur í hardindum og snjóalögum, því þau bædi ná lengst til þess sem þau géta lifad á, hún til lauffins, sem af henni tekur nafn, og kallast rjúpnalauf, (folia dryados,) en hann til allslags beitikvistar, og vídirbárs (turiones.) Af því, sem útlendzkir menn hafa skrifad um saudfjár rækt, hefi eg enn þá mjög litid séd, sem eigi hér vid lopt og landslag, enda vilda eg ecki ráda þér til ad safna miklum smala, ef ad hér kostadi svo mikid fódur hans og rækt, en hann gjördi þó ei meira gagn, enn Sænskir og Þýdskir skrifa, og ecki gjörir Essendorp meir af fjárafla né gagni þaraf í Akurhúss stifti í Norvegi, hvar ásaudur er aldrei mjólkadur, Barón Hastfer hefur vel skrifad um fjártimgun á Íslandi, af útlendu kyni, og er þad kver útlagt á Íslenzku og þrykt 1761, ad bodi þess hálofliga Kammercollegii, þar gétur þess, ad vegna ofnákvæmrar og kveifarligrar medhöndlunar fjárins í ödrum löndum, verdi þad sótthætt og þróttlaust, og hrósar þessi lærdi og velþenkjandi madur adferd vorri med útigángsfé; þó er þad reynt, ad þad fé, sem vel er géfid mánadar tíma um sumarmála leitid ádur enn þad fer fyrst ad bera, gjörir lángtum meira gagn, enn þad sem sveltur, þá þad þolir verst sult, undir lambburdinn. Best er þar fé, sem því er géfid allann vetur, en helzt á útmánudum,

því gjöra og búalög ráð fyri því, að þar sem 8 ær skuli vera um fjórðúngs vöndul heys á þorra, skuli 6 vera um hann á góe og 4 á einmánaði; og þó segja landslög að ætla skuli saudfé hey til fardaga. Einn bóndi hér í sýslu, réttordur maður, sem bjó á vetrarríkis jörð, og fóðraði ásaud á heyi allann vetur, en beitti þá á skógarbrum, er vedur var gott, sagði mér, að hann hefði átt á, sem mjólkaði 5 merkur í mál, það er 5 pottar á dag, en margar sagðist hann eiga, sem mjólkudu 4 merkur, en hann hafði besta beitarland. Hitt er almennast, þegar fé er ecki magurt, að hvor ær mjólkar 1 pott á dag. Hennar mjólkurtími er 4 mánuðir: Junius, Julius; Augustus, September, það sem hún hefur mjólkað með lambi í Junio, legg eg ofaná September, þegar hún fór að taka að sér, og má eg reikna, að hún mjólki 1 pott á dag 3 mánaði, það eru 90 pottar, þegar menn reikna að gömlum sið, hvörn mánað þrítugnættann. Hér er sá óvani, að nær eingin kona leggur barn á brjóst, nú var hér bóndi, sem einga mjólk átti né féck fyri börn sín 2, hann tók 2 ær skamt eptir Mikaelsmessu á gjöf, og gaf þeim hey inni til jóla, féck hann af þeim mest allann þann tíma 2 potta á dag, og þar með lifdu börnin vel. Á einum bæ hér í sveit, hvar fé er aldrei géfið, sagðist bóndinn hafa fengið í hitt hið fyrra ár, 1 mörk úr hvörri sinni bestu á, næsta dag fyri nýár, en þá hafði ei fé verið mjólkað 3 daga áður; svo gagnsamt er fé, jafnvel gjafarlaust í góðu hagkvisti, ef ecki er ofmikið sett í landið, helst hvar tekið er úr því hrídmál, þegar vest er á jörð, og í einmánaðar næðíngum.

73. Atli. Aldrei gét eg eignast nockud toluverdt af fé, ef ad eg skal géfa hvørri kind hey.

Bóndi. Til eru svo gódar útigángs jardir, ad fé géfur sig traudla hafi, þad hús, þegar hardast er, þó strásellur þad stundum. Orád tel eg þér ad hafa meira fé, enn þú gétur hýst. Ovoltust er fjáreign þeirra manna, sem alltíd hafa fódur fyri þad, en eptir lands-lagi skiptir um, hvad mikid hey þurfi. Þá kallast bændur á Strøndum nordur byrgir, þó hardt verdi nockud, ef þeir eiga 2 útheys hesta fyri hvørja á, en 1 fyri géldann saud, og kýrfódur fyri hvør 10 lomb. En verdi ásaudur magur á vori, særdu verri og minni ull, sem opt týnist, fyrr enn fénu er sylldt, ecki helmings nyt, og lamb lakara. Vída kalla menn 1 útheys hest nægiligann fyri hvørja á, gamlir géldir saudir gánga vídast úti gjafarlausir, en hús hafa flestir fyri þá.

74. Atli. Þá vil eg safna mér gømlum saudum.

Bóndi. Þad gjørir þú rétt og búmannliga, hitt er óframmsýni ad slátra jafnan tvævetra saudum, en láta ær verda 10 vetra, og þadan af eldri. Hér ecki lángt frá eru tveir gódir búmenn, sem hafa betri saudi enn allir adrir, og gjøra þó ecki betur vid þá enn adrir, nema þeir fordast ad láta þá missa kvid, sem mjøg spillir þeim fénadi, er fitna skal á sumarbeit: þessir menn selja hvørki né slátra géldum saudum, syrr enn þeir eru fjø til átta vetra. Á 9 ári segja þeir saudum fari vídast aptur, þó hefi eg vitad forustusaud vel þrýstinn og feit-ann á 10 ári, ásaudur er best ei verdi eldri enn 8 edur 9 vetra. Þá saudi velja bændur til sláturs, sem strax snúa sér í breckuna, er þeir koma módir af hlaupi, því þeir segja ad feitum saud verdi óhægt ef mørinn

sígur framm í hønum, og því leiti hann andrúms að snúa sér upp ámóti brecku.

75. Atli. Hvørnin á eg að velja mér hrút?

Bóndi. Af þrifsamasta kyni, og eigir þú það ecki sjálfur, þá er þér betra að fá þér hrút hjá oðrum. Hastfer ráðleggur að velja þá hrúta til fjár, sem hafa lengsta ull; en hér halda allir fjárbændur, að sá hrútur sé þrifa bestur, sem hefur stuttann lagð og hrockinn, með sívølum kroppi. Lombin líkjast mest hrútnum að ollu; einn lítill bóndi átti hér einusinni ferhyrndann lambhrút og brúkaði hann til ánna, þær áttu síðan allar ferhyrnd lomb um vorið.

76. Atli. Hvørnin vita menn aldur fauða?

Bóndi. Bæði merkist aldur nauta og fauða á hornum, svo fyrsti hríngur frá stikli merkir 1 ár, og svo merkir hvør hríngur allt upp að hausi vetra tal. Á tønnum merkist aldur fjár með sama móti sem Brauner segir Svíar gjøri. Lambið heldur sínum tønnum, þángað til það er ársgamallt, þá fellir það 2 frammtennur, og koma upp aptur aðrar 2 betri. Að oðru ári liðnu fellir sauður eina tonn á hverja síðu næst hinum, og fær þar aðrar betri í skorðin. Að þriðja ári liðnu fellir hann enn eina tonn á hvorja síðu við hinar fjórar, og þar vaxa í staðinn aðrar tvær. Að fjórða ári liðnu falla hinar síðustu 2; hefur svo tvævetra sauður 2 breiðar tennur, þrévetra hefur 4, fjøgra vetra 6, fimmvetra átta breiðar tennur.

77. Atli. Eg á eckért fjármark.

Bóndi. Þú mátt gjøra þér hvort búmark sem þú vilt, þegar einginn annar í sveitinni brúkar það áður, eður svo nærri að fé yckar komi saman, er þér

það eins heimilt þó einhvor hafi ádur átt það og brúkað, ef þá ber það eingin sképna á sér, er þú reisir bú, því fjármark edur einkunn er eingin eign lengur enn það er á peníngi manna. Alstyfíngar einir eru ollum bændum til forna fyribodnir, og skyldir þú ecki gjora þig grunsamann med því ad brúka þá sízt til fjallbygda.

78. Atli. Það uggir mig, ad eg muni missa lomb af líssýki, eins og margir bændur missa þau hér um pláts.

Bóndi. Ecki tjáir þér ad fordast lambaeldið, ef að þú vilt fjárbóndi verda. Þeir missa helzt lombin, sem ad beita þeim út gjafarlaust í hlákum, þegar jord er aud á vetri, en þegar koføld og frost eru, géfa þeir lombunum fulla gjof af megnu og kraftamiklu heyi. Þessa miklu og snoggu umbreytíng þola ei svo úngar sképnur, þær fá sótt af heyinu, því heldur sem þær hafa magrari ordið, allt eins og menn þeir sem megrast hafa við léttmeti, þola ei umbreytínguna, sé þeim strax áeptir géfinn megn matur. Þeir bændur, sem géfa þeim nockud á hvorjum degi med beitinni, þó þau hafi nóga jord og hlákur séu, reyna ad þau þola vel hey. Samt fá lomb opt líssýki á vorin af nýum gródri, helzt á sjóarflædi engjum. Þegar það ber við, koma bændur ofan í þau hvort um sig hérum þumlúngi af þrycktu tóbaki, og batnar þeim þarvið, því það hreinsar slím úr idrum þeirra. Líka er gott hvar því verdur vidkomið, að reka þau þareptir strax til skógar edur fjalls, hvar beitikvistur, og fleira barkandi og samandragandi er til fódurs. Á haustin er þau takast á hey, hella bændur hér ofan í hvort lamb litlu hákallslýsi, og reynist þeim það hollt, svo þau þrífast betur eptir. Volg sýra,

1 peli til hvörs lambs, er þá góð nær þau hafa orm í sér.

79. Atli. Þegar saudfé fær útbrót, eda önnur vanheilindi, hvad ráð leggur þú mér vid því?

Bóndi. Ymsir menn brúka ýmisligt, og margt af því fyrir utan skynsemi; einginn hefur betri ráð géfið vid saudfjár kvillum enn Hr. Landphysicus Bjarni Pálsson, (sem von var af þeim lærda manni,) í því skrifi, sem hann gaf út frá sér 1763, ímóti fjárpestinni. Hafa mörg af þeim rádum ad gódu ordið hér vestra vid einstaka sképnur, er fengið hafa kláða edur annaun sjúkdóm, þó hans ráð dygdi ecki ad nógu, til ad eyda fjárpestinni, þann tíma hún var megnust þar sydra: þetta er ágrip hans ráda.

1) Ad gjöra reyk í fjárhúsum ádur fénu er slept inn af einiberjum edur einir, skófnu horni, ullarsneplum, gömlum skóbótum, manns hári &c. hvörju fyri sig, edur öllu ásamt, er gott vid allri loptsins óhyru, hvad gjörast kann hvört annad edur hvört þridja kvöld, sérdeilis í votvidrum.

2) Ad bera í kládan smyrsli af tjöru, súru smjöri eda lýsi og muldum brennisteini yfir eldi vel samantemprad mýkir vel samandregnar hrucķur í skinninu, og leysir eins upp kláda flösuna og hrúdurinn.

3) Sjódist klemt tóbak í súru smjöri edur stækri keitu og hellist í endilángann hrygginn, svo ad út af flói á bádar sídur.

4) Rædst til ad brenna brennisteini undir kvidi þess fjár, sem útbrot fær ad nedanverdu.

5) Smátt mulinn brennisteinn géfist inn í heitri mjólk nockur kvöld samfleytt.

6) Volg sýra, hérum rúm mörk í senn, er góð fyri þad fé, sem hefur mikinn sudda útslátt, géfist á fastandi maga.

7) Ad hánka féd í öllum fjórum nárum, item í hnackanum er gott, og dregur vessa af kroppinum.

8) Þá smáu lús í ull-fjárins drepur lýsi, item lút af saudatadi eda þángösku og stæku hlandi.

9) Smámulid salt, annadhvort med fódri edur eitt fénu inngéfid, hérum eitt spónblad í senn, hreinsar öll vetsla óheilindi úr kroppinum; saltpækill kann gjöra hid sama.

10) Malin hvannarót edur einiber géfist med volgri sýru.

11) Heimilis njóla rót, í nýrri misu edur undanrenning sodin, hreinsar blód og saftir, þad er og gott vid hósta fénu fastandi inngéfid.

12) Fjallagrös í vatni sodin eru gód vid lúngna sýki, gétur og af þeim sjálfum fénu géfist einn hnesi á morgna.

13) Tak hardt sót úr róti (einkum þar eldad er hrísi eda saudatadi) saxada hvannarót eda steytt einiber, eda helluhnodra, eitt edur allt, eptir sem til kann ad vera, bind allt í posa, og legg þar til álíka mikid af salti: gjör svo deig med vatni, heing í útihýsi, hvar ecki frýs, og set undir bolla, er taki vid því sem úrlekur. Héraf kann géfast tvisvar í viku því veika og kláduga fé gott spónblad fullt. Allt hérad framanskrifad

kann og brúkast vid nautpeninginn nema þar verdur frekara ad géfa. Þetta skrifar hérum Landphysicus.

Vatnssótt læknar hvør adgætinn smalamadur, med því ad klippa litid framanaf sin sauda, og lúngnasótt þykist hér einn gamall fjárbóndi lækna, med sørudu og mordu pressutóbaki saman vid hákallslýsi, hann hellir því ofan í þá veiku saudarkynd, hérum 3 spónblødum, eda þó minna.

80. Atli. Hvørt er mér gagnsamara nauta edur saudabú, í tilliti til ávinnings og uppákostnadar?

Bóndi. Adur hefi eg reiknad þér nyt og uppákostnad kýrinnar, nú skal eg reikna þér nyt ærinnar fyrst. Hennar mjólk ádur samanreiknud (num. 72.) 90 pottar, 20 álnir, lamb. 5 álnir, reifi 3 álnir, er 28 álnir, er þá ávinníngur af ásaudar kúgildi 1 hundr. 48 álnir, og af þeim tveimur kúgildum ásaudar, sem þú fódrar á kýrfódri 2 hundr. 96 álnir edur frekir 11 rdr. Setjir þú fleiri ær á kýrfódur, þá ertu ecki vel byrgur, ef hardann vetur leggur. Nú kann vera þú komir framm 3 edur 4 ásaudar kúgildum á kýrfódri, þá er ávinningur þinn lángtum meiri, enn af kúnni, en hald og eign þín er þá lángtum óvissari, og kantu ad missa allt þitt fé á einum vetri, leggist hann þúngt ad. Þér verdur kýrnytin drjúgari, því ad hún kémur jafnt ad allt ár umkríng, en þó þú eigir ásaud, ertu samt mjólkurlaus heila 8 mánadi, og þá verda faung þín uppgángsøm. Það er þó mest verdt, ad jørd eydist af sjálfri sér, þar sem naut eru ecki til ad géfa áburd, því saudatad nægir ecki til jardræktar, síst hvar fé gengur úti, og þó þad liggi inni, er þess tad gagnlítid á sandhóla og hardlendi,

svo þú fær traudliga haldid vid jord þinni, nema þú hafir nautpening. Dæmi eru til þess, ad menn hafa safnad fjolda saudfjár, af því ad kostadi litla fyrirhofn, en forsómad jordina, hafa sídan mist á einum vetri allann sinn fjárafla, og skilid þá snaudir vid fordjarfada jord.

81. Atli. Ecki þarf eg þetta ad óttast, ef eg géf ánum inni allann veturinn.

Bóndi. Ef þú géfur ám inni til mjólkur framm eptir vetri, og þeim sídan fódur til fardaga, þá færdu eins mikla nyt sem af kúnni, en óhagkvæmari, því þú ert þó án mjólkur 5 mánadi fulla. Kýrfódur dugir þér naumliga fyrir 6 ær. Mykja þeirra er lángtum minni, og þó voktun meiri. Þér mun hollast ad hafa ei meira saudfé enn svo, ad þér endist fódur fyri þad, án þess ad draga vid mjólkurkýr, þá hefur þú best not af hvorjutveggja. En fodurlandid og eftirkomendurnir þacka þér best fyri þad, sem jordina bætir mest.

82. Atli. Heyrt hefi eg þad sé ábati, ad klippa saudfé tvisvar á ári?

Bóndi. Þegar þú heldur saudfé vid nóga gjof allann vetur, þá er þad gott ad klippa fé, og færdu med því móti betri ull, og hélmíng meiri, þú klippir þá géldfé fyrst í midja góe, og fær fullt reifi, aptur klippir þú um hofuddagsleitid, og fær þá nær eins mikid, en þegar þú vilt hafa nockud toluverdt fé, þá mun þér þykja þessi mikla og góda ull heldur dýr, því eitt reifi og nockur munur ullargædanna mun ecki bæta þér, ad þú kant ei hafa meir enn einn saud fyri tvo. Til dæmis: af 20 ám færdu ullarvætt óþveigna; sé þeim inni géfid sem kúm allann vetur helmíng meira hey enn annars

þyrfti, færðu 2 vættir; en á því heyi, sem þær eyddu, gánga vel framm með almenniligri hjúkun 40 ær, og þær 20 sem yfir hafa, muntu kalla eiguligri, enn ó- þveigna ullarvætt, sem er fimtúngi þýngri, enn væri hún hrein. Ské má, að þú kunnir að klippa þrisvar fé þitt á ári, ef þú géfur því vel, og lætur aldrei mjólka ásaud, eins og Æssendorp skrifar gjört sé í Akurhúss stifti í Norvegi, en með því þrefalda saudarreifi og lombunum með, kallar hann þar þó ásaud gagnlitinn, og svo munu allir sveitúngar ockar kalla.

---

# 17$^{di}$ Kapítuli.

## Atli spyr að hestum.

---

83. Atli. Hest þarf eg að eiga.

Bóndi. Það er satt, en hvort það hross, sem þú mátt án vera, er óþarfasti gripur í engjum og beitar- landi, því þau naga svo nærri rótinni, og þurfa líka svo mikið, að hross þrévelt eður eldra, er reiknað til í- tolu í haga við 2 kýr, en tvævett hross eður ýngra við eina kú, þarámóti er talið þrévett naut eður eldra við eina kú, og 3 veturgomul við eina kú. Grág: lbr. þ. 15 kap. Jónsbók lbr. 4 kap. hefur somu ítolu, þar sem sú grein er rétt tolud. Nú muntu skynja að betur komi niður jafnmikið gras, sem 2 kýr eður naut lifa á,

enn eitt hrosð, sem ecki vinnur til nytja. Gétur þú átt hrossastód á fjöllum edur afdölum, sem aldrei komi til bygda, þad væri gott, svo máttu taka þarfrá hesta til ad temja og brúka eptir þörfum, eda til ad selja og leigja ödrum, sem þurfa. Likt þvi sem hér brúkast ad hánka hest í brjóst: segir Essendorp ad verji þá hesta, sem brúkast í Norvegi, fyrir öllum sjúkdómum, segir hann hánkinn eigi ad vera af sjálfra þeirra hári, þrí-tvinnadur, og gángi hánkinn inn hjá ödrum bógi, en út hjá ödrum, sé þessi hánki dreginn til og frá dagliga, þángad til ecki safnast meiri vessi þarad, þá er hann dreginn út. Brauner skrifar nockrar hrossalækníngar, af hvörjum þessar er hægast ad fá. Sé hestur meiddur undan reidíng, tak brennivín, tólg og edik, þad dragi úr bólgu áridid, sídan sáist í sárid aska af gömlum skósólum, en sárid þvoist í salpéturlút edur úrin. Item deig af rúgméli og salti, þurkad, brent, og strád i sárid, lækni vel. Vid hófkirking: rísist hófurinn nidur, svo hann verdi allur þunnur, sídan núist med raudum lauk. Vid kláda og lús: meljist brennisteinn ofan í lýsi, hvörju þar skal vel umnúast, hvar kláda hrúdur er. Hvar hár er af, þar smyrjist med púdri og smjöri, þá komi hár ad nýu, án þess ad bregdi liti. Vilji madur láta hára-lit hests bera bókstaf nockurn edur annad fángamark sitt, þá leggur jesúitinn Tylkowski (Tractate de re agraria) þad rád ad leggja hænsa drit vid svartann hest, undan þvi verdi hvitt hár, en ad gjöra svört hár á hvít-um hesti, skuli taka leirkrúsar brot, sjóda þad i vatni, steyta i mortéri, og leggja þad dupt vid 24 tíma, þá falli hvítt hár af, en svört komi aptur.

84. Atli. Hvör eru hreystimerki á hesti?

Bóndi. Þau telur ádur nefndur jesúiti, og fleiri, eins bændur hér í landi: stutt hǫfud, jafnbreidt nidur, lodid mjǫg og hrockid í enninu, (kalladist slíkur hestur fordum Bucephalur) svört augu, opnar nasir, eyrun lág og lidug á hǫfdi, svo þau hræríst fljótt vid hvǫrt vidbragd, sem hestur gjǫrir, þyckur macki, manarhár mikil og stýf, med nockrum sveip, brjóst og herdakambur þyckur og mikill, hryggurinn jafn vid sig, krínglóttar og og uppháar lendar, þó lægri enn herdakamburinn, taglid þyckt og nockud hrockid, sívalur kroppur, digur kné, fótur beinn, hardur, svartur, ihvolfur, óskackur og óklofinn hófur. Sá sem bítur frá sér adra hesta á stalli, og hleypur gjarnan framm fyrir adra í rekstri, helzt um torfærur.

85. Atli. Fleiri sképnur ala bædi þú og adrir, enn þær sem nú eru taldar.

Bóndi. Svo er þad, geitfé og svín hafa menn, líka ýmisligt fjadrafé, svo sem hæns, endur og gjæsir, en naut og svo saudfé er þér gagnsamast, og þeir eru flestir, sem þarmed láta sér nægja. Þegar þú ert ordinn lángtum meiri audmadur, enn þú ert nú, þá máttu þessu vidbæta sem fáséđara er, ef þú hefur skóg fyri geitfé, og stǫduvatnstjǫrn nærri bæ, fyrir endur.

---

## 18di Kapítuli.
### Atli vill hæns hafa.

57. Atli. Margir fátækir menn hafa hér hæns, og þad vil eg líka gjǫra, því haninn segir mér hvad

tíma líður, og menn segja að þar verði aldrei reymt sem hann er í húsi.

Bóndi. Margir hafa hér hæns, sumir til skémtunar, eða sælgjætis meir enn til gagns. Viljir þú hafa þau, þá fáðu þér fyrst 1 hana og 2 hænur, af því hænsa kyni, sem hér í landi hefur tímgast; þá hana, sem jafnan hlaupa til og frá er þeir eta, hvörki gala né duga hænum, kalla menn skothana, og eru þeir ei til annars enn sláturs. Dökkleitar hænur og stórar halda menn bestar varphænur. Þú kant að fæða hæns á vetrum og vori á mylsnu undan heyi, þar sem það er hrist, og deigja það með mjólk, á því lifa þau vel, vegna fræanna, sem í mylsnunni eru, en á soxuðu heyi einu lifa þau ekki, því það er of kjarnalítið. Á allslags fiskahrognum, skiri og öðrum búmati, lifa þau ei síður, enn útlendum kornmati. Á sumrum og haustum hafa þau sjálf ofan af fyri sér, með því að tína orma, maðka og allskyns fræ. Arfafræi má fyri þau safna á sumrum; þar sem arfi er mikill í veggjum, taktu fjöl, negldu utan á hana lítinn lista beggja meginn, að hún verði sem lángur stokkur, set hana lángs með veggnum, þar fellur fræið í úr arfanum, jafnóðum og það roskna, máttu síðan vinsa það svo þú fáir það hreint til vetrar forða. Saxakál, næpur, jarðepli, netlukknappar, allt þetta varla eður ekki hálfsoðið er þeim gott fæði. Þess verður þú vel að gæta, að alltíð sé bjart á hænsin, bæði hvar þau sitja, og líka hvar þau taka mat sinn og dryck, því einúngis vegna dymmunnar, þrífast þau ekki, og af þeirri vanrækt misti eg einusinni öll mín hæns. Kosti þeirra eða kista þarf að hreinsast einusinni í viku. Aldrei er þeim hér gefið að drecka, þau útvega sér sjálf

svölunarvatn á sumri, en snjó á vetri, í eldhúsi þrifast þau vel, og þola betur reyk enn adrar sképnur. Gamlar hænur, sem mest gaukla láta menn leggjast á egg, og velja til þau egg, sem heldur eru hnottótt enn aflaung, þau sem úngar hænur hafa orpid med varandi túngli, en þó ecki fyrstu egg undan úngri hænu. Hentugt er, ad hæna leggist á í Junio fyrr enn túngl sé fullt, svo hún úngi út med næsta varandi túngli, því úngarnir klekjast venjuliga út á þrim vikum, og skal vera hlýtt á þeim, þar sem hreidrid er. Komi úngar þá ecki úr eggi, edur ei allir, þá eru annadhvort eggin daud, edur skurmur þeirra svo þyckur, ad þeir géta ei brotid sig út med nefinu, má þá brjóta litid á fyrir þeim. Þau egg, sem eptir verda, má láta í ullarflóka á kakalón, í volgt heymod, eda annarstadar, hvar jøfn og hóflig velgja er, þar koma úngar úr eggi og mega þá leggjast til hinna, sem sjálf hænan hefur útklakid. Þad er rád til ad fjølga hænsnum: leitadu þér ad rjúpu eggjum, og legg undir hænur, því ad þad eru sama kyns fuglar, og verda mjøg líkir hænum, nockud minni, en þarámóti tímasamari; villianda egg má og svo leggja undir hænu, hún úngar þeim út, en þeir verda henni ecki lengi fylgisamir, því þad er annad kyn, og þurfa líka annann adbúnad, sem er þó eingu torfeldari. Egg sem leggjast undir hænu sé ei fleiri enn 10 ad tølu, og ei eldri enn 8 daga. Ámedan hæna liggur á eggjum, skal hún vel fódrast og færist henni matur og dryckur ad hreidri. Svo ad hænur fljúgi ei þángad, sem menn ecki vilja, klippa menn flugfjadrir af vængjum þeirra, eda stýfa mikid af ødrum vænginum, sama gjøra menn villianda úngum, sem hænur útklekja. Ef lús sezt á hænur, er þad Zinckens rád, ad þvo þær í

kúahlandi. Þegar þær sá svartann kamb, og vilja ei eta, þá skal géfa þeim grænt kál, lauk og smjør. Best þarf að fódra hæns frá Marteins messu til nýárs. Hænu egg geymast í vindsvolu húsi uppheingd og rødud nidur í gisinn laup. Varro rádleggur, ad leggja þau 3 eda 4 stundir í saltløg, þurka þau sídan, og geyma í kornmylsnu. Haninn galar venjuliga á eyktamótum, en viti hann á vedrabrygdi, þá bregdur hann venju. Hvad reimleika snertir, þá er haninn lángtum betri til áts enn átrúnadar, þó er þad sévænligri trú, sem eignar hanagalinu krapt ámóti þeim enn svo kølludu agati eda rafi, og er sá bestur ámedal hálfvita, sem bætir búnad sinn en spillir hønum hvørgi med þesshattar hjátrú. Ef ad þú heldur, ad reimleikum valdi illir andar, þá er hvørgi vørn ad fá ímóti þeim, nema í andanna ríki, og hjá þeim, sem er enn sterkari, þad er sá almáttugi skapari og Kóngur andanna, Gud á Himnum, tilbid þú hann, og trúdu hønum til þess ad vardveita þig frá allri myrkra magt.

87. Atli. Fleiri alifugla hafa menn hér enn hæns?

Bóndi. Endur hafa fáeinir, þær fódrast hægliga, og eta flestallt, sem þeim býdst, í sjó eda støduvatni útvega þær sér nóg fædi, einasta verdur ad géfa þeim nockud, helzt andrikanum, svo þær verdi ei villar. Þær verpa vel, en únga ei vel út, og má brúka hænur til þess ad únga út andar eggjum. Heingæsir hafa vída verid hér á landi ádur, en nú er þad aflagt, þær segja menn eigi ad hafa skamtadann verd, og ei ofmikid, svo ad þær verdi ei offeitar, því þá verpa þær vindeggjum. Bædi gassinn og gásin vilja hafa vatn ad bada sig í,

þegar þau parast, því þau eru vatnsfuglar. Rófur, kál, jardepli, mjøl og hafrar er þeirra fædi. Þetta skrifar Barón Brauner.

# 19di Kapítuli.

## Atli spyr ad hrækvikindum ꝛc.

88. Atli. Fleiri kvikindi þarf eg á bæ mínum.

Bóndi. Ótaldir eru hundarnir, eru þeir þørf dýr og mønnum fylgisøm. Þad eru þrír hundar, sem gagn mega gjøra búi þínu, vardhundur, dýrhundur, fjárhundur. Þad er vardhundur edur húsvørdur, sem bædi vor landsløg og svo annara þjóda géta um, ad í hlekkjum eda bandi skuli geymast, hann ver fé manna fyri þjófum og ødrum kvikindum, og skal band hans ei lengra vera enn svo, ad hann nái ei til þeirra sem, inn vilja gánga í hús, þar sem hann er í seti bundinn, hann géltir ad ókunnum mønnum, en ekki kunnugum, þeir séu stórir, sterkir, grimmir og svartir á lit. Dýrhundar eda veidihundar veljist hvítir, lagdir á vori, og sídast um sinn; menn segja þeir séu betri géltir. Varro vill þeir hafi stór slapandi eyru, digrann svíra, hábeinóttir, útskeifir, díngli fætinum í gaungu nær þeir taka hann upp, dymmraddadir. Adalb. Tylkowski segir þeim fylgi hundur, sem géfur hønum mat atadann ;

sveita sínum. Veidihundi skal géfa blód úr dýri því, sem hann á ad veida, svo mætti hér géfa hønum refsblód, eins og nordmenn géfa þeim bjarnarblód. Fjárhundar venjizt úngir vid fé, þá verda þeir því meinlausari. Zincken segir ad hundaskinn sé rétt gott bædi til handskúa og fótskúa, þad er lækníng þrútnum óheilum høndum. Á hundum er hér nú ecki lagaverd, en Frostuþ: løg Magnúsar Kóngs, í kvennag: býdur þeim ad gjalda drottni hunds hálfa mørk, sem drepur veidihund og svo nautahund, en fyrir húsvord eyri, ef drepinn verdur. Grág: Hreppskilaþ: segir svo: ef ad hundur er bundinn fyri búi manns, eda búd eda stíu til vardar, þá ábyrgist sá sig, er í band hønum gengur, og svo þó sé gángi í band hønum ábyrgist sá ei er hund á. Ei skal hundur lengra bundinn vera, enn tveggja álna sé á milli staurs og helsis. Ef hundur er bundinn í seti, þá skal hann ei taka framm á stock ad bíta menn er gánga á gólfi.

89. Atli. Enn vantar konu mína køtt.

Bóndi. Ef mýs setjast ad hjá þér, þá er kattar vant; eins og Zincken segir, halda menn svarta og dockleita kétti besta, lagda í majo. Kattaskinn er metfé í løgbók vorri, en í fornum løgum vóru 2 freslíngaskinn eyrir. Kattar andi er óhollur, helzt børnum, og þó enn verra ef nockud af kattarhári fer ofaní mann. Hann leggur þad rád, ef kétti verdi ei heima haldid vid hús, ad gélda hann edur stýfa af eyrum hans, því hann þoli ei regndropa í eyrun, og helzt því vid hús, item hafi madur kattarskinn í fatafódri þreytist hestur fyrr undir hønum. Ad vatnssjúkir og þrútnir menn skuli hafa kattarskinn vid bert brjóst á sér, en møgrum mønnum

sé þad skadligt. Kattar feiti vermi og lini alla lidaverki.

90. Atli. Nú eru flest kvikindi talin, og hyrdi eg ecki um ad safna mér fleiri tegundum.

Bóndi. Þá mun þó refur koma óbodinn í landeign þína, en hann er óheilagur í hvørs manns landi Ab. 58 kap. Þú ert skyldur, eptir Løgréttumanna samþyckt 1680 ad veida einn melracka gamlann, edur 2 únga á 12 mánudum hvørjum, edur greida tvær álnir í mat fyrir fardaga. Hér veidast refir mest med bissu, dýrabogar leggjast mjøg af, sem er þó hægri veidur og kostnadar minni, en allra minst kostar þig, ad gjøra þér tóugildru, vidlíka og þú gétur séd hana uppá brúninni hér fyrir ofan bæinn, en hún er gjørd eptir forskrift nockurs gamalls Prests, sem gaf mér hana, og med því sá umbúningur er nú flestum ókéndur hér í grend, vil eg segja þér hana. Hún er þessi:

1) Gildran sé hladin á hellu eda grjót grundvelli, sem tóft eda kvíar, nockud lengri og hærri enn tóa kann ad vera, en svo þraung, ad tóa géti ecki snúid sér þar inni.
2) Í gafli midjum standi tréhæll afsleppur ad nedan verdu.
3) Sídan er byggt yfir þessa tóft med grjóti svo þad hlad hafi hæd sjálfrar jardarinnar.
4) Innar vid gaflinn skal vera svo mikid op, ad þar verdi bædi nád inn til ad egna, og líka ad veidin megi þar út takast, ef á þarf ad halda.
5) Strengur med lyckju á endanum, smockadur á hælinn liggur svo upp úr þessu opi, yfir áminstu grjóthladi, allt til dyra: þar er krossbundin

hella, (eda med gati) í haus ødrum enda, sem til ætlad er ad nidur detti, og því skal grjót-hladid vera svo þyckt, sem hæd hellunnar verdur ad vera.

6) Fyri framan dyrnar standi falliga kantadir steinar sinn hvørju meginn, svo lángt frá, ad hellan hafi nóga þrøm, eda pláts til ad falla ímillum þeirra og gildru veggjanna, en fyrir ofan lyck-juna á hælnum hángir agnbitinn á annari lyckju, svo tilætlad er ad tóa kippi strengnum framm af undir eins og agninu.

7) Þegar gildran er tvídyrud, þá er sín hella vid hvørn enda, eins og fyrr segir um þá eindyrudu, en agnhællinn í midjum vegg annarar hvørrar lánghlidar, og á hønum bádir hellu streing-irnir.

8) Líkligt er ad tóur séu óvarari vid þá tvídyrudu. Lokfins er agnopid med grjóti byrgt, og allt látid verda sem líkast náttúrligu grjótholti.

Þetta er forskriftin. Strøms Søndmørs Be-skrivelse, tom. 1, kap. 7, pag. 392, segir ad Sunnmærir bindi skinnreim um háls á lømbum, sem sé smurt med samanblandadri tjøru vid púdur, þá lygt fælist refur. Bomare segir þad vera besta refasmýrsl á agn og boga: gjæsafeiti, hestatad, fíólurót, laukur, kamfóra, med þessu megi smyrja allann bogann. Refs-feiti mýkir, hún er gód ad smyrja med sinar, hún leysir upp og læknar fótaverk, kreppu og hnúta.

**91. Atki.** Gjarnan vil eg rád vita, hvernin eg megi eyda øllum þeim kvikindum, sem mig ángra.

Bóndi. Mýs og madkar, og fleiri smákvikindi munu taka sér húsrúm hjá þér ordlofslaust. Það er kéttinum ætlad ad reka mýs úr húsum þínum, undir lífsstraff, en dugi hann ecki því embætti, þá eydir þú þeim med músafellu eda músagildru; þycki þér þetta friðsama dýr samt ecki eydast nóg, þá géfur Zincken þetta ráð: menn taki smátt sigtad gips, og blandi því saman vid smárifinn gamlan ost, þegar mýs eta þaraf, verdur gipsid steinhardt innan í þeim, helzt þegar þær drecka þar á eptir, svo þær drepast þaraf, menn kunna líka ad taka samanblandad mél, ostmylsnu og óslokid kalk, og setja þar hjá grunt vatnskér. Þegar kalkid fer fyrst ad brenna þær innan, þyrstir þær og drecka, en vid þad vex hitinn svo þær drepast. Það er enn ráð ad brenna hesthóf i húsi, þá flýja þær þadan strax, sama er ef menn brenna mús eda volsku, þá flýja þær þann reyk. Stundum hreidra sig mýs í ull á lifandi saudfé, en þad er þá gáleysi smalamanns og hans skuld, ef fé drepst af því, sem hættast er vid á lombum í húsum inni, þarvid er gott ráð þad, sem ádur er skrifad (Num. 79.) helzt tóbaks lagar badid. Mold úr lundaholum segja menn mýs þoli ecki, hana fá sér landmenn úr lundaeyum, til ad dreifa yfir þad, sem mýs mega ei ad koma, mun sú meining komin af því, ad lundi og mús sjást aldrei í somu ey. Molur mun þér óþeckur í fatnadi þínum, honum verdur líka óþeck vistin hjá þér, ef þú reykir brennistein í húsum þínum, tóbaks reyk vill hann ecki heldur, og eckért af því sem rádid var ad reykja í fjárhúsum: járnsmidir vilja þad ecki heldur (Num. 79.) Madkaflugur, galdraflugur ꝛc. safnast mjog ad íláti því, sem opid stendur úti med nockrum

saltpækli, af einhvørjum saltmati, helzt þegar hann fer ad fúlna, þar drepast þær nidri í þúsundum saman, en þegar svo er ordid þyckt ad þær kafna þar ei lengur, má taka þessa viðbjódsligu veidi íburtu, safnast þá þángad aptur, svo lengi sem tilvinst. Til ad verja sig lúsum taka menn løg eda saft úr høfudlauk, káli edur sinepi (mustardi) med hunángi og gjora smýrsl af, þad verkar betur, ef tóbaks løgur er þar saman vid; item tak svarta útreykta pípu tóbaks manna, mel hana til þess hún verdur ad smærsta dufti, gjor þaraf smýrsl med gømlu smjori, med því ad láta lítid sjóda saman. Ljósgrænn hardur leir fæst hér vestra á Saltarfjørum og í Kollafirdi, þann leir þola eingin insecta (skorkvikindi,) þau drepast strax sem þau snerta hann. Þessi leir sýdur ecként í skeidvatni.

## 20ti. Kapítuli.

### Atli sækir hreppskilaþing.

92. Atli. Lángt er nú sídan vid høfum fundist, hefi eg fordast frátafir ámedan slátturinn stód yfir, enda hefi eg nú ecki nockurn blett ljáberandi eptir. Hvad liggur nú fyrir af haustverkum?

Bóndi. Nú safnardu því sem þú fær til áburdar túni þínu, þú þéttir hús þín, og hvør stund sem þér

verdur afgángs henni, ver þú til túngardsins, og því heldur þú framm eptir vetri, svo lengi sem jord er þýd, en einusaman grjóti gétur þú hladid á þela.

93. Atli. Þarf eg ad sækja hreppskila þing?

Bóndi. Þad áttu ad sækja, og segja þar hreppstjórum til bygdar þinnar, þú segir þeim ad þú gjörir einga lausafjártíund þessi missiri, fyrst þú átt eckért fé. Nýbýli þitt þurfir þú ecki ad tíunda, manneldi géfir þú eckért, enda munir þú ecki matar beidast af hreppnúm, matgjafir látir þú til verda, edur hýsir einhvørn fátækann hreppsmann, þann sem hreppstjórar vilja, 3 nætur, fyrst þú hefur 3 menn á fædi, yckur hjón og vinnustúlkuna, nema kona þín sé ólétt, þá géldur þú ad eins tvennar matgjafir, því hún fastar þá ecki, né géfur út verd sinn í því skyni.

94. Atli. Þarf eg þá eingann mann ad hýsa framar?

Bóndi. Kóngurinn géfur þig fríann frá skulda útsvari, en ecki frá almenniligum kjærleika, og hann áttu ad sýna vegfarendum í naudsýn þeirra; verdur þú eins sekur og adrir menn, ef ad þú úthýsir nockrum í vondu vedri, og fær hann mein edur bana.

95. Atli. Þegar eg blessast svo, ad eg er kominn í 5 hundrada tíund, hvad mikid á eg þá ad gjalda?

Bóndi. Þú géldur eyris tíund, þad er 3 fiskar hvørjum tíundatakara, sem er Kóngur, Kyrkja, Prestur og Fátækir.

Þú géldur gjaftoll af 5 hundrudum 5 álnir.

Þú géldur løgmanns toll af fé þínu 1 fisk, og af ábýli 2 fiska, ef þú býr þar einn, annars ei nema 1 fisk.

Þú géldur ljóstoll kyrkju, 10 merkur mørs.

Þú fódrar lamb fyri Prest.

Þú géldur fátækum, auk fjórdúngs tíundar, matgjafir, það er málsverdur fyri hvørn mann á bæ þínum, þann sem gengur til Guðsborðs og er eldri enn 12 vetra, ýngri enn sjøtugur, nema kona sé þúngud, hafi barn á brjósti. Þessir menn fasta, er þeir gánga til altaris, og á bænadaginn, fjórda føstudag eptir Páska, það eru 3 máltídir fyri hvørn mann á ári. Þann mat áttu ad greida fátækum, eptir hreppstjóra skipan, sem fólk þitt myndi etid hafa á þessum døgum.

Þegar fátækra fé vinst þeim ei til fædis, þá verda þó hreppsmenn ad fæda þá, kallast það manneldi, og áttu því ad svara eptir tiltølu, og Hreppstjóra skipan N. B. H. Kóngs 1305. Dýratollur er 2 álnir, sem þú átt ad gjalda. (Num. 89.)

---

# 21^ti Kapituli.

## Atla fædist barn.

96. Atli. Þú veitst bóndi, hvad tímum lídur, nú er komin góe, og því mun þér ecki þyckja ólíklig saga

mín; hún Arnbjørg mín ól barn í gjærdag, þad er sveinn, og þykir mér vænt um, sem þú munt nærri géta.

Bónda. Það er góð saga, lof sé Gudi, vel sé Kónginum, føðurlandinu, og yckur foreldrum barnsins, þid hafid vel aflad, búslu svo vid, ad vel þurfi ad geyma.

97. Atli. Ecki ætla eg mér ad bera barnid út, eg ætla því mjólksopa, þegar eg fæ hann úr kúnni.

Bóndi. Eg læt mér skiljast, hvørninn þú ætlar ad byrja barnfóstrid, og er þitt rád hid skynsamligasta ef ala skyldi kálf, til ad verda vænt naut, en fyrst barn þitt er madur af manni borinn, þá heyrir því til þad fædi, sem náttúrunnar herra hefar ætlad því til frammfæris í móðurbrjósti, og máttu géta því nærri, ad barninu, sem hefur nærst af móðurinni síðan þad var gétid, muni hentugri vera hennar mjólk, enn svo ólíkrar sképnu ad øllu edli, sem kýrin er. Menn meina skynsamliga, ad edli barnsins, já sérhvørrar úngrar nýfæddrar sképnu lagist mjøg eptir edli þeirrar fyrstu fædu, sem þad fær, svo sem til dæmis, ad lamb verdur stýfshærdara, ef því er jafnan géfin nauta edur geita mjólk, og þarámóti kálfar og kidlingar mjúkhærdari af saudamjólkur eldi, en eg þykist vita ad þú vilt barn þitt líkist meir módur sinni, enn kúnni þinni.

98. Atli. Ecki gétur hún Arnbjørg mín haft barn á brjósti, hún hefur svo margt ad annast, þad gjøra hér ecki heldur margar konur.

Bóndi. Því er verr, ad þetta er satt sem þú sagdir, ad ecki margar konur hafa hér barn á brjósti, þó eru þær nockrar, og eru þeirra børn audþeckt af betri þrifum enn hinna, sem fædast á mjólk annars dýra

kyns; þú ert því sællri og frjálsari sem þú getur betur séð þig við því að rekast fyrir straumi annara manna illrar siðvenju, en í þess stað fylgir skynsemi og hollum ráðum, helzt í svo markverðum hlut, sem snertir velferð og heilsu barna þinna. Hvað það hið fyrra snertir, sem þú barst fyri þig, að kona þín gjæti ei haft barn á brjósti, vegna eljunar hennar og anna, þá veistu að þetta gjöra þó konur annara einvirkja, og hafa gjört tilforna, fært börn með sér til engiverka og annarar utanbæar vinnu, borið þau annaðhvört á baki eður í kiltíngi með sér hvört sem þær fóru. Þetta hefur víst aukið þeim mæðu, sem von er, því fáheyrt er það að barn alist vel upp fyrirutan mæðu móðurinnar: en ávöxtur þessara mæðra hefur þeim sjaldan brugðist, sem er sá, að ást til mæðranna hafa þessi brjóstborn inndrukkið með móðurmjólkinni, sem hefur svo nákvæmar sastir við eðli barnsins og móðurinnar beggja saman, en hin mjólkin er því ólík, sem skynlausar skepnur gefa, já þó önnur kona gæfi barninu að sjúga sig enn móðir þess, þá er það ecki nærri því sem sama sé, og þó betra kallandi enn búsmalans.

99. Atli. Þetta gjöra þó flestar konur, ockur konu minni er ecki vandara enn þeim.

Bóndi. Þessa afsökun hefur þú inndruckið með nautamjólkinni, heyri eg það, að þú vilt ecki gjöra þér vandara enn nockrum öðrum manni í sínum óvana, það er með öðrum orðum að segja, þú villt fylgja annara manna dæmum hvört þau eru góð eður ill, ef að þau eru aðeins auðnæm og auðveld. Þegar Guð útmálar fyri Jeremias Spámann ólucku Gyðínga, segir hann: að húngrið myndi gjöra mæðurnar svo miskunarlausar, að

þær myndu ei gèfa bornuum að sjúga sig. Harmagr. 4, 3: Drekarnir rètta brjóstin að úngum sínum, og gèfa þeim að sjúga, en dóttirin míns fólks hlýtur að vera miskunarlaus, eins og strútsfugl á eyðimorku. Heilog Ritníng gétur þess víða, að Gyðínga konur høfðu barn á brjósti, og margir lærðir menn hafa skrifað um það hvað hollt það væri bæði fyri barnið og svo móðurina, ámeðal þeirra er Joh. Sam. Carl, Greifans af Isenburg hoflæknari, í bæklíngi sínum „Von Säug Ammen,“ hann telur það fyrst til, að øll annarlig mjólk sé børnum óhollari enn mæðranna. 2) Mæðurnar séu morgum sjúkleikum undirorpnar vegna þess að mjólkurvegirnir til brjóstanna teppist, og mjólkin þryckist með valdi aptur inn til líkamans, hvarvið náttúrunnar eðli hindrast. Það mega allir skilja, að það sé ámóti Guðs og náttúrunnar reglu að móðurin synji barninu sinnar brjóstamjólkur, misþir hún líka þarfyrir opt heilsu sína, og ást barnsins. Steph. Gvazzius skrifar svo: *) að þess vegna verði margir ættlerar á Fracklandi, að franskar konur ali børn á mjólk skynlausra dýra. Hann segir frá því, að þó hústrú Catonis hafi alið born sín á brjósti, þá hafi hún stundum lofað børnum ambátta sinna að sjúga sig, og þarfyrir hafi auk barnanna hennar sjálfrar, allir þrælar í húsinu elskað hana. Sami Gvazz ritar og þessa søgu: Ungur maður fridluborinn af fyrifólki í Rómaborg, kom nockru sinni heim úr stríði, vellauðugur orðinn af miklu herfángi; hønum mættu móðir hans og fóstra hans; strax gaf hann móður sinni

*) De conversatione civili.

silfurbaug, en fóstru sinni gaf hann gullmen; þegar nú módurin kvartadi um þad, ad sonurinn skipti illa vid sig, svaradi hann: umkvørtun þín er óréttvís, þad var ecki nema níu mánadir, sem þú barst mig í þínu lífi, en fóstra mín ól mig á brjósti sínu heil 2 ár; líkamann hefi eg ad sønnu af þér med litlum sóma, en allt, hvad þessi hefur vid mig gjørt, er framkomid af hreinni elsku. Þú sviptir mig øllu samneyti þínu strax sem eg var fæddur, og rakst mig frá augum þér, en þegar eg var svo munadarlaus, tók þessi mig sér í skaut, og kom mér til þess þroska, sem þú á mér sér.

100. Atli. Þú munt vilja ad allar konur hafi barn á brjóstum.

Bóndi. Fjærri fer því. Þegar kona er skapvargur og offafull i sinnisins hræríngum, hvørjar helst sem eru, þá er mjólk hennar óholl, helst strax eptir hvørja skorpu; sé hún þúnglynd og fúllynd, edur hafi hún nockurn erfda sjúkleik, jafnvel þó hann gjøri enn þá ecki vart vid sig, þá skyldi slík kona aldrei géfa barni brjóst, og ecki heldur tiggja í barn, svo þad renni ei nidur hennar munnvatni med matartuggunni, þad skyldu ei heldur gjøra brjóstveikar kérlíngar, af sømu røkum, því allt þetta er ólifjan í úngbarns maga. Lángtum minni illsku ógéd og óheilindi verkar búsmala mjólkin, og er þad betra, ad barnid hafi minni skilníng, og minni lesti, enn hvørt tveggja meira, sem þó er líkligt af illrar módur mjólk.

101. Atli. Þá verdur ad taka nautamjólk, er konumjólk er vond.

Bóndi. Svo verdur þad ad vera; hafi kona þín einhvørja ádur talda bresti, sem Arnbjørg mun þó ecki hafa, þá géfdu barni þínu mjólk úr úngri kú, mein-

lausri, þrifgóðri, nýkélfdri, en ecki gamallri, ecki mann-ýgri, ecki þeirri sem einhvør óþrif er í, og allrasízt þeirri sem leikur á ridli. Þó nú þessi kúamjólk sé góð, sem eg rédi þér ad velja, þá máttu samt skilja, ad þegar heilbrygd kona dreckur hana, og þessi heilnæmi løgur hreinsast og klárast enn betur í mjólkurædum konunnar, þá verdur hann því betri, tærari og barninu hollari.

102. Atli. Ecki mun allt undir því komid ad barnid fái góda mjólk, fleira vantar enn.

Bóndi. Módirin verdur ad þrífa barnid, hún laugar þad fyrst í volgu vatni, sídan smámsaman kald-ara, og seinast í køldu, já úti í rennandi vatni edur sjó á hlýum sumardegi, þegar barnid er farid ad stálp-ast, þá verdur þad sídan hraustara og óhjartkælt, og þolir betur vosbúd. Fordast á hún ad klæda þad í þraung føt, ámedan þad er úngt, og sízt má þrengja ad lidamótum þess. Gott er þad venjist sem fyrst vid ad þola kulda, vætu, og líka nockurn sult endur og sinn-um, helzt ef þad er sveinn, sem þetta þitt barn. Upp frá því þad er 6 vetra, er betra þad eti aldrei fyrr enn þad verdur svángt, og drecki aldrei fyrr enn þad þyrstir. Allir þeir leikar, sem æfa vel líkamann, og hvørki er hásti vid né neitt lastverdt, eru drengjum gódir ad ødru hvørju.

---

# 22ar Kapituli.

## Atla fædast fleiri børn.

103. Atli. Lángt er nú sídan fundum ockar hefur samanborid, gét eg nú sagt þér þad, bóndi! ad eg hefi reynt rád þín og hafa mér ad gódu ordid, jørd mín er nú vel ræktud ordin, og bæti eg hana þó árliga, enda ydrar mig aldrei þess er eg hefi á henni bjástrad, þó ørdugt gengi framanaf, því nú sem komid er, hefi eg allt nóg hvad eg vidþarf.

Bóndi. Njóttu heill handa, eg samfagna þér, ad þú uppskér nú ávørt þíns erfidis, þú munt þó enn betur reyna héreptir hvad fost og óhvikul gjæfa þad er, ad hafa svo vel unnid sér og børnum sínum í haginn.

104. Atli. Børnum sínum, segirdu, já ef eg ætti ecki nema elzta drenginn minn einn, þá gjæti hann lifad eptir mig á Konúngsstødum, sem nú eru ræktadir til gagns, hann er nú lika kominn til vika; en eg er meiri mótlætismadur heldur enn þú veitst, børnin hafa verid árliga ad hladast á mig, eg á nú 6 børn, 4 drengi og 2 stúlkur, feiginn yrdi eg ef Gud tæki þau af mér annadhvørt í bólunni edur odruvísi, en eg fæ ecki svo gott, ad þau deyi.

Bóndi. Ecki kalla eg þig mótlætismann fyri þad, þó þú eigir 6 børn, heldur gróda og gjæfumann, en þad er røm ógjæfa þín, ad þú þeckir ecki þann velgjørníng Guds, sem hann veitir þér í barnaláninu; þú óskar børnum þínum dauda, en þeirra líf ætti þér ad

vera eins kjært og þitt eigid líf. Gud virdti þad vel fyri Salomoni, ad hann bad ecki um líflát fjandmanna sinna, en hugadu hvad íllt þad muni virdast þér fyri Gudi, ad þú árnar bornum þínum feigdar; þaradauki er þad alltid synd, ad óska odrum dauda, já, þad er fyrsta trappa til manndráps, ad vilja mann feigann; þad hefur hendt vestu glæpamenn og heidingja ad þeir hafa borid út born sín, og þó var þad haldid íllvirki hjá þeim heidingjum, sem mannúdligri vóru, kom þad af vantrú, leti edur grimd. Nú hefur vantrú um Guds forsjón yfir frammfæri barnanna gétid þennann þánka vid vilja þínum, og findist nockursstadar myrdt edur útborid barn, þá hafa menn meiri orsok ad drótta þann glæp ad þér enn odrum, sem ecki hafa látid slík ord af sér heyra. Þad er audrádid, þú hefur fengid þér konu til munadarlífis, en ecki til ad afla barna; og eiga born þín litid ad þacka þér fadernid, fyrst þú ert á móti vilja þínum ordinn fadir þeirra, því þú hefdir aldrei barn átt, hefdir þú mátt ráda.

105. Atli. Þad er von ad ríkismenn vilji ad born sín lifi, en eg er fátækur, því yrdi eg fegin ad Gud létti þeim á mér.

Bóndi. Víst er þess von ad ríkismenn vilji ad born sín lifi, en oll er hin sama von á fátækum, því blódskyldan ásamt med náttúrligri dygd og rækt hefur eins stad hjá fátækum sem ríkum, þú ert ecki heldur í þeirra tolu, sem ecki géta fædt born sín, og er manndygdar og ræktarleysi þitt því svívirdiligra, sem svo litla ást hefur á afkvæmi þínu. Vor Frelsari spáir Gydingum, ad þeir dagar skyldu koma yfir þá, ad þeir myndu segja: sælar eru óbyrjur, og þeir kvidir, sem ei hafa

fædt, og þau brjóst, sem ei vóru mylkt. Þetta kom þá framm er Guðs reiði tortýndi Jerusalem, á þeim sama tíma sem mæðurnar slátruðu bornum sínum og áttu þau, þá sögðu þeir veslu Gydíngar fjöllunum fallið yfir oss, þeir vildu heldur liggja sundurmarðir undir fjallskriðum, enn bera þá ólucku, sem á þeim lá; og var þetta merki til þess, hvorsu að beiskustu hormúngar gêta slökt þann kjærleika, sem náttúrunni er viðkvæmastur; en þú vilt dauða barna þinna á bestu friðar tíð, þegar þér gengur allt að óskum, nema það, að hún Arnbjörg þín er ecki óbyrja.

106. Atli. Eg veit ecki hvað verður af börnunum, þó þau lifi, en þau eru best komin í himnaríki.

Bóndi. Mikill trúmaður gjörist þú nú, að þú vilt strax senda born þín upp í himininn; en þetta er yfirvarp, því að i réttri raun er þér það innann brjósts að börnin eti ei af því, sem Guð gêfur þér, þessi þín hræðni gêtur þó ecki náð útyfir ræktarleysi þitt, svo það hyljist, fyrst þú unnir ecki bornum þínum lífs, vegna þess þú þarft að klæða þau og fæða, svo lætur þú, sem þú girnist þeirra sáluhjálp, einasta af því, þau eta þá ecki frá þér, en þyrftir þú að fæða þau á himni, þá myndir þú sá þeim annarstaðar dvöl. Það er satt, að allir menn, og börnin líka, eru best komnir í himnaríki, en þá eyðist veröldin, ef öll born deya, og þeir byggja lönd sem lifa, þeir lofa Drottinn, þeir þiggja og þacka Guðs velgjörnínga, þeir stríða og yfirvinna hið ílla. Þessvegna viltu ecki óska þínum elzta syni dauða, að hann fái himnavist sem hin börnin, að þú elskar hann meir enn þau, og er þaraf auðráðið, að þú heldur ecki svo mikið af himnavistinni í þeli niðri, sem þú lætur,

fyrst þú vilt þann drenginn þinn sízt þángað kominn, sem þér þykir vænst um, og þú trúir betur Konúngsstóðum að fæða hann einn, enn Guði, að gefa þér frammfæri fyri 6 börn: þín börn eru þér öll jafnskyld, bið þú Guð að ala önn fyri þeim öllum, og trúðu því hann sendi brauð með barni, fyrst hann gaf þeim lífið, muni hann gefa þeim fæðu, fyrst hann gaf þeim líkama, muni hann gefa þeim fatnað, og gleðstu í voninni, að í elli þinni munir þú sýngja af eigin reynslu: sæll er sá mann, þeim gefur Guð, góðann fjölda barna.

107. Atli. Ef þú vissir, hvað eptirlátur mér er elzti drengurinn, þá myndir þú ecki lá mér, þó eg vilji sízt missa hann.

Bóndi. Von er þess, að hlýðið barn nái mestri elsku foreldranna, en þó eru þau þér öll eins skyld, og hlýðin kunna hin að vera, þó þér falli best gèðslag eins þeirra. Ecki væri veröldin velbygð, ef allir menn væri eins gèðjaðir, þó einhvör sona þinna sé þér mjög ólíkur, þá kann hann að vera líkur öðrum, eins góðum manni sem þú ert; aldrei verður það affakað, að foreldrar gjöri sér olboga börn, einginn maður er til allra hluta velhæfur, og einginn óhæfur til alls, og ské má, að eptirlætis sonur þinn sé ecki gott bónda efni til Konúngsstaða.

108. Atli. Eg ætla að gèfa gaum að gèðslagi þeirra, þegar þeir eldast, mun eg þá segja þér frá því.

Bóndi. Því máttu ráða, vel verði þér og þeim!

# 23ᵗ Kapituli.

## Gedslag þeirra Atlasona.

109. Atli. Nú eru synir mínir farnir ad vara, og sé eg þad nú á þeim, ad þeir verda ecki lyndis líkir, ætla eg enn sem fyrr þeim elzta ad búa eptir mig á Konúngsstodum, en hinir verda þá ad leita fyri sér annarstadar.

Bóndi. Því viltu heldur hann búi þar eptir þig enn hinir? eda hvørninn er hann lyndur?

110. Atli. Hann er svo vel lyndur, ad allir unna hønum, hann er sífelliga gladur, þegar hann sér ad vel liggur á mér, leikur hann á als oddi, en grætur ef hann veit eitthvad gánga ad mér. Þó hann ætli sér aldrei svo frekliga eitthvad í kvøld, gildir hann einu á morgun, ef hann veit eg vil annad: hann er medaumkunarsamur vid alla, sem eitthvad amar ad: hann lagar sig eptir allra manna gédi, sem hann þeckir, og eins þeirra sinnis umbreytíngum: hann þjáir sig ecki med ad hura lengi um nockurn hlut, þad sem hønum kémur fyrst í hug er hans besta rád og því fylgir hann. Sælgjæti og selskapur er hans yndi.

Bóndi. Vel segir þú af þessum ýngismanni, en ecki er hønum hentug vist á Konúngstodum, sú jørd liggur mjøg afsídis frá ødrum mønnum, og er þad hans mestu leidindi og hálfur daudi, ad vera í fámenni, þar gjætir ecki hans náttúrligu kosta, nema til þess ad gjøra

ógjæfu hans þeckjanligri, því þegar hann eyrir ecki, fyrir óyndi, ad sitja yfir jafnligu búhnauki í einbýli sínu og fámenni, verdur hann haldinn laussinna og ónytjúngur, en géfir þú honum ráð og leyfi ad koma sér í þjónustu ædri manna, ellegar til kaupmanna, til ad læra kaupshøndlan, þá er honum opinn lángtum gjæfuvænligri vegur, já hann er allstadar velkominn nema í einsetu, og fámenni, helzt nú í úngdæmi hans.

111. Atli. Þá er nærsti bródir hans ødruvísi, hann er hardgédja, rádríkur, svo hann eyrir eingu nema þad gángi framm sem hann vill, og sparar hann hvorki illt né gott til þess, hann er orlátur og besti vinur vina sinna, brádlyndur er hann, en sáttfús aptur; aldrei kémur þad ad honum, ad menn sjái honum bloskra, enda sér ei fagnad á honum, þótt honum gángi í vil.

Bóndi. Þessi annar sonur þinn er líka gott manns efni, þegar hann eldist og stillist, hann er þar sér og odrum þarfur, sem hann hefur eptir mannvirdíng ad sækja, og þó á hann mesta frama von vid strídsstandid, ef Kóngurinn stiftar þad hér í landi, og þar er hann betur kominn, enn ad vera Konúngstada bóndi, og þar máské midlúngi vinsæll.

112. Atli. Þridji bródirinn er þeim bádum ólíkur, hann er þogull og óþýdur, athugasamur, hollur þeim sem honum er vel til, en heiptrækinn vid hina, hann kvídir þar øllu fyrirframm, sem einginn hásti er, en þá eingu, er hættan er mest fyri augum. Hann er seinn á sér ad byrja nockud, en kappsamur er hann kémur til, og þrautgódur í erfidi.

Bóndi. Oskémtilig verdur gistíng og vist á Konúngstodum, ef þessi býr þar, honum er vandfengin kona,

og líka eru fáar konur hönum velgiftar, má hann vel ógiftur vera, og nú er hönum gott ad koma sér á fiskiduggur, edur adrar sjóferdir ímillum landa. Umbreytíngar eru hönum eins naudsýnligar, sem hinum elzta fjölmenni og selskapur. Hann gétur vel lært stýrimannskonst, og þá er hann vel kominn, verdi hann stýrimadur á hafskipum.

113. Atli. Fjórdi og ýngsti sonur minn, er eptirlætid módur sinnar, hann kom undir hardindis árid, þegar eg sá ei annad fyrir, enn eg mundi bregda búi. Hann er svo stiltur og spakur, eins og hann væri örvasa karl, hann vill aldrei leika sér, nema lítid uppá palli hjá módur sinni. Hann géfur sig ekkért ad þó brædur hans hædi hann eda hvad helzt íllt þeir gjöra honum, ef ad þeir lofa hönum ad vera kyrrum, og hann kénnir ecki til. Hann þolir allt vel nema sult, og idnari er hann vid allt erfidi, sem hann má lengi seiglast vid, enn hvör hinna brædranna.

Bóndi. Þessi er bónda efnid til Konúngstada. Hann hefur lært adferd þína í búsháttum, og þeirri sömu fylgir hann, þú skyldir koma brædrum hans burtu frá hönum ádur enn hann tekur vid búi, og útvegadu honum dugliga konu, sem hvetji hann til frammkvæmda, og sama gjöri þid foreldrar hans, sem verdid til húsa hjá hönum í elli yckar, þá er vel fyrir hönum séd, og ské má, ad þar verdi þín ættsæld ei minni enn hjá hinum brædra hans, sem ödrum kunna ad sýnast vænnri á velli.

114. Atli. Dætur mínar tvær eru líkar elztu brædrunum.

Bóndi. Þú skyldir gifta þær strax. Géfdu þá sem lík er þeim fyrsta, þeim manni, sem líkur er þeim ødrum í tølu sona þinna, en hina, sem lík er þeim ødrum, slíkum manni, sem líkur er þeim sídasta þeirra, sé hann ad ætt og efnum henni meir en jafnbodinn, þá unir hún vel hag sínum.

115. Atli. Vandkosid er á þessi kjør fyri hvort barna minna.

Bóndi. Það er satt, kjør manna eru í Guds hendi, en þó ráda foreldrar fyrir því, hvad bornin leggja fyrir sig fyrst, sem er opt undirbúníngur þeirra lucku edur ólucku, einkanliga skyldir þú fordast ad troda børnum þínum til þess, sem fjarlægt er þeirra sinnislagi, og þau hafa náttúrliga óbeit á, því þar gétur madur best þjónad Gudi og svo fødurlandinu, sem hann er hneigdastur til, og þá er hann bædi sér og ødrum þarfastur, er hann má það gott gjøra, sem honum er ljóstugast.

116. Atli. Eg vildi þeir væri kyrrir í fødurlandinu, þad þyki mér þeim best hæfa; en valt er á þad ad ætla, ef eg fylgi þínum rádum. Mér þykir þad brjál, ad svo margir sígla, og ílengjast annarstadar, hvar frændur þeirra hafa eckért gott af þeim.

Bóndi. Þessara orda er mér þadan von, sem þú ert, og svo vill hvor gódur madur, undir svo gódri og mildri stjórn, sem vér búum vid. Þad er synd og glæpur ad yfirgéfa fødurlandid, nema sá leysi er ríkjum rædur, eda stór naudsýn reki mann burtu, og eiga slíkir menn ecki landvært, nema þeir fái fyrirgéfning síns glæps, þá hid fyrsta verda þeir fridhelgir, og varadu børn þín vid því.

117. Atli. Hvad er þetta? siglir ecki margur ærligur madur, og kémur aptur med sóma til fødurlandsins, þegar hann vill?

Bóndi. Kóngur leyfir þad morgum, sem hafa ýms eyrindi, og kallar þá aptur, þegar hann vill; en eg skil af þessari þinni spurníngu ad þú heldur fjorumálid íkríngum Ísland ummerki þíns fødurlands.

118. Atli. Svo er þad, eg held Ísland, en ecki ønnur lønd fyri mitt fødurland, því hér bjó fadir minn, og hér er eg fæddur.

Bóndi. Kóngurinn er landsins fadir, ámedan þú ert einhvørsstadar í þeim londum, sem undir hans ríki eru, þá ertu í þínu fødurlandi. Øll ríki Dana Kóngs eru álítandi sem einn líkami, enn þú ert þess líkama limur. Kóngur heldur þér vid sama laga frelsi sem ødrum þegnum sínum, og leggja øll ríkin styrk sinn til þess ad verja þitt frelsi, sem hvørs annars undirsáta; þartil þarf mikid herlid, en kostnadur fyri því liggur á øllum ríkjunum og áttu þartil ad styrkja eptir tiltølu vid adra þína líka. Þú fæddist til þessa réttar, sem hvør limur hins borgarliga líkama nýtur og vid hann ertu bundinn alla æfi þína, þú ert med øllum varnadi þínum fridhelgur í ríki Dana Kóngs, hann lætur bæta þér, ef þér er misþirmt, og líka tekur hann sjálfur bætur, ef þú mætir ófkunda vegna þess réttar, sem hann á þér á, verdir þú drepinn þá hefnir hann þíns blóds, og tekur fé veganda í bætur fyri þegn sinn, sem hann misti. Þú ert skyldur ad verja fé og fjørvi fødurlandinu til varnar, og hvør þess limur er skyldur ad gjøra hid sama. Héraf sérdu, hvør skømm þad er ad strjúka til Franskra, Enskra, Hollenzkra, sem hleypa hér

inn á hafnir, en yfirgéfa sinn Erfdaherra og Kóng, og hafi Kóngur vor þá stríd vid þá þjód, sem einn strikur til, þá er þad æruleysi og Drottins svik. Segdu sonum þínum, ad þad sé þeirra skylda, þeirra frami, sómi og gagn ad mentast sem best fodurlandinu eda þeim borgarliga líkama til þarfa, í hvörju helzt standi sem þeim er hentast og þeir eru hæfastir til, hvar helzt sem vera kann undir sonu landstjórn, því þeirra fodurland er ecki grjót edar grundmosar eda mýrar hér á landi, heldur þad samband, sem er ámillum allra manna í Danmerkur ríki (civitas, res publica.) Þessa meiníng um fodurlandid má finna Jer. 29, 7. Leitid fridar þeirri borg, til hvorrar eg lét burtleida ydur, og bidjid fyrir henni til Drottins, því þegar hún hefur frid, þá skulu þér og svo frid hafa. Hér má sjá, ad Gydíngar áttu ad álíta Bebel fyri sitt fodurland, fyrst þeir vóru komnir undir þess lands Kóng, en þeirra eigid fodurland eda ríkisstjórn var til grunna gengin.

119. Atli. Margir menn, sem ecki hafa meiri efni enn eg, láta kénna bornum sínum látínu, og koma þeim í skóla, lítst þér ecki ad eg reyni til vid einhvorn drenginn minn, ad gjora eins vid hann?

Bóndi. Ef ad þú a) veitst ad nockur sona þinna, hafi meir enn almenniligar gáfur til lærdóms. b) Ef þú veitst edur sér líkindi til þess, ad hann muni verda fyrir þennann lærdóm betri madur og þarfari sér og þér og fodurlandinu. c) Ef þú veitst hann hefur lyst og stoduglyndi til bóknáms, en ecki til sjálfrædis og idjuleysis, sem hann væntir sér (máské) þegar hann er ordinn skólapiltur, og sídan stúdent. d) Ef þú hefur svo gódann fjárhag, ad þú þurfir ecki ad draga frá ödrum

hans systkynum, svo þau missi þarfyrir nockud þad, sem þeim er naudsýnligra til mønnunar enn hønum er látínan. Nú þyki mér líkligt, ad þú munir ei kunna ad dæma um lunderni og enn sídur námsgáfur barns þíns, því ræd eg þér, ad fá son þinn í hendur einhvørjum lærdum og skynsømum manni, sem reyni hann um stund, ef hann rádleggur þér þá ad setja hann til bóka, svo fylgdu hans rádum, ef þú hefur efni nóg; eg let þig ecki.

# 24di Kapítuli.

## Atli verdur Hreppstjóri.

120. Atli. Nú er svo komid, ad Prestur og Hreppstjórar vilja kalla mig til Hreppstjóra, en eg vil komast hjá því, vegna þess ad Hreppstjórar hafa ómak mikid og átølur annara bænda, en eingin laun.

Bóndi. Ecki tjáir þér undan ad skorast, og líka er þér þarmed sóma leitad, því húsaga forordn. af 3ja Junii 1746, 35 art. skipar, ad til Hreppstjóra skuli héreptir útveljast þeir gudhræddustu, duganligustu, og forstanduguslu bændur í sókninni, hvørjir í øllum ærligum samkomum, eins og medhjálpararnir, skuli metast og virdast framar ødrum bændum í sókninni. Þar í sama stad er þeim líka launum lofad, sem er þrid-

júngur allra þeirra bóta, sem þessi forordníng uppáleggur, og verdur þad þeim gódur styrkur, ef þeir forsóma ecki ad gánga þareptir, líka bótum fyri foragt þeirra stickana; þad má vera hér iduglig sévon fyrst í stad, og sídan meiri virding enn ádur.

121. Atli. Hvad á eg þá ad gjøra í Hreppstjórninni?

Bóndi. Þú átt ad hafa, ásamt félögum þínum, forsjá fyri því, sem hreppnum vardar (Frammf. b. 9) en einkanliga fátækum.

122. Atli. Hvørjir eru þeir fátækir, sem Hreppstjórar eiga ad annast?

Bóndi. Þad eru þeir menn, sem ecki eiga forlagseyrir, og ecki heldur frammfærslumenn. a) Sjúkir menn og sárir. b) Fodurlaus børn. c) Orvasa menn. d) Eckjur. e) Allir þrotbjarga búmenn, helst barnamenn. f) Skipbrotsmenn, (þó er mestøll þeirra ønnusta komin til Sýslumanns med forordning. 1705, 21ta Martii.)

123. Atli. Hvad fé leggst fyri þessa fátækismenn?

Bóndi. Fjórdúngur allrar tíundar, matgjafir, fimtúngur allrar helgidaga veidar, hvør helst sem er, eins úr hval þeim, sem veiddur eda fluttur er á helgidøgum, edur úr þeim fjárhlut, sem þá aflast. Øll tíund þeirra manna, sem minna fé eiga enn 5 hundrud, Kóngurinn hefur ogsvo géfid fátækum tvo þridjúnga af øllum þeim bótum, sem húsaga forordníng uppáleggur, item fyrir helgidagabrot. Sabbaths forordning 29da Maii 1744.

124. Atli. Þú nefnir matgjafir, er það ecki pápíska?

Bóndi. Því verdur ecki neitað, að laungum tíma fyri siðaskiptin var það í lög leidt, að menn skyldu fasta á vissum tímum, og géfa þann mat fátækum, sem þeir myndu annars í það mál hafa etið, lá sú skylda á ollum eldri monnum enn 12 vetra og yngri enn 70 vetra, (v. supra 95.) sjúkir menn, þúngaðar konur, og þær sem hafa barn á brjósti eru þarfrá teknar. Nú er ei nema ein skyldufasta árlig, það er á fjórða fostudag eptir páska, og fleftir bindast matar, þá þeir eru til Guðsborðs; þessa málsverði á nú enn í dag að lúka fátækum monnum, þó pápiskar skyldufostur séu afteknar. Það er í nockrum hreppum venja, og ecki ósanngjarnlig, að bóndi géfur 1 alin í matgjafir fyri hvorn mann, sem fastar á bæ hans.

125. Atli. En ef þetta nægir ecki til frammfæris fátækra, hvað skal þá til gjora?

Bóndi. Sé þá hverki til áheit né sáttagjafir, sem hvertveggja má heimta, hafi nockur lofað því, þá heimta Hreppstjórar manneldi af ollum monnum í hreppnum, sem sé eiga, svo að fátækir alist þó með einhverju móti, er sú regla á manneldi eptir réttarbót Hákonar Kóngs 1305, að fátækur maður einn sé nótt á hvorjum 10 hundruðum, til þess komin eru 1 hundrað hundraða, síðan eina nótt á 20 hundruðum hvorjum, nema Hreppstjórnarmonnum sýnist annað sannara. Þaraf sérðu, að sá sem á 1 hundrað hundraða, elur fátækann mann 12 nætur, en eigi hann 2 hundruð hundraða, þá elur hann þann fátæka 18 nætur. Svara þessu eins lausamenn sem bændur.

126. Atli. Nær á ad halda hreppskil?

Bóndi. Ekki fyrr enn 4 vikur lifa sumars, og ei sídar enn tíundum fé skipt, Drottins dag fyrstann í vetri.

127. Atli. Þá mun eg verda ad skéra upp bod, eins og Sýslumenn?

Bóndi. Bod áttu víst upp ad skéra, og senda þad bodleid um hreppinn undan þér fyrir hreppstjórnar þíngid. Sýslumenn láta bera undan sér breidaxar bod, sem merkir þad Kóngsvald, sem þeir hafa, og því kallast þad bod stundum oxi Kóngs, eins og Kóngsvald var stundum kallad sama nafni, þad bod á ad brúka til allra Kóngseyrinda, þar sem um skipan edur rétt Kóngs og þegngildi er ad höndla, svo sem til manntals- manndrápsleidar og þínga. Til allra kyrkjusóknar funda, hrepps naudsynja, og sveitarskila hafa menn ádur brúkad krossbod. En til ad boda bygdarmönnum rán, hernad edur manndráp, þá var skorin upp or, sem sendist gjarnan alla vega frá vetvángi, þad bod skyldi berast í þá líking skjótt, sem or flýgi, og allir áttu þá strax ad þysja saman, vegna brádra naudsynja.

128. Atli. Hvad á eg fleira ad annast?

Bóndi. Melrackaveidar, géldfjárrekstra, fjallgaungur, vegarudnínga og vegabætur, þjódgotur, almenninga, förumanna flutníng, heptíng óskilamanna. Hérvid bæta nýrri forordníngar umsjón yfir dugnadi og byrgdum smábænda, vinnuhjúa haldi, og verkum þeirra hjá bændum. Tveir elztu Hreppstjórar eiga líka ad vera stefnuvottar, þegar medþarf, utanhéradsmanna, eptir Stiftamtmanns skipan 1772.

129. Atli. Segdu mér eindaga á öllum gjöldum bónda.

Bóndi. Eindagi á skatti er fyrir alþíngi.
Tíundum fimtudag er 4 vikur eru af sumri.
Gjaftolli, sem á skatti.
Ljóstolli fyri nýár.
Heytolli Maríumessu sídari.
Lögmanns tolli, sem á skatti.
Fátækra tíund fyrir Marteinsmessu.
Matgjöfum fyri Pálsmessu á vetri.
Dýratolli föstudag í fardögum.
Legkaupi, sem tíund.
Líksaungs eyri, sem tíund.

130. Atli. Segdu mér líka sektir og vidlögur á þessum gjöldum?

| Bóndi. | mk. | | aur. | |
|---|---|---|---|---|
| á skatthaldi er sekt ....... | - | - | 6 | |
| á tíundarh. (vulgo) ..... | 3 | - | - | |
| á gjaftollsh. dæmt ....... | 4 | - | - | dæmt 1591 |
| á lögmannstollshaldi ..... | 8 | - | - | dæmt 1698 |
| á ljóstollshaldi ............. | - | - | 3 | |
| á heytollshaldi ............. | - | - | 3 | dæmt 1510 |
| á dýratollshaldi hæzt .... | - | - | 1 | dæmt 1680 |
| á legkaupshaldi ............ | - | - | 3 | |
| á líksaungseyris haldi ... | - | - | 3 | |
| á landskuldarhaldi ........ | 3 | - | - | dæmt 1504 |
| á bodfalli. Réttarbót E. K. 1294 ............. | - | - | 2 | |
| á kyrkjugards forsóm. ... | - | - | 3 | |
| Ef ei fylgir líki til grafar | - | - | 3 | |

131. Atli. Þetta er mikid útsvar, og hardt vidlagt.

Bóndi. Þad vex þér í augum, sem þú átt ødrum ad greida, og er þad þó ecki svo mikid eptir tiltolu, sem þér þykir. Til dæmis: ættir þú 60 hundrud ad tíunda, gjæfi þau af sér árliga leigu, nú á þessum tímum 10 hundrud. Þegar þú siálfur býr vid þau, verdur allt þitt útsvar, þad er skattur, gjaftollur, tíundir, ljóstollur, heytollur, løgmannstollur og matgjafir, allt saman ei meir enn frekt 1 hundrad verdaura.

132. Atli. Samt má siá á þessu skuldatali, hvad harda kosti eg og adrir bændur hafa, frammyfir hina, sem eckért gjalda út, en taka tollana inn. Menn eru þó af náttúrunni allir jafnir, og sem stakan forna hljódar:

Þá Adam gróf, en Eva spann,
einginn þeckti Keysarann.

Bóndi. Einginn hlutur er fullsédur fyrr enn hann er bádumeginn skodadur, þú álítur þá hina vinstri sídu þinna kjøra þar, er þér vex þad eina í augum, sem mótdrægt er, og spillir ánægju þinni, en freistar þín til øfundar vid adra menn, er þú hyggur þér sællri: géfdu nú gaum ad høgum þínum hægrameginn, þar blasir vid mørg og mikil hægd og rósemi, sem hofdingjarnir fá ecki ad njóta, hvad fegnir sem þeir vilja. Einginn madur hefur meira frelsi; einginn saklausari og óbrygdullri ánægju, einginn minni háska og vanda, enn einn dugligur velmegandi bóndi, slíkur sem þú ert: þegar þú ert gudrækinn og trúrækinn, hefur þú góda samvitsku, og innvortis ánægju: þegar þú ert gódgjarn vid granna þína, þá sýna þeir þér hid sama, og þú verdur þá

vinsæll: þegar þú erfidar, hefur þú ánægju, ávinning, góda heilsu og góð þrif, sem lengja líf þitt framm til ellinnar, og hún verdur þér þá heidarlig, hæg og rólig: þú ert stí frá óteljandi áhyggjum og sorgum, sem hinir ædri mædast med alla æsi, og leggjast þarsyrir stundum varla midaldra í grøsina. Hvad þína stétt snertir þá er hana ad álíta, sem undirstodusteina allrar þeirrar byggingar, sem kallast almenníngs gagn; þeir eru adsonnu lágt í byggingunni, en þar er hún øll uppákomin; þeir haggast ecki, né hrærast af nockru stórvidri, og ef þá bilar, þá bilar øll byggíngin. Þennann heidur og gagn bónda=stéttarinnar hafa vitrir menn og gódgjarnir alltíd þeckt, en þó er henni nú sá hádegistími kominn, sem aldrei kom fyrr, ad sjálfur Kóngur vor og hans hofdíngjar taka nú bændur í forsvar, locka þá med fyrirheitum til þess sem ádur var gagn og skylda bændanna, og unna þeim stórgjafa, og annara sæmda, sem nockurn dugnad sýna ødrum fremur. Hvad gjald þitt snertir, þá hugadu um þad, þú þarft ad láta verja þig fyri ráni og hernadi, þartil þarf strídsfólk og mikinn herbúnad, þú þarft ad láta verja þig fyrir annara þinna landa ágángi og rángsleitni, þartil þarf dómara, og þad einn ødrum ædri, svo þú missir ecki réttar, þó fyrsta dómara sjáist yfir: þú þarft, eins og allir þeir sem vilja vera dygdugir menn, ad trúarbrogdin séu brýnd fyri þér, en einkanliga þarftu, fyrst þú ert kristinn madur, ad heyra Guds ord, og brúka sacramentin, og þartil þarf Presta, og Biskupa yfir þeim, líka skóla og lærda menn þartil. Øllum þessum sér Kóngurinn fyri braudi, og máttu skilja, ad mikid þurfi til þess ad fæda allar þessar stéttir, og vidhalda þeim, og þad er

þeim öllum ætlað, sem njóta friðar og frelsis í allri sinni ærligri höndlan, fyri þessa Kóngsins umsorgun, er það ecki mikið, sem þú útilætur að reikna ímóti þeim náðum, sem þú hefur; en samt þegar allir af þinu standi gjalda eins, þá er það föðurlandinu styrkur til að viðhalda góðum friði, lögum og trúarbrögðum. Hvað viðlögur og sektir á gjöldunum snertir, þá er það þér og öðrum sjálfskapuð víti, ef að þú og þeir vilja ei greiða gjald sitt, fyrr enn sektir eru áfallnar, en hafir þú ei úrræði að gjalda um sinn, þá líða þig góð yfirvöld til þess hægist um fyri þér. Stakan, sem þú fórst með, vegur viðlíka, og mannjafnaður þinn, væri eingin synd og íllska í heiminum, þá þyrfti eckért herlið, eingin yfirvöld, og eingann Þíngapréstr; en nú eru kjör þín og annara manna svo, að þú mátt þacka Guði fyrir alla þessa hans skickan, helzt þegar þú aðgætir, hvað vesæll þú værir, ef að þú findir ecki í landinu frið, réttvísi eður trúarbrögð. Það er satt, að Keysara nafnið er lángtum ýngra, enn búnaður þeirra Adams og Evu, en hefðir þú verið orðinn bóndi á ofanverðum Adams aldri, myndu þeir nafnkunnu heljarmenn, sem þá vóru farnir að alast upp, og síðan fylltu jörðina með ofríki, ecki lengi hafa myndað sig til að gjöra þér lágt undir höfði. Síðan Guð stiftaði keysaradæmin og kóngdómana, samt önnur yfirvöld, hefur veröldin aldrei orðið svo vond sem þá; en nú er svo góð tíð í þessum löndum, að með fullum sanni má segja, að manndygð og dugnaður hafi fengið óska stund að æfa sig.

---

# 25ti Kapítuli.

## Verka-skipan að mánaða tali.

133. Atli. Segðu mér nockra reglu um verka-skipan árið umkríng.

Bóndi. Þá verdur þú að vita missira skifti og mánaðatal búbónda, því þareptir hafa frá fyrstu bygg-íng þessa lands verið reiknaðar búskapar reglur, og ber því mánaða tali mjøg saman við hlaup sólarinnar ígégn-um hvørt teikn í sólmerkjahríngnum, þegar allt árið er samanreiknað.

1) Þorri er sá mánaður, á hvørjum sólin geingur um vatnsberamerki. Nú er tími til innann-bæarverka, en útivinna er nú lítil, nema grjót-dráttur og annara hluta á sleðaferi, er það nú hentugt að gjøra, því hvíldartími karla er lángur, þó menn lýist nockuð á degi. Af því það járn er deigt í øðrum mánuðum, sem hardt þykir um þessar mundir, svo smíða menn ógjarnan eggjárn í þessum tveim mánuðum. Fordastu að vatn standi á túni þínu í þessum mánaði, og aldrei fyrr enn vorleysíngar koma, frá því frýs á hausti. Allt hvað þú geymir af lifandi ávøxtum innanhúss, þarf nú meiri vøktun enn fyrri part vetrar, og því meiri, sem álíður framm til sumarmála, að það skémmist ecki af frosti edur hita, slaga edur ofþurk. Til að

gjøra gódann sádreit, er nú hænsa skarn besti áburdar, sé þad borid 3ja þumlúnga þyckt yfir hann, og rigni þar nidur til sátímans á vori; med Þorra komu er veturinn hálfnadur, en í Þorra lok má optast kalla hálfnadann fódurtíma penings. Mikil votvidri í þessum mánadi, boda vorkulda og litinn grasvøxt. Í þessum og nærstfylgjandi mánadi halda margir best ad ala kálfa og hvelpa.

2) Góe heitir sá mánadur nær sól er á hlaupi um fiskamerki, nú er sama ad vinna og varast, sem á Þorra. Nú koma þeir stórstraumar, sem kallast Góeginur, þá er skélfiska tekja hægust, og best titlíngaveidi, sem þá eru feitari enn med smástraum. Líka er nú gódur tími til rjúpna-veidar. Um þessar mundir bæta menn bússhluti sína, ambod og ønnur áhøld, sem brúkast þurfa sumarid eptir.

3) Einmánudur er ferd sólar ígégnum hrúts-merki, og byrjast hann nálægt jafndægrum. Nú má draga fódur vid nautpeníng, en bæta þad vid ásaud, því eldid gengur á hann. Naut og hestar géldast um þessa tíma. Sé vorgott, er nú hentugur tími ad stýfla vatn, sem veitast á yfir land, svo vatnid standi þará, medan vor-leysíng er mest, því þad grugg, sem setur sig undir leysíngar vatnid, ámedan þad stendur yfir landinu, er betri enn nockur áburdur kann ad vera. Sá sem vill ná grjóti upp úr jørd, því sem upp úr stendur, hann gjøri þad nú, þegar jørd er hálfa alin þýd ofantil, edur nockud minna,

þá er það bæði lausast, og veltur líka á klakanum, svo erfidið verður hálfu hægra.

4) Þar um bil byrjast sumar, er sólin kémur í tarfsmerki, en ámeðan hún er þar, hefur mánaðurinn verið kallaður gaukmánaður eður harpa; nú er sádtími í fyrsta lagi í kalda jörð, með því móti vorgott sé, og er þá betra að sá litlu salti, með snemmsánu fræi, eða að vökva um sinn, með saltlegi eða sjóvatni, það ver nockuð kulda, ofþurki, og líka kálormum. Frostlaus snjór, ofaná nýsáð fræ, er betri enn flest önnur vökvan. Öllu því sem undir jörð á að vara, má nú fyrst sá. Seint í þessum mánaði er tími að planta allar lifandi rætur, sem geymdar hafa verið í mold eða sandi á vetri. Í hlýu veðri skal pæla þá jörð upp, sem menn vilja frjófsöm verði. Héla og lognfrost eru skaðlegri enn frostnæðíngar, fyrir allar urtir, því skal sádreiti vel þekja, þegar hélufall er. Nú er tíð að manskéra hesta. Af því sjóarflæði-engjar gésa mjøg feitt gras, þá þolir saudfé það nú ei, og verður að halda því frá þeim engjum helzt er féð er magurt, en besta beit eru þær engjar fyri mjólkurkýr, og allann stórfénað.

5) Eggtíð eður stecktíð kallast sá mánuður, nær sól er á ferð um tvíburamerki; á Ströndum norður kallast sá mánaður skérpla. Nú er sádtími þegar seint vorar, í miðjum þessum mánaði eru fardagar. Um það leyti má grasa villirætur til matar, því síðan þegar gras fer að vaxa útúr þeim, eru þær lakari. Nú er tími að byggja

hús og garda, hreinsa tún og engjar, hylja med mold flög og skridur, edur særa þær burt, vinna í skógi, safna berki og fleirum litunar grøsum. Þegar hnaus veltur nú á klaka, er hann bestur í veggi, því þá er jørdin enn laus og ófrjó, sígur sá veggur fljótt, en verdur vel þéttur og varanligur. Ásaud er þad nú eins óhollt ad bíta tún, sem ádur var sagt um flædiengi af sømu røkum. Kýr mjólka þá best af grænum gródri, ef þær eru ei of feitar, og hafi ádur gengid úti nockra stund, med nógri gjøf á nóttum.

6) Sólmánudur heitir sá tími, er sól gengur um krabbamerki; hann byrjast á sólstødum. Fyrst í hønum fara menn á grasafjall, um þad leytid safna menn þeim urtum, sem til lækninga eru ætladar. Lømb gélda menn nálægt Jónsmessu, en særa frá viku seinna. Engi, sem madur vill tvíslá, sé nú slegid í 10$^{du}$ viku sumars. Vilji madur upprœta skóg, skal þad nú gjørast, þá vex hann ei aptur. Vel þarf nú ad vøkva nýar urtaplontur. Nú er hvannskurdur bestur sídast í þessum mánadi.

7) Heyannir er mánudur sá, sem sól hleypur um ljónsmerki; nafn þessa mánadar sýnir hvad þá skal idja, því nú er komid ad því ábatasamasta verki hér á landi, sem er ad afla heys, og meta þad flestir menn ødrum verkum framar. Sláttur byrjast venjuligast med midju sumri. Vøkva má plontur einusinni í viku med sjóvatni, en ødru vatni annars, ef miklir þurkar

gánga. Nú má safna burkna, hann er gódur ad geyma í hønum velþurrum, egg, rætur og epli, sem ei mega útspringa, hann ver og mocka og fúa, líka hafa menn brúkad øsku hans í sápu stad. Kornsúru og kúmíni má nú safna. Midt i þessum mánadi er sølva- tekju- tími; þó kýr hafi legid úti á sumri, þá er tími þær liggi inni med høfuddegi.

8) Tvímánadur er sá tími, sem sól rásar um meyar merki, og er øll hin sama idn, sem hinn nærsta umlidinn mánud; nú eru álstir fjódur- sárar, og er því þeirra veiditími. Allur árgródi lætur nú af ad vaxa, og eins tré í skógum. Adalbláberjalíng má nú brúka í barkar stad á skinn og ledur. Eptir Mikaels- messu mjólkast ásaudur adeins einusinni á dag. Um þad leyti er sláturtími géldneyta og hrúta, ef ei skulu megrast aptur.

9) Haustmánudur byrjast nær jafndægrum, en sólin gengur þann tíma um vigtarmerki, líka var þessi mánadur kalladur gardlags mánadur, því þessi þócti hentugur tími ad bæta túngarda, engigarda, haga- eda skjólgarda og grannagarda. Þegar há fer fyrst ad visna á túni, þá er tími ad bera myki á voll, annars brennur undan henni, nema sé gamallt moltad sauda eda hrossa- tad á mosa borid og breidt yfir um leid, er því betra, sem fyrr er gjørt, aska er til þess lítid lakari, og satt er þad fornmæli, ad betri sé ein haustbreidsla enn 2 vorbreidslur. Nú er tími ad velta landi því, sem sást skal í eitthvad fræ

ad vori. Vatnsveitínga skurdi á nú ad stínga, svo eckért vatn géti stadid yfir landi á vetrum, heldur ad þad súra vatn fái gott afrensl. Jardar áverti, sem menn vilja geyma nidurgrafna úti edur inni, skal nú upptaka og láta nockud þorna, grafa þá sídan nidur, hvar frost má ei ad þeim koma. Um þessa tíma fellir melur fræ, má nú safna því ádur og sá því strax í sendid land, og breida mold yfir, kémur upp næsta vor. Hvanna fræi og kúmíni má nú líka sá, þar sem menn vilja þær urtir vari sídan. Nú er ridtími silúnga, og þarfyri gód veidi þeirra. Snemmbærar kýr, sem nú gánga út á hélu, láta opt fángi strax úti í haga. Nautpeníngur, helzt úngneyti takist nú inn ad gódri gjøf, þá þrífst hann betur allann vetur sídan, en komist haust þústur í hann, þá verdur hann øllum fjórdúngi þýngri á fódri sídan. Felli skógur seint lauf, og sé mikil hlýindi í þessum mánadi, þá vænta bændur eptir hørdum vetri.

10) Gormánudur tekur nafn af slátrun fénadar, med hønum kémur vetur, og um þad leyti gengur sól í sporddreka merki. Nú má safna vídir, hrísi og língi fyri naut, allt hvad ónýtist af urta tægi í gørdum gefist nú nautum, helzt kálfum. Nú má planta villiverti, svo sem birki, vídir, reynir, hvannir, netlu 2c., líka skal nú búa um urtir þær, sem úti eiga ad standa um vetur, svo sem laukar, piparrætur 2c., gjørist þad vel med því, ad bera hrátt nýtt þáng ad heim, en séu þær plantadar ad hausti, þá verd-

ur þaradauki, ad bera mold eda torf ofanyfir þær, annars spítast þær upp úr klakanum, og deya. Nú er gott ad bera nýan þara á tún, og er sá þari bestur, sem rekur med sjóargángi í hafátt, en ad vori berist hann saman í lag ad fúna, þar verdur hann enn betri áburdur árid eptir. Nú má sá persille og persillerótum, lauk, gulum rótum, pastinacka, þekja sádreitinn med úthverfu torfi, og nýrri heitri mykju ofanyfir, kémur upp ad vori, ef þá er opnad er hlýtt vedur er komid. Ei verdur þjór órór, sem um þetta mund er géldtur. Etist hey ílla, þá má dreifa saltlegi eda sævatni ímilli laga í laupnum, og standi svo til þess gésid er.

11) Frermánudur er sá tími, sem sól dvelst í skotmanns merki. Nú þétta menn hús sín, sem best verdur, og taka þad allt til handargagns, sem brúkad var á sumri, og nú þarf ei lengur, svo þad sé þá til er vorar. Peníngur hafi nóga gjøf, og ei má hann láta haust hold, fyri midjann vetur. Sé þýd jord og hlýtt vedur, skal nú pæla upp aldingard, svo áburdur blandist og þvælist vel saman vid moldina á vetri, þad eydir og nockud arfa.

12) Mørsugur heitir sá mánadur, sem byrjast nær vetrar sólstodum, þá sólin kémur í steingeitar merki. Nú er peníngs rækt og innivinna helzt til þarfa. Sledaferi má opt nýta um þessa tíma, þar sem þess þarf. Í 10du viku vetrar hleypa menn hrútum til ásaudar, nema menn hafi nóg hey, og vænti eptir gódu vori, þá viku

fyrri. Nú er tími að bera torfösku og bæar-skarn allt, eins hvottaforg, á mögur engi edur mosavaxin túnpetti, jafnódum og þetta safnast, það bætir þau vel.

134. Atli. Þarf eg nockud að skipta mér af túngls aldri í búnadi mínum?

Bóndi. Strax med nýi áttu að planta þær urtir, sem þú vilt fá fræ af. Þá skal pæla upp sádjörd og mykja hana. Legg egg undir hænu að únga út 5 dögum eptir nýið. Med vaxandi túngli skal sá til allra urta, sem ofanjardar vaxa, og sídan planta þær í sama mund, líka safna fræum til útsáds. Þá skal slá, hvar menn ætla að slá hána sídar. Höggdu eldividarhrís, sem þú vilt að vaxi aptur. Þá skal hleypa til fjár. Slátra fénadi med adfalli sjóar, að hálfvoxnum mána, verdur kjöt drjúgara og vardveitist betur, því þeim dýrum blædir betur, sem þá slátrast. Kýr sem þá hafnast um flód sjóar, hafa ecki yfir, sem hinar, er um fjoru hafn-ast. Þá skal rýa saudfé.

Med fullu túngli: sládu hey, sem ei skal rírna. Planta lauka. Salta kjöt edur heing það í reyk. Planta allskyns rætur sem kólfa hafa.

Med mínkanda túngli: pæl upp land, hvar grass-rætur eiga að fúna í. Hogg þá vid, sem lengi skal vara og ei fúna, svo sem til klifbera, hripa, amboda.

Á sídasta kvartili túngls: sá næpum og öllu róta fræi, líka vidar fræi. Planta villivid á hausti. Tak upp úr jörd ávexti þá, sem inni skulu geymast á vetri, undir nýid sjálft, en bú vel um hina, sem úti eiga að lifa. Gélda skal þá allar sképnur sem géldast eiga.

Héradauki taka nockrir menn mark á þvíj hve túngl er í himinteiknum. Þeirra regla er þessi:

Þeir sá því sem ofanjardar á ad vaxa í tvíbura, vigtar og vatnsbera merkjum.

Hinu, sem undir jord á ad vaxa í hrúts, meyar og steingeitar merkjum.

Heitum kryddurtum vilja þeir sá í tarfs, bogmanns og ljóns merkjum.

Í sporddreka, krabba og fiska merkjum vilja þeir hvorki sá né planta.

## 26ti Kapituli.

135. Atli. Kantu ad segja mér nockur merki, sem viss séu, fyri vedrabrygdum?

Bóndi. Almennustu reglur, sem eg hefi tekid mark á vid þennann útkjálka lands, gét eg sagt þér; ei allfáar af þeim eru árid 1649 valdar og útlagdar úr dønsku rími, af Síra Gísla Bjarnasyni Prófasti í Gullbríngu sýslu, og Presti á Stad í Grindavík; þarvid hefi eg bætt nockrum Sunnmøra vedurspám eptir Hr. Strøm, þykist eg hafa reynt allar þessar reglur, ad flestar þeirra bregdast sjaldan, en nockrar þeirra aldrei, þar sem eins stendst á landslagi og hér.

# Á sólinni má svo veduráttufar marka.

Þegar sjálf sólin er skær í upp- og nidurgaungu, og loptid allt hreint í grend vid hana, merkir gott vedur næsta dag og nótt. Fagurt ský, sem kóróna yfir henni, nær hún gengur upp, en eydist þegar allt í einu, merkir gott vedur og bjart.

Þegar sólin sýnist koma upp í heidbirtu, en géfur þó ei skært skin, heldur sýnist vera dymm, merkir votvidri; sýnist hún í upp- eda nidurgaungu gul eda bleik, med vatnslitum eda raudum skýum um sig, bodar hreggvidri: sama merkja raudir geislar, sem gánga ígégnum ský á sumrum, og stendur mikill hiti af þeim frá sólinni.

Ulfar fyrir og eptir sólunni fagrir, eda raud sól í nidurgaungu, bodar optast þurt þrávidri.

Sjaldan er gyll fyri gódu, nema úlfur eptir renni, gángi raudur hali af gylnum, bodar stormvidri.

Margir úlfar kríngum sól, raudgrænir ad lit, boda stórvidri med hreggi eda kafaldi eptir ársins tíma: dökkraudir og grænleitir hríngar íkríngum sólina vita á þad sama, helzt þegar hún er í upp- eda nidurgaungu.

Skær og fagur hríngur, kríngum sólina um midbegi í bjortu vedri, og standi úlfar skærir sem ljós í þeim hríngi, sólin líka skær innann í hríngnum þýdir ætíd vedráttu góda og mjúka. Þad merkir og sama, þegar hríngar um sól dragast af allt í einu, án þess blid verdi á þeim.

Sólir þrjár í austri, árla séuar, boda kaldt vedur, en í vestri á kvoldum blídvidri.

Vedra hjálmur kallast þegar tveir hríngar eru um sólina, hvor utan yfir ødrum, og vída úlfar í þeim hríngum, hvítir, veit á kaldt þrávidri um hríd, og stundum til lángframa.

## Af túnglinu má svo veduráttufar marka.

Þrinætt túngl raudt med hvossum hornum þýdir vind og kulda framm til fyllíngar. Bleikt merkir úrkomu, og skært heidbirti eins lengi.

Ef ad hinn myrkvi partur túngls séſt allur, þegar þad er þrínætt eda fernætt, merkir storm og úrfelli.

Ef ad blettir á hálfvøxnu túngli sýnast mjøg døckvir, merkir logn og votvidri.

Sjái madur þrínætt túngl í sunnan átt, er brádum regns ad vænta, sama merkir, ef annad eda bædi horn þess eru sljóf

Allir døckleitir hríngar um túngl, helzt ef ad fleiri eru enn einn, merkja vedrabrigdi, storm og hregg eda kafald; sama merkja úlfar um túngl.

Einfaldur, bjartur og fagur hríngur íkríngum túnglid, med eingu hlidi á, og dragist hann allur í einu af, veit þad á gott vedur.

## Af stjørnum má svo vedur marka.

Ef stjørnur tindra mjog, elligar stjornuflug sjást morg., merkir vind þadan sem stjørnuflug kom.

Sjáist stjørnur fáar, eda sýnist dymmar í heidbjortu vedri, þá er korgur eda mistur í lopti, og veit þad opt á úrfelli, en stundum þrávidris kulda.

## Af Skýum má svo vedur marka.

Raud ský, sem uppkoma eptir nidurgáng sólar, er menn kalla kvøldrodma, og oll þau ský, sem fylgja upprennandi sól, og eydast strax af hennar skini, merkir gott vedur á nærstum dægrum.

Þegar þyck vinda ský standa vid hafsbrún, og dragast øll upp á lopt, fyrirutan alla undirbliku, er þerrisviti.

Sjáist í votvidri þunn ský, raudbleik á jodrum, þad merkir ad þorni lopt: sama merkja hvít ský, sem sjást um midjann dag, eins og rákir eda hríslur, er hér kallast þámad eda þánad lopt.

Fylgi myrkbleik ský eldraudum sólar upp- eda nidurgángi, en geislar hennar leiptra þó þarumkríng, þá er ecki ad tvíla úrkomu og stundum vind líka.

Øll græn, raud, vatnslitud ský, og helzt hin þyckvu svortu, sem vindur rekur til nordurs, boda regn.

Hvít og ljósgrá ský eru þurrari, boda él á vetrum, en á sumrum skúravedur.

Þegar sést klósegi á lopti árla dags, þad eru lángar, hvassyddar skýrákir, þá kémur vindur á þann odda sem fyrr afdróst, og tvíllaust á annann hvorn.

Blika, sem dregur á lopt upp um vetur, merkir þá hláku, ef hún er dökkblá, og kémur þó optast fyrst af henni snæfjúk, en hvít med þoku bodar snjó.

Blika, sem skjótt uppdregur, merkir skammvint regn, en sú sem ýmist gengur upp eda nidur, en dregst þó yfir lopt umsídir, verdur drjúgust, med þreggvidri á sumrum, en kafaldi á vetrum.

Vindblika er jafnan þunn, og þó dökkleit ad sjá, gengur ei hátt á lopt upp, svo lengi sem hún stendur, varir kuldi og vindur, og rofar þá í hálopt.

Hafgall kallast geisli mislitur vid hafsbrún, ei ólíkur hálfþrotnu túngli, eda nockud áþeckur regnboga fæti, bodar lángvint regn, ad sögn bænda, ei skémur enn hálfann mánud.

Þegar sólargeislar myndast í skýum á vestur lopti um sólar uppruna, bodar regn.

Þegar nordrænur gánga, og skýabackar sjást í austri og vestri, merkir þrávidri, og svo lengi sem hvörugur skýabackinn eydist, og gengur hvorki upp né nidur, helzt hinn sami þurri mótþrói.

Þegar tennir á hafmecki, eda nær ský myndast þar, sem klackar eda tenníngar, bodar æsíng og ofvidri útsjóar, og ófæru farmönnum.

## Af regnboga má svo vedur marka.

Regnbogi í skýum bodar optast milda og vota vedoráttu, og komi hann med skýum eptir bjartvidri, bodar hann varanligt regn, helzt ef hann er mjøg grænn, þegar hann er í austri.

Mjøg hvítur regnbogi í þurrum vatnslausum skýum, bodar kulda, snjó eda krapa, eptir ársins tídum.

## Af þoku má svo vedur marka.

Þegar mikil þoka og lángsøm gengur, þá er víst ad vænta, ad eptir hana komi vindar, kuldi og stundum varanligt regn.

Litil þoka kríngum sól, þegar hún gengur upp eda nidur, merkir klárt vedur. Sama merkir oll sú þoka, sem dregst ofan ad jørd, þegar fjallatindar eru skírir, þad køllum vér dallægju og sjólægju.

Þoka, sem slær sér upp í lopt frá jørd, kémur ofan aptur med regn á sumrum, en snjó á vetrum.

Hrímþoka, sem sveimar upp í lopt af jørd á vetri, kémur aptur med mikilli fannfergju.

Þoka, sem gengur upp af sjóarfjørdum og bøckum á vetri, þýdir komandi frost, en ef ad sú þoka gengur upp í frosti bodar varanligt og hardara frost, nema þunn sé sem gufa, þá er hún sviunar merki.

## Af snjófalli má svo vedurlag marka.

Mjøg smár kornsnjór, merkir ad frost og kuldi sé í vexti.

Haglsnjór, þyckur í sér sem hnoda, og svo nockud bleikur ad liti, merkir mildt lopt, og gott komandi vedur, sem menn segja: hagl er heidi nærst.

Snjódrífa, er sumir kalla skædadrífu, er nidurfellur sem fætlingar, merkir opt bjartvidri og heidbirtu í vændum.

Sniópoka, helzt af nordri og vestri, bodar snjó-komu. Kafald, sem kémur med stormi, helzt á auda jord, varir ei lengi.

Snjór, venju framar áleitinn innum glugga og þilja rifur, bodar linvidri lopts.

Snjór, sem stendur á stjónum í skúfi eda drífu, hvítur og bregdur ei liti, merkir kulda mikinn á eptir í vissum vonum.

## Af regni og vatni má svo vedurlag marka.

Frostrigníngar, sem menn líka kalla ísing, bodar optast eptir sig regn og votvidri.

Morgun og kvøld-skúrir gánga jafnan undan þurri veduráttu.

Hvítir regndropar, sem gjøra bólur á vatni, nær þeir niðurfalla, boða varandi regn.

Það regn, sem kémur með úða eða suðda, verður drjúgara, enn það sem kémur hastarliga.

Regn, sem þornar af jørðu, fyrir utan vind, vonum fljótara, boðar stórregn áeptir.

Verði kaldt stoðuvatn fyrir utan sólarhita volgara enn vant er, boðar storregn.

Vatnsæðar, sem úr jørðu koma, nær volgari eru, enn vani er til, og þeirra eðli er á vetrum, það merkir lánggjæðt og hardt frost og kulda.

## Af vindi má svo veður marka.

Vindur, sem kémur á degi, varir lengur enn sá sem á nóttu kémur.

Eptir lángann sunnanvind, kémur jafnaðarliga regn, og flestir stormar endast með regni.

Hefjist hvass vindur í logndøgg, þá er viss von, að brádum þorni.

Utnyrdingur sefast opt um sólarlag, þegar hún kémur í þá átt, en hægi þá ecki, merkir horku og líka þrávidri.

Austanvindur endast opt með hreggi, og þaraf er komið máltækið: opt kémur óveður í endadann þey.

## Af sjónum má svo vedur marka.

Þegar brimlaus sjór í logni gèfur hljód af sèr, þad merkir regn og storm í vændum.

Ef bylgjur og brim vara í logni yfir edli, bodar storm og kulda.

Ef sjór sýnist gruggugur og móraudur ad lit, med moski og øgnum í, bodar storm.

Ovenjuligt stórflód í brimlausu føgru vedri, bodar hafvidri.

Sjái madur sjóinn óstilltann, gjálfmikinn og úfinn i gódu vedri og logni, þad er víst merki til rosa og óstiltrar veduráttu.

Ef þáng frýs mjog í fjøru, eda frostgufa sèst inn á fjordum, bodar minkun kulda.

---

## Af loptinu má svo vedur marka.

Þegar loptid kólnar á vetrum, eptir þad nordrænur og austrænur hafa gengid, og komi þá smár kornsnær, þad merkir varanliga kulda.

Naudt lopt á morgna bodar storm og regn, en á kvoldin merkir þad þurt og hreint vedur.

Kvøldrodminn bætir, morgunrodminn vætir.

Þegar þykkvidri birtir upp af sudri, þá er von á vindi og regni úr þeirri átt.

Þegar þykni breytist í bjart lopt, um fjallatinda, merkir þurrvidri.

Þegar þad hérad loptsins í austnordri, sem menn kalla Jakobsveg eda stiga, er skært, hvítt og fagurt á kvöldin, bodar skírvidri.

Þegar birtir undir þykni í nordri, merkir ad vedur muni þorna; sama merkir lítill skýabakki í nordri og austri, þegar lopt er heidbjart.

Þegar lopt er raudt í sudri bodar regn, hvört sem þad sést á nótt eda degi.

Þegar loptid er fullt med rik og mosk, og sýnist móraudt, merkir úrfelli.

Þegar náttdøgg fellur ad aptni strax eptir sólarlag, bodar optast þurrann dag eptirá.

Ef maurildi sést mikid í sjó, bodar sunnanátt og þeyvin, optast hvassann.

---

## Af eldi má svo vedur marka.

---

Eldur raudur mjøg, merkir kulda, en skær logi og blánkandi, merkir skírvidri.

Þegar ljós logar stilliliga, sýnir stilt vedur, en þegar þad logar óstødugt, og þegar logi elds og ljósa gefur frá sér sindrandi gneista, þá er von á hreggvidri og stormi.

Elds- eda ljósslogi bleikur og myrkur í sér, bodar úrkomu og vind.

Þegar starpskygnum manni sýnist sem regnbogi ikríngum ljós, bodar sudda. Vilji eldur ei tendrast án orsaka, merkir sama.

Sjái madur Eldflug um lopt á nóttu, rökkri edur hálfljósi, med þykkvum skýum, merkir regn: en ef þá er heidbjart, bodar snjó af þeirri átt, sem eldflug kom.

Þegar reykur úr strompi eda reykháfi, í lognvedri, leggst allur strax nidur ad jörd, merkir þykt þúngt lopt, en standi reykurinn, sem strókur í lopt, er ugglaust gódvidris merki.

## Af sjálfum sér má svo vedur marka.

Hver madur, sem veikur er eda limlestur i nockrum lim, og er þó ei ad ödru sjúkur, hann kénnir til verkja í þeim veiku limum, undan stormum og hrídum.

Þegar á heilbrigdum manni kólna útlimir, og dofna sinar, elligar hann gjörist svefnugri enn ad venju, og svo þýngri á sér, samt ógladari, bodar kulda og óvedur.

Kuldabólgu fá menn oft í hendur og fætur eptir lángvint frost, þegar fyrst bregdur veduráttu til hlýinda, og er þad gódrar heilsu merki manns.

## Af ýmsum lifandi kvikindum má vedur marka.

Þegar fiskar og fiskaseydi taka mjøg uppi í sjó eda vøtuum, bodar regn.

Þegar saudir stángast mjøg med flæstum nøsum uppí loptid, merkir storm og úrfelli.

Þegar kotturinn sleikir lappir sínar, og kémbir med þeim høfud sitt, háls og bóga, þad er vætu merki.

Þegar murr heyrist í hundsbelg, og þegar hundar grafa sér holu í jørd, þá er úrkomu von.

Þegar mýs tísta meir enn ad venju, er von á stormi, hreggi og kulda.

## Af fuglum má svo vedur marka.

Þegar hrafnar safnast og fljúgast á í lopti, berjandi hver annann med vængjum, þá vita þeir úrfelli nálægt; enn ef ad þeir leika sér í lopti med litlu og léttu krúnki, merkir gott vedur.

Þegar fuglar, sem jafnan eru á sjó eda vatni, setjast uppá þurt og kroppa sig, þad er merki hreggvidris eda snjókomu.

Þegar fuglar leita til sjóar, eda stórvatna af landi ofan, bodar frost.

Þegar hani galar optar enn ad venju, veit hann á úrkomu: sama veit á hæna, ef hún í votvidri fer ei inn, heldur er úti ad tína sér.

Þegar hæns fljúga seint ofan á vetur ad morgni, vita þau á snjó og kulda; sama merkir þad, ef ad þau setjast upp á kvøldin venju fyrr.

Þegar fuglar safnast saman og bada sig í sjó edur ám, vøtnum edur og svo sorpi, og ausa vatni yfir sig, þá er vís úrkoma.

Þegar sjófuglar firrast sjó, og fljúga uppá land, kémur úrfelli og stormur.

Þegar mý safnast saman í stórum hópum litid frá jørdu eptir sólarlag, bodar hlýtt vedur og gott ad morgni.

---

## Af ýmsum hlutum má svo vedur marka.

---

Þegar fjøll sýnast óvenjuliga há, elligar sýnast bleik eda blá, er bodi vinda og votvidris; heyrist dunur eda nidur til þeirra, merkir hid sama.

Þegar eyar hyllir uppi, eda þær tvær sýnast þar sem ein er, og stærri ein heldur enn raunar er, bodar úrkomu og stundum storm.

Léreft, sem úr vatni er tekid, er þá venju stífara, ef von er á frosti eptir.

Þegar snarkar í ljósi, sem logar af hreinni feiti, med sindrandi gneistum útúr, þá kémur regn áeptir.

Gaungulóar vefir miklir um haga, vita jafnan á logn og votvidri.

Þegar madur heyrir brak-eda hljód í trébyggíngum, bodar storm í vændum.

Þegar klukknahljód er venju skærara, bodar þad þykt þúngt lopt og sídan regn.

Þegar skrúfa eda lok á trésmídi er þrengra enn ad venju, bodar hid sama.

Þegar rifa á þili, sem ádur sá ígégnum, lykur sig, merkir hid sama.

Þegar ólarbelti þrengist af sjálfu sér, merkir allt hid sama.

Þegar betur enn ad venju sér grunn sjóar í lá-deydu, helzt hvar sandur er undir, bodar mjúkt og mildt vedur þegar í nánd.

Þegar fýlu leggur upp af sjóarvogum, eda bæa forum meir enn ad venju, er þeyvidris merki.

## Vetrarfar má svo marka.

Drifi snjór á fjöll og bygd í September, vænta menn snjólítid verda muni til sólhvarfa.

Leggist vetur ad med frostum og fönnum um sól-hvörf, helzt þad framm á Gói.

Dragi grænar blikur uppá lopt strax eptir sólhvörf, bodar vetrarríki.

Stígi hrímþoka jafnan upp í lopt á öndverdum vetri, bodar lángvinna fannkomu.

Hjadni hrímþoka við jørð, og fari ei uppí loptið aptur, boðar snjóminni vetur.

Standi opt þokuský á fjøllum um vetur, og hylji fjallatinda, merkir vetrarríki.

Sjáist fjallatindar klárir og skýlausir øndverðann vetur, og framm um jól, boðar mildann vetur.

Sýnist sólin opt rauð eptir sólhvørf á vetrum, boðar frostasamann og vindsvalann vetur. Það sama merkja døckvir og grænir hríngar um sólina øndverðann vetur. Það sama merkir grænn eða gulleitur litur sólar, og þó helzt að vetur muni snýkinn og vindsvalur verða.

---

Allt þetta er ei annað, enn náttúrligar loptsins verkanir, sem hvör hygginn maður má skilja.

---

# Búa-Log

edur

verdlag fornt og nýtt á flestum þeim hlutum, sem seljast og kaupast á Íslandi,

med

## Reglum

um íslenzkann búskap.

# Búa-Løg

## 1ti Kapituli.

### Vorlag á Nautpening.

| | C. | al. |
|---|---|---|
| Kýr að øllu sem løg skipa, í farðøgum | 1 | |

(Annarstaðar: kýr 8 vetra gømul, og ei ýngri enn að øðrum kálfi (ɔ: hafi borið 2 kálfa,) heil og heilspenuð, og hafi borið um veturinn eptir Pálsmessu, ei verri enn meðalkýr að vexti og nyt, héraðs-ræk.

| | |
|---|---|
| Géldmjólk kýr | 108 |
| Kýr þrísperi | 108 |
| Kvíga að fyrsta kálfi eins | 108 |
| Kýr géld, þriðjúngi verri kú | 80 |
| Kvíga tvævetur mylk, er haldin | 72 |
| Góualinn kálfur | 20 |
| Veturgamalt naut, þriðjúngur kúgildis | 40 |
| Tvævett | 60 |

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Þrévetur uxi, jafn géldri kú | | 80 |
| Fjøgravetra, við kú | 1 | |
| Fimmvetra, þriðjúngur annars kúgildis | 1 | 40 |
| Sexvetra | 1 | 80 |
| Sjøvetra og eldri uxi | 2 | |

Alin eður eygengin naut, og arður uxi eptir samkomulagi.

## 2^r Kapituli.

### Haustlag á nautpeníng.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Kýr sem á vor er C. er fóðurlaus á haust | | 80 |
| Kýr géldmjólk | | 90 |
| Kvíga þrévetur mylk | | 90 |
| Géld | | 80 |
| Veturgamalt naut eður kvíga 50 ál. aðrir segja | | 48 |
| Tvævett naut eður kvíga 10 aurum. Sumir segja | | 80 |
| Þrévetur uxi eður géld kýr | 1 | |
| Fjogravetra uxi C. og 6 aurum eður | 1 | 40 |
| Fimmvetra C. og 60 ál. eður | 1 | 80 |
| Sexvetra og eldri, allt lagneyti C. og 100 ál. eður | 2 | |

(Onnur Búaløg segja: naut sjøvetra 2 hundruð)

Kálfar eptir samníngi. *Nýborinn kálfur undan roskinni kú | | 6

## 3. Kapítuli.

### Vorlag á saudfé og geitfé.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| 6 ær, 2 tvævetrar, hinar ei eldri enn 6 vetra | 1 | |
| Þær séu í alullu og fædi lømb, er þá hvør þeirra | | 20 |
| * Hálf fjórtánda alin er ær roskin, ullarlaus, med lambi. | | |
| (Annarstadar: ær lamblaus mylk 17½ ál. eins ær ullarlaus, og mun hún þá eiga ad vera med lambi.) | | |
| 7 lambsgotur géldar | 1 | |
| 8 ær algéldar þrévetrar og eldri, hvørein 15 ál. Allar | 1 | |
| 8 lambgimbrar, sem fæda | 1 | |
| 8 géldingar tvævetrir | 1 | |
| 6 géldingar þrévetrir | 1 | |
| Fjøgravetra géldingur 25 ál. þá eru 5 fyrir | 1 | 5 |
| Hrútur í ullu tvævetur vid á | | 20 |
| (Annarstadar: hann er 18 ál. og ullarlaus 15 ál.) | | |
| 12 saudir vedurgamlir | 1 | |
| Géldingar, hvør ullarlaus er 8 ál. Sum B. l. segja | | 10 |
| J ullu 10 ál. (sum B. l. segja) | | 12 |
| Ønnur B. l. hrútur veturgamall ullarlaus 10 ál. | | |

| | C. | ál. |
|---|---|---|

Item: ullarlaus lambgimbur, sem fædir, 14 ál. en mylk, ullarlaus og lambslaus, 12 ál. Eins veturgamall hrútur. Gømul ær reiknast í fardøgum 15 ál. ef hún er í ullu, og fædir lamb sitt; en ad haustlagi er hún 10 ál. Sum V. l. setja hana dýrra. Gamalær er haldin, þá hún er 9 vetra og eldri.

* 2 ál. er ullarreisi af veturgømlum saud, en af ánni hálf þridja alin.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Ullarreisi af gømlum saud á ad vega 8 merkur; af tvævetrum 6 merkur, af veturgømlum 4 merkur er | | 2 |
| Lamb á fráfærum | | 3 |

* Hálfum eyrir er steckjarlamb. Fjórum álnum er fráfæringur.

Forustusaudur þrévetur og eldri er metfé.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Geitur 6 med kidlingum | 1 | |
| hvorein | | 20 |
| Hafur tvævetur | | 15 |
| Þrévetur | | 20 |
| Fjøgravetra | | 25 |
| Eldri hafrar eru metfé. 12 veturgamlir geitsaudir, hálft géldhafrar | 1 | |

## 4ði Kapítuli.

### Haustlag sauda og geitfjár.

| | C. | al. |
|---|---|---|
| Ær 6 med lømbum | 1 | |
| Án lambanna | | 90 |

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Hvorein afnámslaus ær | | 15 |
| Lambsgotur 7 | | 105 |
| hvørein | | 15 |
| Géld ær | | 20 |
| Lambgimbur sjaldan minna enn | | 15 |
| * 13 ál. ullarlaus, 12 ál. mjólkur og lamblaus. | | |
| Geldíngur tvævetur (* hálf mørk ɔ: 24 ál.) | | 20 |
| þrévetur | | 25 |
| fjøgravetra og eldri | | 30 |
| veturgamall | | 15 |
| Haustlamb optast | | 5 |
| Hid vænsta, eyrir ɔ: 6 ál. og vegi nætursoltid hálfvætt. | | |
| Onnur B. l. haustlamb er verdt eptir því, sem mør er í því ad marka tali. | | |
| Hrútur veturgamall medalsaudur | | 15 |
| Onnnr B. l. hrútur hinn lakasti 15 ál. og í medallagi $17\frac{1}{2}$ ál. * 8 ál. best 20 ál. * 12 ál. veturgamall hrútur í ullu, en 10 ál. ullarlaus. * 10 ál. veturgamall saudur í ullu, en 8 ál. ullarlaus. | | |
| Hrútur tvævetur minst 25 ál. best | | $27\frac{1}{2}$ |
| Þrévetur | | 30 |

Geitfjárverd er allt eins og saudfjár.

Þad er lagsaudur, sem hefur mørk med hvørri alin; svo ad sá sem hefir 10

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| merkur, er 10 ál. ɔc. Allann mør skal til vega og líka garnmør. | | |
| Gilta tvævetur og eldri med 9 grísum | 1 | |

## 5ti Kapítuli.

### Hesta, hunda og katta verd.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Hestur fjøgravetra til tíuvetra lastalaus | 1 | |
| Hross eins gamalt | | 90 |
| Hestur þrévetur | | 90 |
| Hross þrévett, tveir partar kúgildis | | 80 |
| Hestur tvævetur 70 ál. edur | | 72 |
| Hryssa tvævetur 48 | | 50 |
| Hestur veturgamall 50 | | 52 |
| Hryssa veturgømul | | 35 |
| Gædíngar og stódhross med fyli, metfé. | | |
| (Nú plaga menn ad kaupa og selja hross, eptir sem þau eru væn til. Veturgømul fyrir 35 edur 40 ál. Fola fyrir mørk edur 10 aura, eptir sem þeir eru vænir.) | | |
| Folold á haust eptir gjørfugleik. | | |
| Hestfyl 15, 20, 30, mest | | 40 |
| Merfyl - - - mest | | 30 |
| Hundur dýrtækur | 1 | . |
| Smalahundur | | 60 |
| Dýrkøttur | | 30 |

# 6ti Kapítuli.

## Verdlag á fríðu apturfornu edur þess uppbót.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Kýr 9 vetra uppbætist 3 ál. 10 vetra | | 6 |
| Þá eyrir árliga; svo sem 11 vetra uppbætist hún 12 ál. ꝛc. 19 edur 20 vetra uppbætist hún | | 60 |
| Önnur B. l. kýr er seinast í gildi 8 vetra. Ofaná 9 vetra er 1 eyrir, og svo eyrir fyrir hvørn vetur upp frá því. | | |
| Gamalkýr er ei meira á haust enn | | 60 |

(Ef leigulidar kaupa gamalkýr á haustin, og eingin er sett aptur í fódur; þá borgi kúna 10 aurum og fódrid 40 ál. ellegar þeir svari aptur kúgildi; en landsdrottinn bæti þeim þá til gømlu kýrinnar 20 ál. edur hálfmørk, edur 5 aurum, eptir sem kýrin var slæm til.

12 ál. gjaldast fyrir kálffáng; en ei skal leigulidi ábyrgjast þó kýr fái ei, ef hann hefur gradúng med nautum sínum. 2 aurar liggja vid auga og svo vid horn og hala á nauti. 12 ál. koma ofaná þrispena kú, og svo ofaná 2 vetra kvígu mylka.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Gamalær med lambi á vor | | 15 |
| á haust | | 20 |

C. ál.

(Uppbót ofaná ásaudar-kúgildi hefur verid óviss og missøfn, almennast 20 ál. best 6 aurar. Skilríkir gódir leigulidar hafa aungva heimt, og medkéndt, ad 6 ær væru svo ágódasamar, ad þær bættu sig sjálfar upp. Forordníngin, sem skipar ad uppbæta kýr, gétur ekkért um uppbót á ásaudnum; hvad margir landsdrottnar hafa og brúkad fyrir ástædu. En flestir bændur, sem ei eru mjøg einþyckir, vilja heldur uppýngja ásaudar kúgildin, enn ad taka vid óhagvønu.)

Hestur edur hross uppbætt 11 vetra og sídan árliga, eyrir; verdur þá hundradshestur tvítugur 10 aurum, og hross 5 aurum. 6

10 aura hestur edur hross á vor, verdur á haust 30
reiknast þá háin 15 ál. og lísid 15 ál.

Ogéldtur hestur er mælt (þó ei í løgum,) 12 ál. lakari.

Nú er kalladur 5 aura munur á hestum, ef annar er géldtur, annar ógéltdur, þó løg leggi þá jafna.

## 7ᵈⁱ Kapítuli.

### Hagverd á sumar.

| | |
|---|---|
| Fyrir veturgamalt naut | 1 |
| tvævett 2 ál. rc. 6 vetra og eldra | 6 |
| Fyrir kú edur 6 ær | 3 |
| Med hvørju lambi, sem apturskilast á haust | 1 |

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| A vetur. | | |
| Fyrir hest edur hross til sumars, 3 vetra edur eldra | | 6 |
| en án þess ad kanna þá eptir hríd | | 5 |
| sé útigángur úrtoku gódur | | 10 |
| en þetta er mikils til ofdýrt stnuverd. | | |
| Frá sumarmálum til Þorláksmessu | | 5 |
| og þadan til veturnátta í heimalandi | | 5 |
| Fyrir rosknn saud, frá veturnóttum til sumars í heimalandi | | 1 |

Kapall er mæltur í haga á vetur vid 30 saudi í krafs. Þad er mælt, ad gamall saudur gángi kapal í hel.

| | | |
|---|---|---|
| Hagi fyrir eina á um vetur | | ½ |

* 5 aurar koma á 20 saudi frá veturnóttum og til sumars, og þar til stædi sitt á hvørn fót, og líka skal géfa á hvorja 20, sem burt er komid; og ábyrgist sá er tekur eptir løgum.

Ønnur B. l. segja. alin kémur undir hvørn saud frá veturnóttum til sumars, fyrir geymslu, hús og haga, þar til einn gjaldist á hvørn tug; og ábyrgist sá eptir løgum, er vidtekur; en ef sá leggur hrút til er geymir, þá koma 15 ál. med 10 saudum, en 5 aurar med 20; er þá gefin hálf ønnur alin med hvørri á. 7 aurar koma á eitt hundrad á heidlendi, mork á fjallendi; 10 aurar á hundrad fjár, ef hann hýsir sig sjálfur; þrenn stædi á 20 kúgildi. Sjá sídan kap. 27.

# 8^{di} Kapítuli.

## Heyverd.

C. ál.

Mælihlafs heys, kallad líka málfadmur (þad eru ad réttu 3 álnir, sem nú gánga hér á landi á hvorn veg, hæd, þickt og lengd;) og hafi í sér med reknaklifjum 7 málbandshesta, þad eru 14 sextán-fjórdúnga-klifjar, edur 28 vættir, selst nú jafnligast af tødu fyrir. 60

Onnur B. l. tveim mørkum er mælihlafs af tødu.

Utheys fadmur kostar 30

Tøduvætt er þá vel 2

En útheys vætt 1

Onnur B. l. Eyrir er vætt af grænni tødu tvíhristri.

*Málfadmur tødu er kúgildi til kaups. Hann á ad vera 3½ ál. á hvorn veg; 5 málbands klifjar eiga ad leysast úr málfadmi, og rekjuklifjar enar séttu ad auk. En þá eru málbands klifjar 20 ál. Málbands klifjar á ad binda medalmadur og medalkona í því reipi, sem hálfs þridja fadms er frá hvorri hogld, og krókur á enda odrum, enn hnesla á ødrum, og tveggja handfánga berføsullinn. Málbands klifjar skulu vera 18 fjórdúngs vondlar úr hvörri klif.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| *Tólf merkur og 20 af tødu tvíhristri er alin. | | |
| Í hardinda tíd selst málfadmur tødu fyrir | 1 | |
| Af lambgæfu heyi | | 72 |

Sá málfadmur skal hálfur vera høggfastur, en hálfur dráttarfastur. Einar málbands klifjar tødu reiknast og seljast 20 ál. Þad eru málbands klifjar, ad hvør klif vegi 2 vættir edur 16 fjórdúngs vøndla. Þad eru málbands reipi, sem 3 og hálfur fadmur er hvørt tagl frá høgldum. Adrir segja: 2 og hálfur fadmur og dráttartagl ad auk, silinn tveggja handfánga, á ødrum enda sé krókur, en ødrum hnesla.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Tødukapall selst nú tídast | | 10 |

Eru þad almennir baggar, hér um 10 fjórdúngar ad vigt; þó setja B. l. 32 merkur af tvíhristri tødu fyrir 1 al. Þau segja 12 hesta í mælihlassi; er þá hvør baggi 9 fjórdúngar og vel 12 merkur.

## 9di Kapítuli.

### Medgjafar dýrleiki.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Med snemmbærri kú er ekkért géfid edur | | 5 |
| Kýr, sem ber frá Allraheilagramessu til jólaføstu | | 10 |
| Med jólabærri kú | | 20 |
| Med þorrabærri | | 30 |

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Med þeirri, sem ber í midgóu, (og er hún kollud málbær) | 40 | |
| * Med kú til fódurs frá Mikjálsmessu og til Krossmessu á vor | 40 | |
| Med þeirri, sem kálflaus verdur fyrir (eptir) sumarmál, og eins med þeirri, sem fer heim med kálf sinn, mørk ɔ: 48 ál. Sumir segja | 50 | |
| Hafi annar kálf og nyt, er fódur | 60 | |
| (En þad er óflítil medgjøf í samburdi vid hina, sem ádur er talin.) | | |
| Med vetrúngi, ítem med géldri kvígu, veturgømlu nauti og eins tvævetru, med hvorju um sig * 24 ál. | 20 | |
| Med þrévetru nauti hálf mørk * 5 aurar | 25 | |
| Med fjøgravetra gømlu og eldra | 40 | |
| Med géldmjólkri kú | 30 | |
| Eins med géldri (sumir segja: kélfdri) kvígu ad fyrsta kálfi | 30 | |

Sá sem tekur fódurpeníng skal ábyrgjast vid handvømmum øllum; hann skal fúlgufé fæda til Krossmessu á vor, og hitta þann er fé á, og bjóda hønum ad taka vid fé sínu, og sýni hønum ad fært sé, og segi hønum af sína ábyrgd undir votta. Sá skal láta í fódur reka, er fé á; en sá skal heim reka, sem elur.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Fúlga med 4 lømbum nú | | 20 |
| En í Jónsbók var hún | | 12 |

Sá skal ábyrgjast sem elur. En fjórdúngsvirdi er gefid med lambi fyrir gætslu og hey, ef sá ábyrgist, er lamb á; en hinn geymi sem sitt, og borgi vid megurd.

Pad er mælt, ad sá sem bjargar einni á á vetrardaginn, hann skuli hafa í stadinn ull og mjólk á sumri.

| | | |
|---|---|---|
| Erfódur fæst valla fyrir | | 5 |

(En þá á hún ei ad lifa á sinunni einni úti.)

5 aura géfa menn, ad fódra ásaudarkúgildi frá hausti til vors.

| | | |
|---|---|---|
| Med folaldi | | 20 |
| Besta hesteldi vid tvær kýr | 1 | |

Lakara eptir samkomulagi.

Af løgbók sýnist ad ráda, ad eins og í haga teljast vid kú 10 saudir roskuir, eins sé og um fódur, ef allann vetur til fardaga eta 60

En 20 lømb, þó nú sé ødruvís.

Fódurtími kúa 32 vikur, er fjórdúngs vøndull á dag kýrgjøf, ef 28 vættir eru í málfadmi.

Ønnur B. l. þad er mælt ad géld kír hafi vøndul á dag af nytgæfu heyi, en tvo vøndla kú, er madur géfur til nytjar.

A viku kostar hey fyrir kú nær því 2

# 10di Kapítuli.

## Geymslukaup búfjár.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Heimrekstur á kú frá fardøgum og til Mikjálsmessu | | 3 |
| * Undir kú á sumarid frá fardøgum og til Mikjálsmessu, fyrir haga og heimrekstur, kémur eyrir | | |
| Fyrir óhagvant ásaudar kúgildi 6 ál. edur | | $5\frac{1}{2}$ |
| En hagvant ad vakta 4 ál. edur | | $3\frac{1}{2}$ |
| Kú ad vakta frá vetri til sumars og stoda bolli í annad mál (þad mun stirmørk) og besta kýrnyt, fyrir utan brodd mjólk. | | 4 |
| En framm ad fardøgum | | 5 |
| Ad geyma ad heidlendi 2 ær um vetur | | 1 |
| En á sléttlendi 2 þumlúngum midur. Á mýrlendi | | 1 |

Fimtán kúgildi optast ein skædi med hvørju. Sjá fyrir framan kap. 7.

* Ad geyma 4 saudi gamla, frá veturnóttum og til sumars, fyrir ábyrgd eptir løgum er eyrir.

Grágás. Leigl. Þ. þá leigulidi skilur eptir hey á jørdu, og vill þar géfa láta, þá skal hann kaupa gætslu á 10 kýr edur kúgildi 6 ál. vadmáls, þess er hæft sé til klæda; en landeigandi skal fá húsrúm og gætslu, enda ábyrgist vid megri og vangætslu.

### Nytkunar kaup.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Kú ad nytka i 4 daga er | | 1 |

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Í þrítugnættan mánuð | | 15 |
| (En þetta getur hvörugt staðist, og mun eiga vera 4 kýr að nytka í 2 daga er 1 al. í þrítugnættann mánuð 15 ál. og er þó ofurdýrt, sem sjá má af því sem fylgir.) | | |
| Merkurbolli af þikvu skiri kémur á að mjólka 20 kýr á dag, 10 í hvört mál. Sjá síðar 22 kap. | | |
| Ær að hýsa um vetur | | $\frac{1}{2}$ |
| Hrýtingar verð á 4 ær | | $\frac{1}{2}$ |

## 11.ti Kapítuli.

### Leiguhæð og dýrleiki eptir friðt.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Leiga eptir kú, eður 6 ær, eður hest | | 20 |
| En að fornu 2 aurar | | 12 |
| (Anno 1544, dæmt á Heggstøðum af Jóni b. Jónssyni og 6 mønnum laga ávøxtur eptir hvørt kúgildi: hálf vætt smjørs og tveir hlutar tunnuskirs. Anno 1573, dæmt af Fimmboga løgmanni: hálfvætt smjørs, skirtunna og sýrutunna.) | | |
| Eptir 8 lambgimbrar 2 fjórðúngar smjørs að fornu | | 12 |
| Eins eptir 7 mylkjur. | | |
| Eptir á $6\frac{2}{3}$ merkur smjørs að fornu | | 2 |
| Eptir hross (nema sé hestgildi) 9 ál. nú á tímum | | 15 |

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Eptir tvævetrann hest edur þrévett hross ad fornu eyrir, nú | 10 | |
| Eptir gëldmjólka kú eyrir, nú | 10 | |
| Eptir kvígu tvævetra sem vel mjólkar | 10 | |

Þær optast byggdar á mat edur til ábyrgdar leigulaust.

Smjørmørk á ad gjøra kúgildi leigufært í medal haglendi.

| | | |
|---|---|---|
| Gradúngs lán til einnar kýr á sumar 2 tødu vøndlar umframm á vetur. | | 1 |
| Fyrir hestlán edur hross vænst, krossmessna á milli, á dag edur þíngmannaleid | | 1 |

Um leigukýr og ær.

Kýr eiga ad mjólka 2 merkur fyrir fódri, fyrir ábyrgd adrar 2 merkur, og fyrir leigu þridju 2 merkur, til samans 6 merkur jøfnum mjøltum. En þetta á ad skiljast um þá kú, sem borid hefir um veturinn eptir Pálsmessu. Þad er ad forngildu køllud leigufær kýr, sem kémst til 6 marka (*7 marka) mjólkur, þá hún er best, og sama er haldid enn; edur mjólki hún 5 merkur á sumur ad jøfnum mjøltum; en til hálfrar leigu gjørir sú, sem mjólkar mjólkar, 3 merkur, vel svo. Þad er mælt, ad sú kýr, sem mjólkar hálfann fjórdúng (ɔ: 10 merkur) í mál á sumri, þá hún er sem best, hún skal gjøra 6 fjórd. smjørs á sumri. Allt leigufé skal sá ábyrgjast, sem leigir, utan vid bráda og lúngnasótt, késlíng, lambburdi og lystur reid (reidarslagi.) Ef lestir eru aordnir, hali slitinn, horn brotid, þá skal løstu bæta eptir løgum.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Fyrir fáng gjaldast | | 12 |

(Fyrst leigan er nú á dögum uppstígin til 20 ál. þá mætti fángbótin eins uppstiga; því hvorttveggja var. jafnt til forna, leiga og fángbót.)

Í þeim skrifum, sem nýliga eru útkomin, um þau pestdaudu ásaudar kúgildi, er kúgildis ávoxturinn útreiknadur sem fylgir:

Eg vil fyrst, segir þar, taka á einni smá og jafnmjólkri, en þó dropasamri kú, sem almenniliga kallast óleigufær stirtla. Hún skal standa géld 2 mánudi, og þarímót mjólka svo mikid, ad þad reiknist svo, ad hún mjólki í mál 2 merkur, en á hvorjum degi í 10 mánudi 4 merkur; hvad ef samanlagt er, þá verda þad 1216 merkur, en ad verdaurum, ef 50 merkur mjólkur eru eptir gomlum B. l. lagdar í 5 ál. verdur þad C. $1\frac{1}{2}$ al. En sé medalk.r, sú er kélfir um veturinn eptir Pálsmessu, til eptirdæmis tekin, þá verdur þad svo látandi: Þann fyrra part Februarii kémst hún til 8 marka í mál, en þann sídari part þess mánadar til 7 marka, sem gjorir til samans 420 merkur. Fyrra part Martii mjólkar hún í mál 6, en þann sídari 5 merkur: gjorir 340 merkur. Fyrra part Aprilis 4, en sídari 3 merkur: gjorir 210 merkur. Allan Majum út skal hún standa vid 2 merkur: gjorir 124 merkur. Med Júnio edur eptir fardaga fer hún ad græda sig smámsaman; svo hún mjólkar fyrstu viku Júnii 3 merkur, adra 4, þridju 5, fjórdu 6, og 7 merkur: gjorir 242 merkur. Fyrra part Júlii kémst hún til 8 marka, eins og þá hún mjólkadi best um veturinn, en seinni part

Júlii alleinasta 7 merkur: gjørir 440 merkur. Fyrri part Augústi mjólkar hún i mál 6, en sídari 5 merkur: gjørir 332 merkur. Fyrsta þridjúng Septembris 4, hinn annann 3, hinn seinasta 2 merkur: gjørir 180 merkur. J Octobri ætla eg henni mørk og hálfa mørk, edur ad lyktum minna; en þad gjørir þó vel 40 merkur; hvad allt, til samans lagt, verdur 2334 merkur; en til verdaura, ef 50 merkur eru lagdar i 5 ál. gjørir þad C. 113⅔ ál. En komist kýrin til 6 marka, og mjólki svo á hverjum árstns tíma eptir proportion, sem sagt er; þá verda þad 1751 mørk, en ad verdaurum C. 55 ál. Sé nú farid ad reikna allan þann kostnad, sem hafdur er fyrir þvílíkum kúm, þá verdur fódrid 60 ál. leigan 20 ál., haga beit, hús og umhirdíng 20 ál., verda 100 ál. Hefur svo bóndinn til góda af 8 marka kúnni C. 13⅔ ál. Af 6 marka kunni 75 ál. En af skirtluuni, sem fyrst var umgétid, 21½ ál. Og hafi ecki bóndinn af þessum gripum svo mikid gagn, þá er þad hans vanrækt og illri medferd ad kénna, hvørs enginn á ad gjalda, nema sjálfur hann. Læt eg þetta svo sagt vera einasta um innstædukýrnar. En um ásaudinn gét eg færra talad; því hér á Sudurlandi er svo illa med hann farid, ad enginn er von á stórum gagnsmunum eptir hann; því hér má saudfé, jafnvel á megurdar- og landkreppu-jordum gánga úti gjafarlaust, húsa og hirdingar litid, og þad helzt, þá mest áliggur, sem er þá móti vorinu sækir; því þá er vída ordid heyjalitid; en ei til voktunar allvídast nema kvennfólk og únglingar; því fært og fullordid fólk er þá flest til sjóar komid. Géngur því féd svo horad undan, ad þad varla edur ecki fædir lømb sín; og gjørir því ei á sum-

rin helmings, já þridjúngsgagn vid þad, sem af því mætti hafa, ef betur væri medfarid. Og þetta er orsökin, hvarfyrir állfáir hér um pláts vita, hvad mikid gagn menn kunna af einu ásaudar kúgildi ad hafa. En svo illa, sem hér er ad saudfénu búid, þá hefir eg þó heyrt fornúftuga búmenn segja, ad allt ef ærin fædir lamb sitt, þá gjöri hún fullkomliga til sinnar leigu edur nockud betur. Posito, ad þvílíkar 6 ær gjöri hid mesta 3 fjórd. smjörs, hálfa tunnu skirs og hálfa tunnu sýru, sem ad verdaurum hleypur 65 ál. hvar til kémur ull þeirra og lömbin, til samans 40 ál. svo importerar þad á ári 105 ál. Hvarámóti uppákostnadrinn er allsvidast enginn, utan leigan 20 ál. og eru þá eptir 85 ál. sem bóndanum heim falla. Hvarímót, ef þær væri betur haldnar, svo gjördu þær tvöfaldt meira gagn, ad minsta kosti 4 fjórdúnga smjörs, 1 tunnu skirs, 1 tunnu sýru; svo ábatinn yrdi þá ad vísu C. 30 ál. Vilji einhvör segja, ad eg fari med þær ofgar, sem ei er hæfi til, þá vil eg framar stadfesta mál mitt med eptirfylgjandi vitnisburdum: 1) Dómi Olafs biskups Rögnvaldssonar, gjördum Anno 1473, hvar hann og meddómendur dæma Þórarinn Þórarinsson landseta Hólastadar, sem ei hafdi goldid leigur eptir 6 innstædukúgildi, skyldugann ad betala eptir hvört kúgildi 4 fjórdúnga smjörs, 1 tunnu skirs, og 1 tunnu sýru, og annast þau þó ei ad sidur; því einn þridjúng ábatans láta þeir hönum eptir þarfyrir. 2) Fortölum nockra skynsamra og sannordra manna í Isafjardar og Stranda sýslum, hvar ám er alltid hey ætlad og géfid vel, sérdeilis þá framm á lidur, jafnvel þó hagi sé til. Þeir hafa sagt mér, ad hvör vel haldin ær mjólki þar 2 og

jafnvel 3 merkur í mál, þá vel lætur. Sá Prestur lifir enn, sem sagt hefir, ad hann hafi þeckt þá á, sem mjólkad hafi 5 merkur. 3) Med vitnisburdi þess nafnfræga vitra manns Páls lögmanns Wídalíns, sem héldt gott ásaudar kúgildi fyrir þad gagnsamasta hundrad, sem á Íslandi feugist; hvar til ein hin fornemsta orsök væri, ad þad þyrfti í bæriligu ári mjög lítinn uppákostnad, edur optast ei meir enn 10 à 15 ál. virdi, og má þó vera vel haldid.

## 12^ti^ Kapítuli.

### Haustlag á slátrum.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Sé eptir mör farid, er mælt, ad saudur med mörkum 10 fé | | 10 |
| og svo frammvegis. Med 20 mörkum mörs | | 20 |
| Skammrif af þrévetrum edur gömlum saud edur hrút med bægjum | | 6 |
| Bægir af saud eru | | 2 |
| Krof af hrút edur gömlum saud vegi hálf vætt; og standi á hæklum þurt | | 10 |
| Krof af tvævetrum saud edur géldri á | | 7 |
| Skammrif og bægir af tvævetrum edur géldri á 3½ edur | | 4 |
| Krof af veturgömlum edur mylkri á, sem tekid hefur bata, og er skorin um Allraheilagramessu | | 5 |
| Bægir med skammrifum af soddan kropp | | 2½ |
| Annars reiknast kroppur af þrévetrum, edur gömlum, edur hrút fyrir | | 18 |

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Og ef krofid vegur hálfvætt og stendur á hæklum þurt | | 20 |
| * En af tvævetrum edur géldri á | | 12 |

(Þá er líkligt, ad skammrif og bógar egi med ad fylgja.)

* Þad er kalladur lagsaudur, er mörk mörs hefir med hvorri alin, hvort sem hann er úngur edur gamall. Þar skal allann mör úrvega og líka garnmörinn. Sé í honum fjórdúngur, þá er hann 20 ál. en sé í honum $1\frac{1}{2}$ fjórdúngur, þá er hann 5 aurum; eru í honum 2 fjórdúngur, þá er hann 40 ál. og rétt góldinn hvor fyrir sig í Guds tiund, og alin dýr med hvorri mörk, þó meiri sé mör í honum.

* Fimm aurum er gamall géldingur á haust til sölu, ef þeir reiknast ecki vid, sá er selur, og hinn er kaupir, hvad í honum er.

* Þad er kallad lagneyti. ad fjórdúng mörs hafi med hvorjum vetri.

| | |
|---|---|
| * Limir af veturgomlu lagneyti | 6 |
| af tævetru | 12 |
| af þrévetru | 18 |
| af fjogravetra | 24 |
| af fimmvetra | 30 |
| af sexvetra | 36 |
| af sjovetra og eldra | 42 |

Önnur B. l. þjó af tvævetru nauti fyrir 10 ál. 5 ál. er bógur; 5 ál. er skammrif. Eyrir sída. 12 ál. hryggur. 5 ál. er fjórdúngur af öllum smávögar mat, þad er allur beinlaus matur, ad Marteinsmessu, sem var slátrad fyrir veturnætur.

* Höfud af gamalkú er eyrir.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Ef saud er uppskipt, þá er þjó edur lær | | 2 |
| hryggur | | 3 |
| bægir | | 1 |
| sídur med huppum | | 5 |
| skammrif bægjalaus | | 5 |

## 13^{di} Kapítuli.

### Sala á feitum mat.

| | C. | ál. |
|---|---|---|
| Sumar smjör 2 merkur edur skálapund | | 1 |
| En 20 merkur edur fjórdúngur nú | | 10 |
| Og 12 fjórdúngar edur smjör hálftunna | 1 | |
| Vetrarsmjör $2\frac{1}{2}$ mörk 1 al. en fjórdúngurinn | | 8 |
| Lögbók sýnir, ad smjörfjórdúngur í fyrri tíd hefur kostad eyrir; verda þá $3\frac{1}{3}$ markar í alin. | | |
| Tvíbrædt hángid flot er jafnt smjöri 2 merkur | | 1 |
| Og fjórdúngurinn | | 10 |
| Mör selst gjarnan 28 merkur | | 10 |
| En vætt og 8 merkur 10 aurum | | 60 |
| Mör segja önnur B. l. $2\frac{1}{4}$ (*$2\frac{1}{2}$) mörk | | 1 |

* Tvær tunnur mörs C. og er illt.

